Andlegt

# Viku-Sálma- og Bæna-safn,

ásamt

## Hátíða- og Helgidaga-bænum;

einnig nokkur

## Kvöld- og Morgun-vers.

Allt eptir ýmsa höfundi.

Kostnaðarmaður:

**Grímur** bókbindari **Laxdal.**

**3. útgáfa**
endurbætt og aukin.



**Akureyri 1856.**
Prentað í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins,
af Helga Helgasyni.

Bænin má aldrei bresta þig,
búin er freisting ýmislig,
þá líf og sál er lúið og þjáð.
lykill er hún að drottins náð.

**H. P.**

Jesús sagði: „Þjer egið jafnan að biðja og ekki þreytast.“

Matth. 7, 7. 1. Thess. 5, 17.

# Stutt ágrip

af

# æfi Jóns heitins Jónssonar,

er fyrst var prestur til Grundar- og Möðruvalla-þingabrauðs í Eyjafirði, og síðar að Möðruvalla-klausturs-brauði í Hörgárdal; fáorðlega í letur fært af dóttursyni hans sjera Jóni Thorlacius.

---

Jón prestur Jónsson var fæddur að Guðrúnarstöðum í Eyjafirði 4. dag ágúst-mánaðar 1759. Faðir hans var sjera Jón prestur til Grundar og Möðruvalla, Jónssonar lögrjettumanns, er lengi bjó á Bakka í Svarfaðardal, Oddssonar bónda á Skeiði, Jónssonar bónda á Melum, í sömu sveit; frá Jóni þessum er kominn mikill ættspringur og göfugur, eður hin svokallaða Melaætt, t. a. m. prófastur sjera Pjetur á Víðivöllum; sjera Þorlákur, fyrrum prestur til Húsavíkur; fjórðungslæknir Jón Pjetursson; Guðríður, húsfreyja herra Sigurðar byskups Stefánssonar, og margt fleira tíginna manna. Móðir sjera Jóns var Sigríður Bjarnadóttir, hálfbræðrabarn við prófast sjera Sigfús Jónsson á Höfða, en 5. ættliður frá Guðbrandi byskupi Þorlákssyni, 8. frá Jóni byskupi Arasyni, 11. frá Lopti ríka á Möðruvöllum, og 16. frá Guðmundi ríka á Möðruvöllum[1].

Jón ólst upp hjá foreldrum sínum, fyrst á Guðrúnarstöðum, þangað til á 9. aldurs ári, og síðan á Stóru-Grund

[1]) Ekki áttu þau Jón prestur og Sigríður fleira barna.

í Eyjafirði; þar var hann í 17 ár hjá foreldrum sínum, en 18. árið reisti hann þar bú, sama vorið og foreldrar hans fluttu þaðan að Núpufelli. Ári síðar flutti hann einnig þangað til þeirra, og bjó þar alls í 12 ár. Þá flutti hann enn búferlum að Möðrufelli í Grundar-sókn vorið 1798, og bjó þar í 41 ár, unz hann loks flutti vorið 1839 út að Ytra-Dunhaga í Möðruvalla-klausturs sókn, hvar hann dvaldi það eptir var æfinnar, eða um fullan 7 ára tíma.

Það sýnir eitt meðal annars, hvílíkur vísinda- og lærdómsmaður faðir sjera Jóns var, að hann kenndi syni sínum að öllu leyti sjálfur heima hjá sjer, og bjó hann svo úr garði, að þegar skólameistari mag. Hálfdán Einarsson útskrifaði hann árið 1780, dáðist hann mjög að lærdómi hans og þekkingu í bóklegum vísindum. Þremur árum síðar var hann, eptir áeggjan strax nefnds skólameistara, af föður sínum kallaður sjer til aðstoðar í prestsembættinu, og síðan vígður til prests að boði sama hálærða manns[1], er þá þjónaði í stiptprófasts stað, á Hólum í Hjaltadal 1. dag júnímánaðar 1783; var hann þá á 24. aldurs ári. Síðan var hann aðstoðarprestur föður síns í full 12 ár, eður þangað til hann burtkallaðist 2. dag júlímánaðar 1795, og svo eptirmaður hans í Grundar- og Möðruvalla-prestakallinu, er hann þjónaði í 41 ár, 9 seinustu árin með aðstoð sjera Jóns sonar síns[2]. Hafði sjera Jón ásett sjer að sækja aldrei um annað prestakall, enda þótt Grundar-brauðið sje talið eitt með hinum fátækari, og hann ætti kost á öðrum miklu inngjaldameiri brauðum; hví hann áleit það samvizkuefni fyrir sig að sækja um slík skipti að eins í líkamlegs hagnaðar og ánægju skyni. En þegar Möðruvalla-klausturs-brauðið losnaði árið 1838,

---

[1]) Sjera Jón var vígður af sjera Jóni Jónssyni prófasti í Hegranessþingi.

[2]) Meðan báðir feðgarnir lifðu, var hann kallaður sjera Jón yngri, og þetta sama nafn hlaut einnig sonur hans, eptir það hann gjörðist aðstoðarmaður hans.

ljet hann þó tilleiðast að sækja um það fyrir þrábeiðni amtmanns Bjarna heitins Thorarensens, og veitti stiptamtmaður Bardenfleth honum það þá strax, án nokkurs meðmælingarbrjefs frá hlutaðeigandi prófasti, eður öðrum út í frá! var hann þá kominn á áttræðasta aldurs ár, er hann flutti burt úr Eyjafirði. Þessu prestakalli þjónaði hann samt einsamall í rúm 6 ár, þángað til hann kallaði loks sjer til aðstoðar dóttursonn sinn stúdent Jón Einarsson Thorlacius frá Saurbæ í Eyjafirði; átti hann þá eptir rúmt 1 ár ólifað.

Þegar sjera Jón hafði 7 um tvítugt, gekk hann að eiga jómfrú Helgu Tómasdóttur haustið 1786; hún var fædd að Saurbæ að Eyjafirði 17. dag janúarmánaðar 1770. Foreldrar hennar voru þau sjera Tómas Skúlason, prestur fyrst að Saurbæ. og síðar að Grenjaðarstað, og Álfheiður Einarsdóttir, systir stiptsprófasts Mag. Hálfdáns Einarssonar. Börn Jóns prests og Helgu voru þessi:

1, Jón. fæddur 1787; sigldi til Kaupmannahafnar 15 ára gamall, var erlendis full 20 ár, kom síðan inn aptur, og varð aðstoðarprestur föður síns, og loks eptirmaður hans í embættinu.

2, Sigríður, fædd 1790; giptist sjera Hákoni Espólín, sem nú er prestur að Stærraárskógi.

3, Margrjet, fædd 1792; giptist sjera Einari Thorlacíus, presti að Saurbæ í Eyjafirði.

4, Álfheiður, fædd 1794; giptist sjera Hálfdáni Einarssyni, bróðursyni móður hennar, presti fyrst að Kvennabrekku í Dalasýslu, hvar kona hans andaðist 1833, en síðar að Brjámslæk á Barðaströnd.

5, Tómas, fæddur 1795; deyði 1798 úr barnaveikinni.

6, Þorsteinn, fæddur 1797; deyði ársgamall úr sömu veiki.

7, Guðrún, fædd 1801; lifði í föðurhúsum ógipt, þangað til hún andaðist 1835, þá á 42. aldurs ári.

Helga kona Jóns prests, andaðist að Dunhaga 25. dag júnímánaðar 1841; það var kvennval hið mesta, fríð sýnum, og að því skapi kvennkostum búin. Höfðu þau hjón þá lif-

að saman í hjúskap nálægt 55 árum; hún var á 72. aldurs ári, þegar hún ljezt, en hann hafði þá 2 vetur um áttrætt.

Meðan Jón prestur sat að Grundarbrauðinu, hlaut hann opt að vera viðriðin afskipti ýmsra opinberra stiptana, t. a. m. við spítalahald og reikninga hans, allt á meðan hann bjó i Möðrufelli; við sáttanefndar-emhætti, þangað til hann flutti burt úr Eyjafirði — og tókst honum að koma sættum á rúm 150 þrætumál —; við umboðshald Munkaþverár-klausturs-góz, sem settur lögverjari ekkju þeirrar, er það hafði á hendi, og sem var skyldmenni konu hans; við meðumsjón fátækra fjárhyrzlunnar á Akureyri; þar á ofan við reikningsfærslu-ransókn þeirra sjálfseignar kirkna, sem hann þjónaði og við aukaútsvars-niðurjöfnun og hreppsómaga-ráðstöfun í allri sveitinni, því kirkjusóknir hans voru partar af þremur hreppum. En af því álit hans um sum hver þesskonar málefni var nokkuð frábrugðið skoðunarhætti sumra annara manna, komst hann á stundum við það í opinber kærumál, (enda fyrir rjetti), og ljet sig þá jafnan í ljósi, eins og ætíð endrarnær, þegar hann einhverra orsaka vegna neyddist til að takast á hendur vandasöm rjettarmál, bæði í ræðum hans og ritmáli furðu mikil lagaþekking, sannfæringar- og mælsku-kraptur, sem opt og tíðum ekki mun hafa stuðt alllítið að því, að mál hans fengu þau endalok, er þau höfðu.

Af prentuðum ritgjörðum liggur nokkuð eptir prest þenna, en þó miklu meira af óprentuðum handritum, er sumpart eru útþýðingar andlegs efnis úr þýzku, svensku, ensku og dönsku. Í guðfræði og öðrum andlegum efnum, eru til eptir hann á prenti.

1. Evangelisk smárit, fram undir 80 að tölu, á hjer um bil 120 örkum; þau komu út á ári hverju, og eru prentuð í Kaupmannahöfn. það sýnir ljóslega, hve mikið far þessi guðsmaður hefur gjört sjer fyrir því, að útgáfa þessara smárita ekki skyldi farast fyrir, þótt hans missti við, að hann skömmu fyrir andlát sitt stofnsetti, að mestu af eigin ramleik, 1000 rd. sjóð, er settur er á vöxtu gegn konunglegum

skuldabrjefum, og ætlaðist hann til, að af ávöxtunum skyldi árlega gefast út nokkur evangelisk smárit,¹ og þau síðan útbítast að mestu leyti gefins meðal fátækrar alþýðu á Íslandi; en umsjón reglulegrar útgáfu þessara rita er á hendur falin prestinum Jóh. Friedr. Matthiesen, „Agent“ hins Moeriska bræðra-safnaðar í Kaupmannahöfn (Stormgatan, Nr. 197). Óskandi væri, að þeir, sem þess eru umkomnir, vildu halda áfram þessu lofsverða fyrirtæki!

2. Sönn guðhræðsla, á 22. örkum, prentuð í Kaupmannahöfn 1839. Útgáfa beggja þessara bóka segir sjera Jón sjálfur að kostað hafi sig „meir en 2000 rd.“, en ýmsir góðir menn bæði innan lands og utan hafi mikilega styrkt sig, en samt einkum hið engelska „Tract-Society“, eður smárita fjelag í Lundúnaborg.

3. Fernir vikudaga sálmar og bænir, á hjer um bil 4. örkum, útgefnir á hans eigin kostnað, og prentaðir í Kaupmannahöfn 1832.

4. Yfirskoðun hinnar eldri útleggingar á dómarabók gamla testamentisins, ásamt spámannanna Esaíasar og Jeremíasar, saman við upprunamálið. Þessa yfirskoðun fól biblíufjelagið honum á hendur, áður en biblían var seinast prentuð í Viðey 1841, en umbreytti henni samt töluvert. Líka hefur hann að nýju útlagt báðar Samúelsbækurnar, þó sú útlegging sje ekki í nýju biblíuútgáfunni.

En af óprentuðum handritum er til eptir hann um andlegt efni:

1. Samtal milli Páls og Sáls um kristindóminn og hans sönnu iðkanir útlagt úr dönsku, er hann kallar: fátæks manns húsbók; fyrsti parturinn af því fór til Sigurðar byskups Stefánssonar.

2. Um ástand kristindómsins á þremur fyrstu öldunum eptir fæðingu Krists, er hann kallar: blóðskírn.

3. Lífssaga kristilegrar kirkju, er hann svo nefnir: hljóðar um ástand hennar og útbreiðslu allt í frá Krists tímum til vorra daga.

4, Sporons lærdómsbók í kristindóminum, handa börnum.

5, Hugleiðingar yfir guðlegs lífernis miklu nauðsýn og nytsemi.

6, Útskýrandi hugleiðingar yfir Ungdómssögu Jóhannesar skírara og Jesú Krists, eptir rjettri niðurraðan; handrit ófullkomnað.

7, Hugleiðingar yfir trúarbrögðin, bæði hin náttúrlegu eptir skynseminni, og hin opinberuðu eptir ritningunni, samanborin við Talmúð Gyðinga, Zendavestu Persa, Kóran Tyrkja og lærdóm Zóróasters, eður trúarbrögð Kínverja; handr. ófullk.

8, Þankar til eptirþanka um ástand guðs kirkju á fyrri og seinni tímum; handr. ófullk.

9, Útskýringar yfir fyrstu kapítulana af opinberunum Jóhannesar; handr. ófullk.

10, Útlegging Nyemeyers skólalærdómsbókar, með athugasemdum þýðandans.

11, Nokkrir fyrirlestrar yfir fyrstu 7 kapítulana af guðspjalli Jóhannesar, haldnir í hans fyrra prestakalli í Eeyjafirði.

12. Leiðarþráður útúr völundarhúsi vantrúarinnar, gegn Deistum og Sócinianistum.

Auk þessa eru eptir nefndan prest ýmist „kritiskir og antikritiskir“ ritlingar andlegs efnis, svo sem:

1., yfir nýju messusöngsbókina, þegar hún kom fyrst út, er svarað var löngu síðar af prestinum til Mela í Melasveit sjera Bjarna Arngrímssyni, og sem sjera Jón svaraði aptur strax er honum gafst færi á því.

2., Þess utan átti hann í stríði við ýmsa lærða menn út af slíku efni, er laut bæði að trúarbrögðunum yfir höfuð, og andlegum skáldskap sjer í lagi; einkum var það samt við Konferenzráð og Dr. Magnús Stephensen í Viðey, og svo sendibrjef þeirra öll samantekin ekki alllítill bæklingur.

3., Líka hefur hann svarað tveimur mönnum. er sett höfðu út á sumt af innihaldi hinna evangelisku smárita, og þar á ofan 2. geistlegum, er gjört höfðu hið sama.

4., þessum síðarnefndu svörum sínum, sneri hann á danska tungu: og ljet prenta þau í Trúarbragðablaði Rönnes prests árið 1833; sjá Nr. 10. 11 og 12.

5., Í tjeðu blaði finnst og frá honum ritgjörð á dönsku um Ísland, einkum um þess andlega ásigkomulag; sjá Nr. 46—48 árið 1830.

6., Eitt af sendibrjefum hans finnst og á engelsku í „Repart of the Tract-Society" í Lundúnum.

7., Til munu og vera eptir hann kritiskar athugasemdir á latínu yfir eina andlega bók, er út hefur komið ekki alls fyrir löngu; sem og líka

8., yfir seinustu útgáfu nýja testamentisins á sama tungumáli. Sömuleiðis er til eptir hann:

9., ritkorn á dönsku um hina heilögu kvöldmáltíð; loksins, auk áðurtalins,

10., Uppkast með hans eigin hendi, ritað með ofursmárri og bundinni fljótaskript, meir enn á 70 örkum, sem inniheldur ýmsar andlegar og uppbyggilegar frásögur, útlagðar mest úr þýzku og ensku, og eru fáeinar af þeim prentaðar meðal hinna evangelisku smárita.

Í náttúrufræði, og öðrum veraldlegum efnum, hefur hann útlagt:

1., Rit eitt eptir Fr. Suhm, sem hann nefnir náttúruskoðara[1], með skýringargreinum frá sjálfum þýðandanum; því fylgir og annar ritlingur um dygðina, eptir sama mann; prentað á Leirárgörðum 17 . . ; en þriðja bæklingnum um kristindóminn, eptir sama hálærða höfund, vildi Konferenzráðið, er þá stýrði prentverkinu, ekki veita viðtöku, en finnst þó prentaður meðal hinna evangelisku smárita; sjá Nr. 30. Sömuleiðis:

2., bók þá, er kallast, die grosse welt-Stube, þ. e. hin mikla veraldarstofa Líka hefur hann samið:

---

[1]) það er mishermt í kirkjusögu Dr. Pjeturs., að náttúruskoðarinn sje í fyrstu saminn af Ström; nei, ekki af honum, heldur af Fr. Suhm, hinum danska nafnfræga sagnaskrifara.

3. ritkorn um vallarmælingu, er prentað finnst í 9. ári hinna eldri Fjelagsrita; og

4., eptirþanka, vakta við yfirlestur hins nýja tímarits er nefnist Fjölnir. Ýmislegt fleira liggur eptir þenna merkismann, áhrærandi reikningslist og mælingarfræði, t. a. m.

5., um tímareikning, eður undirstöðu æfinlegs almanaks, og margs fleira þar að lútandi. Í búskaparfræði hefur hann og samið:

6., ritling einn um jafnvægi búdrýginda millum sauða og útlendra matvæla, sem prentaður er í Kaupmannahöfn 1801, og þrátt fyrir hans mörgu ritvillur þó opinberlega launaður. Um þesskonar búskaparleg málefni hefir hann og fleira ritað, t. a. m.

7., um hinn sannsýnilegasta niðurjöfnunarmáta aukatillagsins til fátækra hreppslima, sem allt gekk til Konferenzráðs amtmanns St. Thorarensens. Sömuleiðis:

8., æðilanga ritgjörð, er hann kallar Fornjót, um jarðavirðingu, landauraverðlag og föst leigukúgyldi; bækling þenna sendi hann byskupi Geir Vidalín. Loksins hefur hann nýlega útlagt úr þýzku.

9., ritgjörð nokkra eptir læknir Strahl í Berlín um undirlífssjúkdóma og þeirra líkvænlegasta lækningarmáta; að ógleymdri

10., Dagbók þeirri yfir veðráttufar og annað, er viðbar á hverjum degi, er hann einlægt hjelt frá árinu 1785 og allt til dauðadags.

Í bundinni ræðu er og ýmislegt til eptir prest þenna, bæði andlegs efnis og veraldlegs, frá yngri og eldri árum. Af hans andlega má fyrst telja:

1, Útlegging Er. Pontoppídans blóðskírnar, í 5 sálmum.

2, Gellerts andlegu söngvar, 50 að tölu, útlagðir úr þýzku.

3, Enn aðrir 50 sálmar ýmislegs efnis; og þess utan

4, hjer um bil 20 sálmar, er finnast prentaðir í hinum evangelisku smáritum. Auk þessa hefur hann orkt:

5, hjer um bil 40 siðferðisleg eptirlíkinga-kvæði, sem flestöll eru dregin út úr verkum Gellorts. Enn fremur hefur hann sett í rímnalags ljóð

6, efni það, er hann kallar andlega veraldar-þanka, fyrst um alveröldina, og stærð hennar yfir höfuð; þar næst um vorn veraldarhnött sjer í lagi, nefnil. aldur hans og æfisögu-ágrip; og í þriðja lagi um byggingu þessa vors hnattar út af fyrir sig, og landaskipun. þessir þankar eru útlistaðir í rúmum 250 erindum. Enn er til eptir hann:

7, Rímmanns-ríma, er hann svo kallar, í 3. flokkum, nefnil. um undirstöðu rímsins, og þess reiknings aðferð. þessir rímnaflokkar innihalda 219 erindi, auk rúmra 30 minnisvísna, sem útlista með dæmum allgreinilega aðalefnið. Undir sama ljóðmælalagi hefur hann og búið til

8, hjer um bil 26 smáflokka af eptirlíkinga-vísum, sem allar eru siðferðislegs efnis. Á yngri árum samdi hann einnig

9, 5 rímur út af 1. bók Virgilii Æneidos; og þess utan ýmsar einstakar rímur ómerkara innihalds, sem flestar eru glataðar.

Margar grafskriptir, erfiljóð nokkur og brúðkaups fyrirmæli eru og til eptir hann, flest á íslenzku, nokkuð á latínu, sumt prentað, en þó flest óprentað: Af latínskum versum hefur hann líka samið töluvert, sem flest allt er siðferðislegs og andlegs efnis.

þess er að geta, að af því prestur þessi komst fyrir ritgjörðir sínar í skriflega viðkynningu við ýmsa merka menn erlendis, t. a. m. á Englandi við hinn nafntogaða merkismann Dr. Eben. Henderson, og fleiri þar; við „Archidiaconus“ Wiether í Jtzchoe; við hinn ágæta mann Gilbert v. d. Smissen í Altóna, riddara að nafnbót, sem hann hafði brjefaskriptir við hjer um bil í 20 ár; við hinn sæla guðsmann prestinn B. F. Rönne í Lyngbye, og við fleiri lærða menn;

þá sendu þeir honum, einkum riddari Smisson, margar ágætar bækur, allar eður velflestar andlegs og guðlegs innihalds, margar af þeim á þýzku og engelsku, en þó sumar á svensku, hollenzku, frönsku og dönsku tungumáli. Allar eður flestar þessar bækur gaf hann aptur Grundarkirkju í Eyjafirði, þegar hann flutti þaðan, svo kirkja þessi á nú töluvert bókasafn.

Það mun mega fullyrða, að sjera Jón hafi verið — þegar á allt er litið — einhver hinn lærðasti af samtíða prestum hjerlendis, enda þótt ekki verði á móti því borið, að ritgjörðir hans, vísindalega skoðaðar, ekki beri að öllu leyti á sjer búning þann eður blæ, er sambjóði lærdómi þessara tíma.

Sem málfræðingur var hann einkar vel að sjer, og skildi hann — auk móðurmáls síns — latínska, hebreska, gríska, þýzka, engelska, svenska franska og danska tungu, og ritaði líka sum þessi mál svo viðunandi var, einkum latínu, er honum ljet einkar vel. Þessa málfræðislegu þekkingu jók hann líka töluvert með því, að hann kenndi undir skóla hjer um bil 15 piltum, og voru 2 af þeim útskrifaðir strax undan hans hendi, og vígðir til prests án nokkurrar frekari uppfræðingar. Á reikningslist og mælingarfræði lagði hann mikla stund á framanverðri æfi sinni, því hann var mjög hneigður fyrir þetta hverttveggja; líka var hann rímmaður hinn mesti. Einnig hafði hann — eins og áður er ávikið — aflað sjer töluverðrar þekkingar á íslenzkum lögum, og á læknis- og grasa-fræði, er hann nam mest af föður sínum, orðlögðum lækni á þeirri tíð. Sömuleiðis var hann talinn skáld gott, bæði á íslenzk ljóðmæli og latínsk.

Sem prestur átti hann fáa sína líka, því þótt hann legði mikla stund á ýmisleg önnur vísindi, eins og þegar er á minnst, var samt guðfræðin hans mesta eptirlætis iðja, og rjett sem lífið í öllum hans lærdómsiðkunum. Það var jafnan vandi hans að tala upp frá brjóstinu, en hafði að eins litla brjefræmu hjá sjer með ræðuskiptunum á og tilvísun-

um, og samt varð honum aldrei orðfátt, heldur bar hann jafnan hratt á, og það á stundum svo mjög, að hann ekki varð nógu fljótur að koma því fram, er inni fyrir var. Kenningin var kraptfull og áhrifamikil, framburðurinn skörulegur, söngröddin mikil, en fremur stirð. Honum er hvervetna viðbrugðið fyrir það, hve staklegan áhuga og óþreytandi árvekni hann alla jafna lagði á prestsembætti sitt og kennimannlega skyldu utan kirkju sem innan, og þó að sumum þækti hann heldur til vandlætingasamur (sjá kirkjusögu Dr. Pjeturs á bls. 394), var honum það fyrir minnstu, þótt hann væri af mannlegum dómi dæmdur, því hann hafði það jafnan fyrir fasta reglu, sem stendur í sendibrjefinu til Galatíu-manna, kap. 1, vers 10; eins og líka allir þeir, sem nokkuð þekktu þenna merka guðsmann, hljóta að ljúka upp sama munni með það, að hann hafi jafnan borið sóknarbörn sín fyrir brjósti sjer, og ekki getað glaðst nokkurri meiri gleði, heldur enn þeirri, sem Jóhannes postuli telur hina mestu, er hjarta hans geti á móti tekið, (3. Jóh. 1, 4. Um embættistíð sína hafði hann skírt fyrir víst 443 börn, en sungið yfir 357 líkum.

Sem húsfaðir var hann fyrirmynd flestra annara, því hann var ástríkur eiginmaður, blíður faðir, góður og nærgætinn hússbóndi, og — það, sem mest var í varið — hann prýddi hús sitt og heimili með iðuglegri brúkun guðs orðs, bæn og árvekni; hvar sem hann var staddur, og hvar sem hann gekk, þá var hann jafnan á eintali og stöðugri bæn við sinn himneska föður, mitt í því sem hann var ætíð þess á millum eitthvað að fást við bóklegar menntir og vísindalegar iðkanir — því sjaldan var hann iðjulaus; en af búskap og öðrum hversdagslegum umsýslunum skipti hann sjer lítið á seinni árum, heldur ljet konu sína og aðra út í frá að mestu leyti sjá um það. Þegar einhverjir komu heim til hans, var hann glaðvær og gestrisinn, og veitingamaður mikill, og skemti þá gestum sínum með fögrum og fræðandi viðræðum; líka var hann þá mjög tilhliðrunarsamur í tali,

svo að þá, sem þekktu nokkuð til skaplyndis hans, mátti enda furða á því. Bú hans og efnahagur stóð jafnan föstum fæti, enda kunni hann líka vel með að fara.

Það er mælt, að sjera Jón hafi á yngri árum, verið fjörmaður mikill og ákafur í skapi, en á efri hluta æfi hans snjerist hugur hans allur að hinu andlega; þó var hann jafnan keppinn, hvað sem hann tókst á hendur, og vildi fram láta ganga. Hann var vel máli farinn, og hinn snjallasti; mjög var hann í móti hræsni, en kunni þó vel að koma sjer fram við yfirmenn; engi var hann áburðarmaður. Hann var vel í vexti, og gildur að karlmennsku, og kvað mikið að honum, hvar sem hann kom fram. Jafnan var hann fremur heilsutæpur um alla æfi sína, en gætti furðu vel heilsu sinnar með stakri hófsemi í mat og drykk. Þegar meslingaveikin gekk hjer seinast yfir land allt, tók hann einnig veiki þessa við þjónustugjörð eins síns sóknarbarns, er loks leiddi hann til bana, eptir rúma hálfsmánaðar legu. Það var tímanlega(?) hins 4. dags septembermánaðar 1846, er Jón prestur andaðist; var hann þá fullra 87 ára að aldri, en hafði verið prestur í rúm 65 ár. Jarðarför hans fór fram að Friðreksgáfu hinu 16. sama mánaðar, og er legstaður hans út- og framundan kirkjudyrunum þar, eður til hægri handar, þegar út er gengið úr kirkjunni. Yfir þeim hjónum hvílir lítill, en snotur líksteinn, er sjera Jón hafði sjálfur útvegað hjá þjóðhaga smiðnum Jakobi Snorrasyni á Húsafelli; líka hafði hann sjálfur sett sjer eptirfylgjandi grafskript:

XV

†

Liggur hjer rotinn,

líkami dauðans,

**JÓNS** prests **JÓNSSONAR**,

Jesú Krist syndara[1],

vonaði sá af náð,

að verða hólpinn,

en athöfnum sínum

hann engum treysti.

---

Minnstu þess, maður!
hvað mest um varðar;
tak ráð í tíma,
og trúðu Guði!

---

[1]) Sjera Jóni sál. hefur hugsast sama orð á þessum stað, sem Guðbrandur byskup setti í grafskript yfir sig, sem hann skipaði að setja á legstein sinn, hvað og gjört var. Grafskriptin er á latínu, en þýðir þetta á íslenzku:

Eg bíð upprisunnar og eilífs lífs, Guðbrandur Þorláksson, Jesú Krists syndari. Sjá hans Testament dagsett 11. september 1611.

## Bænarvers.

Lagið: Hver sem að reisir hæga bygð.

1. Ó Jesús hjartans elskan mín, Af öllum hug þig beiði, Að heims í gegnum háska þín Hönd almáttug mig leiði, Og alla mína æfi braut Yfir sjerhverja lífsins þraut Loksins til lukku leiði.

2. Ekkert af öllu utan eitt Ánægir mínu sinni, Þetta að Guðs vináttan veit Varð mjer af líðan þinni; Með heiður, frið og himna ljós Hressist eg nær þá gleðirós Sýnir þú sálu minni.

3. Önd mína, líf og allt mitt ráð Í umsjón fel eg þína, Veittu mjer aumum vernd og náð, Veika trú lát ei dvína, Gef þú mjer traust við dauða og dóm Í dýrð hjá þjer með eilíft blóm Svo fái eg sæll að skína.

---

Lagið: Uppá fjallið Jesú vendi.

Lífsins fyrir liðnar stundir, Lofaður vertu, Drottinn minn! Verndan þinna vængja undir Verið hef eg æ hvert sinn; Þínum eptir þrái eg fundi, Þú mig leið í himinn.

# Sex
# viku-sálma- og bæna-flokkar
til
# Húslestra.

Samdir af

sjera **Jóni** sál. **Jónssyni**,

seinast presti til Möðruvalla-Klausturs safnaða í Hörgárdal.

---

## Fyrsti Flokkur:

Sálmar og Bænir, líks innihalds.

---

### FYRSTI SÁLMUR.

Lagið: Hvíld er þægust þjáðum, o. s. frv.

Lof þjer, ljóssins Faðir! er ljósin tvö skapaðir, náttúru bæði' og náðar, er næra á sinn hátt báðar: gæðsku geisla þessa, gafst oss til að hressa, og beztu heillum blessa.

2. Sól hin sjáanlega, sínum allavega, geislum frá sjer fleygir, fríð á hverjum degi; öllu meir að mæla, megnar gleði yndæla, Sólin náðar sæla.

3. Þessa sól vjer sjáum, í sannleiksorði' og fáum, il og byrtu blíða, er burtu rýmir kvíða. Þú

ert, Jesú! þetta, þú, Guðs ímynd rjetta; miskun þinni' oss metta!

4. Il þinn oss lát kanna, og elsku kveikja sanna, en byrtu' á brautu leiða, er boðar farsæld greiða; aldrei vjer svo villumst, í veröld nje mannspillumst, heldur þig aðhyllumst.

5. Í ljósi lát oss ganga, lífsins veginn þangað, hvar sól mun aldrei setjast, nje sál í dyggðum letjast. Jesú, lífsins ljómi! líknaðu' oss í dómi! hátt þín lofgjörð hljómi.

## BÆNIN.

Lof og dýrð sje þjer, Faðir ljósanna! fyrir það, að þú hefur skapað handa oss mönnunum tvöfalda ljóss-uppsprettu: hina náttúrlegu sólu á himnum, og sólu náðarinnar í þínu sannleiksorði og sakramentunum. Báðar þessar sólir endurnæra og gleðja oss hver á sinn hátt, og horfa oss til beztu nota. Þótt nú hin sýnilega sólin, sem rennur upp yfir oss ný og fersk með hverjnm morgni sje að vísu næsta fögur, er þó hin þúsundsinnum yndislegri, sól þinnar náðar og rjettlætis, undir hverrar vængjum að hjálpræðið býr. Þessi andlega sól hefur nú náð að skína fyrir oss í dag í þínu lífsins orði, og veitt inn að sálum vorum himneskum il og birtu, sem á burt stökkt getur öllum kvíða og órósemi hjartans. Og þessi blessaða sólin ert þú sjálfur, Drottinn Jesú! Þú sanna ímynd veru Guðs, og ljómi dýrðar hans! Æ láttu geisla þinnar miskunar vera vort sanna yndi og eptirlæti!

Láttu il elsku þinnar til vor fylla hjörtu vor elsku til þín aptur á móti, en ljómann þíns sannleiks leiða oss á veg lífsins, svo vjer förum aldrei villir vegar, heldur aðhyllumst þig, og áhöngum þjer, í trú og hlýðni stöðuglega. Láttu oss ganga í ljósinu, og stefna hina rjettu leið að landi lífsins, þar sem aldrei verða umskipti ljóss nje myrkurs, og kærleikurinn og dyggðin standa í fullum blóma eilíflega. Ó, Drottinn Jesú! þú ljós og, líf mannanna! vertu oss öllum miskunsamur, þegar þú kemur á síðarsta degi, með makt og mikilli dýrð, að dæma lifendur og dauða! Æ, dæm þú oss þá til handa eylífa sælu á himnum! Í þeirri von viljum vjer öruggir lifa og deyja! þitt blessaða nafn, ásamt þíns himneska Föðurs og heilags Anda, sje hátt lofað og vegsamað um tíma og eylífð! Amen.

## ANNAR SÁLMUR.

Lagið: þökk sje þjer, góð gjörð, Guð o. s. frv.

Dýrð sje þjer, Drottinn! dag og nótt, án enda; sem lætur hjer lýð þinn, líf og velferð henda; má því hver sjá sinn, sælu hag að venda, til blessunar benda.

2. Ó, að menn að því, allir vildu gæta! og inna senn, á ný, elsku' og hlýðni mæta. Eining þrenn og frí, ástgjöf þinni sæta, böl sem kann bæta.

3. þjer má það þakkast, þýði Jesú! einum; í vorn stað er last, með allskyns písla greinum, þoldir að þjer fast, þjakaði synda breinum, svo menn sviptir meinum.

4. Blæddi þín blóðs lind, til blessunar á jörðu; þá mæddi pín mannkynd, af máli rjettar hörðu: náð oss sýn, nauð hrynd, nafn þitt sanna gjörðu, vor lífsins Vörður!

5. Gef oss dáð, Guð vor! að ganga í trúar standi; hneigi' af náð, hvört spor, til helgunar þinn Andi! veit oss ráð, þrek, þor, að þreyta frí af grandi, að lífsins landi!

6. Oss, þinn lýð, ætíð, uppfyll gæðum snauða; mýkist stríð, helshríð, hópnum þinna sauða; en um síð oss prýð, þá endað líf er nauða, dýrð eptir dauða!

## BÆNIN.

Óendanlegt lof sje þjer, Faðir miskunsemdanna! fyrir það, að þú vermdar oss börnin þín, svo dásamlega, og lætur oss í tje allar þær gæzku gnóttir, er þú sjerð oss bezt henta, og horfa til vorrar sönnu velferðar, um tíma og eylífð. Ó, að vjer vildum allir gæta þess í tíma, og endurnýast í anda vors hugskots, og inna þjer, guðdómsins heilaga þrenníng! elskufulla hlýðni einsog vjer hjetum þjer í skírninni! já, að vjer vildum allir taka verðuglega móti þinni föðurlegu náð, sem oss frambýðst í náðar boðskapi Sonar þíns, og sem ein getur bætt úr öllu voru líkamlegu og andlegu böli! Og þessi ómetanlegu gæðin megum vjer einkanlega þakka þjer góði Jesú! sem sjálfur varst heilagur og syndlaus, en gafst þig þó til að líða í vorn stað alskyns píslir á sálu og líkama, svo þú gætir frelsað oss frá verðskuldaðri synda sekt og ey-

lífum dauða. Þú úthelltir þínu blessaða blóði sem hreinsar alla þá af öllum syndum, sem trúa á þig, því úthelltir þú heiminum til frelsis, til frelsis frá lögmálsins rjettvísu bölvan er lá svo þungt á öllum Adams börnum. Æ, sannaðu þá enn framar á oss þitt blessaða nafn! Þú heitir Jesús, það er: Frelsari; frelsaðu oss frá öllu sannkölluðu íllu tímanlega og eylíflega. Gefðú oss náð til þess Drottinn! að ganga í trúnni á þjer og hlýðninni við þig, alla vora æfidaga! Auktu oss afl og orku til þess að geta strítt voru stríði, borið vora byrði, og þrætt hið rjetta þraunga einstígið, sem liggur að landi hinna lifendu, í þínu dýrðar-ríki! Já, auðga oss allsþurfa aumíngja, þínum andlegu náðargæðum, og láttu dauðan þegar hann kemur verða oss, fyri þinn dauða, sáluhjálplegan inngang til þíns eylífa sælu-og dýrðar-rikis á himnum! Bænheyr oss um þetta, líknarfulli góði Guð! fyrir hans skuld, sem mest stríddi og bezt sigraði, vorn Drottinn og Frelsara Jesúm Kristum! Amen.

## ÞRIÐJI SÁLMUR.

Lagið: Himna rós, leið og ljós, líf o. s. frv.

Kongur hár, eylíf ár, einn sem ríkir! Lof þitt rómi, listugum hljómi, lönd öll! Engla her, innir þjer, ærusálma! og sveitin öll, í sólar höll, með sigur pálma.

2. Ó hvað þá, ættum já, Adams niðjar, þjer að hrósa, og þína glósa þrí-dýrð! sem á kross, svipt-

ir oss, sekt og pínu; en reistir frið, og rjettlætið, í ríki þínu.

3. Hvör ein önd, heims um lönd, hvör einn munnur, þakkir greiði, þjer og heiður, þrí-einn! fyrir ráð frelsis skráð, í friðar letri, og vonar hnoss, sem veittir oss, í veröld betri.

4. Sverjum eið, synda leið, og Satans snörur, um að flýa, og aldrei drýgja, íllgjörð, með ásett ráð, en yðka dáð, í öllum hætti; veit oss stoð, að vel þín boð, vinnast mætti!

5. Gef oss þinn, anda inn, í vor hjörtu, að hann glæði, elsku bæði, og eins dygð, sem líkar þjer; að lifum vjer, sem lög þín bjóða; himnum á, hreppum þá, hærstan gróða.

6. Trúar stríð, heims um hríð, hjálpa' oss móti, fjendum heya, og fyrri deya', enn frið ná! Synda gröndi, svipti' af önd, sem nauðir, Jesú tár, Jesú sár, Jesú dauði!

## BÆNIN.

Ó, þú eylífi og einasti Konungur dýrðarinnar! lofi þig gjörvöll heimskringlan með fögnuði! Hersveitir þinna helgu engla, og allir útvaldir lofa þig óaflátanlega. Ó, hversu bæri oss þá, Adams börnum, að vegsama þig af öllu hjarta, og taka í trúnni undir englanna þrí-heilagur! þú þyrmdir ekki Faðir, miskunsemdanna þínum eingetna elskulega Syni, heldur gafst hann út í bitra pínu og beiskan dauða, til að frelsa oss dauðaseka frá hegningu syndarinnar, en afreka oss eylíft rjettlæti. Ó, því

skyldi þá ekki sjerhver endurleyst sála greiða þjer þríeini Guð verðugan heiður og þíðar þakkir fyrir það, að þú hefur látið þinn lífsæta náðarlærdóm boða oss þetta þitt frelsi, og von eylífrar sælu annars heims! Nú viljum vjer Drottinn! heita þjer því aptur af fyllíngu vorra hjartna, að drygja aldrei framar ásetnings syndir gegn þjer, en forðast alls kyns breiskleika syndir sem framast oss er unt. En, ó vor Guð! án þín megnum vjer ekkert. Æ, veittú oss því þína náðarríku aðstoð til þess, að geta haldið trúlega þetta vort heit! Já, gefðú oss þinn heilaga Anda, sá eð tendri í oss hreinskilna elsku til þín og kappfulla ástundun dyggðafulls lífernis það eptir er svo vjer getum lifað hjer í heimi samkvæmt orði náðar þinnar. og mættum ásíðan að njótandi eylífrar sælu á himnum! Æ, hjálpaðú oss að heyja trúlega orustu trúarinnar gegn vorum andlegu óvinum: holdi heimi og djöfli, og að láta fyrri lífið, enn að vjer semjum frið við þá! Í einu orði: frelsaðú oss frá syndarinnar völdum og gjöldum, og láttú oss njóta Jesú fyrirbæna, samt hans friðþægjandi pínu og dauða í vorn stað! Æ, bænheyri oss náðarsamlega um þetta, Drottinn Guð! blessaður að eylífu! Amen.

## FJÓRÐI SÁLMUR.

Lagið: Gef þinni kristni góðan frið, o. s. frv.

Faðir vors herra, Frelsarans! Faðir vor allra í honum; leið þú oss alla heim til hans, hans vegna á þig vonum; að þínum gjör oss óskasonum!

2. Kenn oss vort daga að telja tal, svo tilhugsan síðsta blundar, oss gjöri vísa í eymda-dal, að bíða dauða stundar, og hlakka til þíns fegins fundar.

3. Hvar helzt að aldur ölum hjer, á vorum lífsins vegi, felum oss þinni forsjón vjer, að fár ekkert skaða megi, hvorki' á nótt eða nokkrum degi.

4. Þegar vjer höfum þig fyrir vin, og þú villt oss til þín laða, engin fjandmanna ásóknin, sem uppá oss kann að vaða, getur þá nokkurn gjört oss skaða.

5. Komi þá dauðans dymma stund, Drottinn! nær helzt þjer lyndir; í faðmi Jesú ef festum blund, og fáum kvittar syndir, vakna munum við eylíft yndi.

6. Lát þú oss njóta lausnarans, er leitaði týndra sauða; fyrir bænir og bölið hans, benjar og dreirann rauða, líknaðu oss í lífi' og dauða!

## BÆNIN.

Ó, þú Faðir Drottins vors Jesú Krists, og vor allra Faðir fyrir trúna á hann! þinn blessaði Sonur hefur sjálfur sagt, að enginn geti komið til sín, nema þú dragir hann; æ svo hjálpaðú oss að komast til þessa vors einasta hirðis og meðalgangara! já, vjer vonum þess til þinnar miskunar, að þú munir gjöra oss alla að þínum óskabörnum í honum. Láttú Anda þinn kenna oss þá mestumvarðandi ment, að telja svo vora daga, að vjer verðum hyggnir; og að búa oss svo daglega undir dauðann, að vjer gætum hlakkað til þess, sem annars fagnað-

ardags, að mæta fyrir þínu augliti í dóminum! En á meðan vjer ölum aldur vorn hjer í heimi, felum vjer oss trúaröruggir þinni föður-forsjón, því vjer erum þess fullvissir, að engin sönn ógæfa megnar að vinna oss nokkurt mein, hverki á degi nje nóttu, meðan vjer erum umvafðir þínum verndarvængjum, því þegar þú ert vinur vor, og villt liðsinna oss, megna engar árásir fjandmanna vorra, hverki andlegra nje líkamlegra, að vinna oss nokkurt grand. Já, ráðist þá vor síðasti óvinur dauðinn, á oss, þegar þjer svo þóknast, lífsins og dauðans Drottinn! ef vjer erum þá fyrir trúna svo viðbúnir komu hans, að vjer fáum sofnað hinum síðsta svefni í faðmi vors Frelsara, af því vjer höfum hans vegna fengið fyrirgefningu synda vorra: þá munum vjer vissulega vakna af vorum andlátsdúr til eylífrar sælu á himnum. Æ, láttú oss, himneski Faðir! njóta meðalgöngu þíns ástríka Sonar, sem kom hingað til að leita að því, sem glatað var! Já, sökum allra hans bæna fyrir oss, samt hans bitru og blóðugu pínu í vorn stað, þá vertú oss öllum miskunsamur, bæði í lífi, deyð og dómi! Amen.

## FIMMTI SÁLMUR.

Lagið: Rís upp, mín sál! að nýu nú, o. s. frv.

Þjer sje, Guð! eylíf þakkargjörð, þinn fyrir Son, er kom á jörð, frelsun og frið að veita, gjörvöllum heim, og gefa þeim gott, sem því eptir leita.

2. Hefði hann ekki hingað reist, og heiminn með

sínum dauða leyst, útsnarast hefðu allir; þeir leiðast nú, sem lifa' í trú, loksins í dýrðar hallir

3. Af þessu vjer nú uppskerum, allt gott á degi sjerhverjum, á hverju augnabliki, andlega náð, sem eftir dáð, og annað þúsund-mikið.

4. Jesú, Guðs Sonur! þökk sje þjer, þú oss með dauða keyptir hjer, lífs eylífs hnoss til handa, svo grundvallast það gæti fast, gafst oss í pant þinn anda.

5, Lát hann oss jafnan leiða því, lifandi trú og dyggðum í, á sönnum sæluvegi, langar oss þá, hans leiðslu fá, lífgjöf svo töpum eigi.

6. Ó, þú Andi Guðs! innhell þjer, í vorar sálir, biðjum vjer, og uppfyll oss elsku gæðum, til Frelsarans, og Föður hans, svo fáum dýrð á hæðum!

## BÆNIN.

Eylífar þakkir sjeu þjer, vor Guð og Faðir! fyrir þinn Son Jesúm Krist, sem þú sendir hingað á jörðu, til að afreka öllum þeim eylífan frið og frelsi, og alskyns andleg gæði hjer í lífi, sem leita þeirra rjettilega. Hefði ekki Sonur þinn elskulegur komið hingað, og endurleyst oss með dauða sínum, þá hefðu allir menn eylíflega glatazt; en nú verða allir þeir eylíflega sælir, sem trúa á nafn eingetins Guðs Sonar. Já, vjer uppskerum þegar hjer í lífi af endurlausn Sonar þíns ótalföld náðargæði. bæði fyrir sál og líkama, þareð þú gefur oss fyrir hans sakir hverskyns góðar gjafir, er þú sjerð oss bezt henta til vors andlega og líkamlega lífs. Sömuleiðis þökkum vjer þjer fyrir það, Sonur Guðs,

Drottinn Jesú Kristi! að þú virtist með dauða þínum að kaupa oss til handa eylíft líf, og til þess sú heimild ekki skyldi bregðast, hefur þú gefið oss þinn heilaga Anda, sem pant og innsigli þessarar vorrar himnesku arfleifðar. Æ, láttú hann þá jafnan leiða oss á sönnum trúar- og dyggðavegi, því sá vegur er sú einasta beina braut, er liggur að landi lífsins. Æ, vjer gyrnumst hjartanlega að njóta þessarar leiðslu þíns góða Anda, svo vjer ekki missum rjettar vors til þess sælulífs, er þú hefur útvegað oss. Ó, þú há-blessaði heilagi Andi! innhell þjer sjálfur í sálir vorar, og fyll þær elsku til Guðs og vors Frelsara Jesú Krists, svo vjer getum orðið hæfir að hreppa þá sæluvist á himnum, sem oss er fyrirbúin frá upphafi heimsins! Þjer, guðdómsins heilaga þrenning! sje lof dýrð, um aldir alda!

## SJÖTTI SÁLMUR.

Lagið: Ó, minn Jesú! öll þín pína, o. s. frv.

Tímans straumur hraðt fram hleypur, hafi' eylífðar stefnir að; vegur lífsins víst er sleipur, veit ei nær enn dvínar það; verði, Drottinn! vilji þinn, vísdómsfullur hvert eitt sinn, á sálu vorri sem líkama, en sýn oss miskun náðar tama.

2. Viljir þú að líf vort linni, ljósi þessa dagsins með, falið mildi það sje þinni, þitt er hvað þú hefir ljeð; en undirbúnum unn oss vel að vera, nær kemur hel, í sannri trú á Son þinn kæra, sá oss gjörði lífið færa.

3. Gef þú oss þinn guðdóms Anda, er glæði hjá oss von og trú, óhultir í öllum vanda, erum vjer, nær lifir sú; komi dauðans þruma þá, þetta líkams hróf að slá; samt mun öndin svipt af kífi. sælu ná í betra lífi.

4. Bænheyr oss nú, blíði Faðir! bænheyr oss af elsku þín! bænheyrslunnar bíðum glaðir, þó bæn vor hafi lýti sín; bezt fyrir Jesú bænastað, biðjum samt að gjörir það: minnstu hans sálar miklu nauða, minnstu hans unda, blóðs og dauða!

## BÆNIN.

Ó, hversu óðfluga brunar straumur tímans áfram út í haf eylífðarinnar, svo enginn veit, nær leið hans lífdaga er á enda kljáð; þar á ofan er vegurinn, sem yfir skal fara, yfrið háll og hættulegur, svo í hverju spori er við falli búið. En verði, Drottinn! vilji þinn á oss, því hann einn er vísdómsfullur og góður, bæði í tilliti líkama vors og sálar! láttú oss að eins njóta miskunar þinnar, bæði í lífi og í deyð! Sje það vilji þinn, Drottinn! að líf vort endi með degi þessum, þá verði sem þú villt! Þú átt frjálst að taka það aptur, sem þú hefur lánað, þegar þú villt; gefðú oss að eins náð til þess, að vera vel undirbúnum, hvenær sem dauðinn vitjar vor, já, undirbúnum á þann hátt, að vjer sjeum fullir af elsku til þíns Sonar Jesú, og af lifandi trú á hann, sem gefið hefur oss rjett til eylífs lífs. Æ, þinn heilagi Andi sje til þessa í verkinu með oss; hann kveiki í oss

sanna og lifandi trú, því þegar hún býr fyrir í hjartanu, megum vjer vera óhultir fyrir allskyns sálartjóni; já, komi þá dauðans reiðarslag yfir oss, nær sem verkast vill, og brjóti niður þessa vora veiku sálar tjaldbúð; engu að síður mun þó sálunni óhætt, og hún fljúga, rjett sem á vængjum trúarinnar og vonarinnar, út af hreisi líkamans, inn í sælu-skaut Abrahams. Bænheyr oss um þetta, blessaði Faðir! og láttú elsku þína til sálna vorra hræra þig til þess! Vjer þreyjum vonglaðir eptir þinni bænheyrslu; og þótt bænir vorar sjeu í sjálfu sjer daufar og ófullkomnar, treystum vjer því samt, að þú látir oss njóta fyrirbæna vors blessaða meðalgangara. Já, minnstu þess, Faðir! hvílíka sálarangist Sonur þinn varð að líða vor vegna, og hversu hann samdi með sinni pínu og dauða frið millum vor og þín, og þín og vor! Bænheyr oss því fyrir hans sakir! Amen.

## SJÖUNDI SÁLMUR.

Lagið: Sjá hvað dagurinn ferð nú flýtir, o. s. frv.

Eylífi Guð! þín ár ei þrotna, aldrei þrotnar þín dýrð og náð; en holdsins mun loksins hreysi brotna, himin forganga og jarðarláð; sálin af tjóni samt er frí, sje hún bönd þinnar náðar í.

2. Þín náð, ó Guð! er þúsund betri, enn þetta líf, hversu vænt sem er, leiðir hún oss að lífsins setri, lífs þess, hvers gleði aldrei þver; unn oss því hennar umfram líf, ekki þá skaðar dauðans kíf.

3. Sonur þinn Jesús samdi friðinn, við sjálfan

þig, Faðir! vorn í stað; blessun oss færði lífs og liðinn, og lifnaður síðan eptir það; en dauðinn í sigur svelgdur er, þess sigurs í dauða njótum vjer.

4. Upprisu vorri eptir hlakka, allir megum, ef deyum vel; Jesú! vjer eigum það að þakka, þjer sem afmáðir synd og hel; sjálfur þegar að dauða dóst, dauðanum helför sanna bjóst.

5. Dauðans skál megum drekka glaðir, ef deyum í þinni elsku' og trú, líf oss þá gefur Lífsins Faðir, lífs í borg, þeirri' ei sjáum nú, uppvöknuðum til yndis hags, að morgni dýrðar Sabbats dags.

## BÆNIN.

Ó, þú eylífi og óumbreytanlegi Guð! þín ár þrotna aldrei, og þín dýrð og miskun varir frá eylífð til eylífðar, þótt allt annað breytist og gangi til grunna, ekki alleinasta þessi vor jarðneski líkami, heldur og einnig hin afarmikla bygging himins og jarðar. En engu að síður er þó sálu vorri óhætt, fái hún að eins að njóta hælis í þínum miskunarhöndum. Þess vegna er náðin þín, ó vor Guð! þúsundsinnum betri, heldurenn þetta vort líf, því lífið hlýtur þó að linna, þegar minnstum vonum varir, en náðin þín færir oss þá inn í þá bústaði, þar sem er gnótt fagnaðar og gleðilegt líf, við þína hægri hönd eylíflega. Ó, unn oss því að njóta náðar þinnar, framar enn þessa stundlega lífs, því þó vjer missum það, en höldum henni, getur dauðinn aldrei gjört oss nokkurt mein, heldur verður hann oss þá hinn mesti ávinningur (ábati).

Og þetta leiðir allt af því, að þinn eingetni Sonur, Jesús Kristur, samdi frið við þig í vorn stað, og afrekaði oss, með lífi sínu, dauða og upprisu, þá blessan, sem varir eilíflega. Nú er dauðinn, fyrir hans dauða svelgdur í sigur, og þessa sigurs getum vjer notið, gegn vorum eigin dauða, þegar vjer sjálfir hljótum að ganga veg allrar veraldar. Ó, hversu megum vjer þá ekki hlakka til vors upprisudags, ef vjer deyjum vel, það er að skilja: ef vjer deyjum í trúnni á þjer, Drottinn Jesú! því það eigum vjer þjer einungis að þakka, að vjer höfum öðlast þessa fullvissu, þareð þú bæði lifandi, líðandi og deyjandi afmáðir synd og dauða, og líka sem veittir honum ólæknanda banasár, með þínum allrahelgasta dauða. Svo getum vjer þá blessaði Frelsari! tæmt glaðir og fagnandi bikar dauðans, hvenær sem hann berst oss að höndum, ef vjer deyjum fullir af elskunni til þín, og trúnni á þig; því þá mun þinn himneski Faðir vissulega gefa oss eilíft líf, í hinni nýju Jerúsalem, sem þar uppi er, þó hún sje enn hulin augum vorum. Já, þá munum vjer, og allir þeir, er barizt hafa baráttu trúarinnar allt til dauðans, uppvaktir af þjer á síðasta degi, bera úr bítum óvisnanlega kórónu lífsins að morgni hins eilífa dýrðarinnar Sabbats, fyrir krapt þinnar blessuðu verðskuldunar. Guðs góði Andi styrki oss alla til þess, með náðarkrapti sínum, í Jesú nafni! Amen.

## Annar Flokkur:

Sálmar og Bænir útaf Faðir vori.

---

### FYRSTI SÁLMUR.

Lagið: Skaparinn stjarna herra o. s. frv.; eður annað himnalag. Allir sálmarnir eru með sama lagi.

Einasti Faðir! æðsti Guð! eylífa veran hærst tignuð, allstaðar nálæg öllum lýð, á himni og jörðu fyrr og síð!

2. Vegsamast náðar nafn þitt hjer, nær og fjær eins og kristnum ber! unn oss þjer hlýðni tryggva tjá, treysta þjer bezt og vona uppá!

3. Ríkisstjórn náðar þinnar þýð, þínum viðhaldi kristnum lýð, ekki svo tapist einn af þeim, er þig meðkenna hjer um heim!

4. Verði þinn náðar vilji á oss, vjer svo að dýrðar hreppum hnoss! vilja þíns fúsir verkum boð, veit oss þar til þíns anda stoð.

5. Sjálfur gafstú oss sál og líf, svo er hvörttveggja í þinni hlíf; forsorgun legðu, Faðir kær! fyrir oss, meðan lifum vær!

6. Mjög er vor synda sektin stór, sýn þú oss miskun, Faðir vor! fúsir því viljum vægja þeim, við oss misgjöra hjer í heim.

7. Forlögum vorum veldur þú; vísdómur þinn oss typtar nú, freisting ofþúngri frá oss vend, fyrir þinn anda hjálp oss send!

8. Ó! þú, sem hefur auðsýnt oss, elsku fyrir þíns Sonar kross, öllu frelsaðu' oss íllu frá, eylífri veit oss sælu' að ná!

9. Bænheyr oss, Drottinn dýrðar-hár! drottnan þíns ríkis jafnan stár, almættis kraptur þinn ei þver, þúsundföld dýrð þjer tilheyrer!

BÆNIN.

Ó, þú einasti, æðsti, eylífi, alstaðar-nálægi, almáttugi, heilagi, rjettláti, miskunsami Guð og Faðir! vegsamist þitt dýrðar fulla nafn, sem náðina boðar, í öllum stöðum þíns víðlenda ríkis, og láttú oss veita því sama heiðrun og helgun í trú, hlýðni og kærleika. Láttu þína náðar-ríkisstjórn halda við kristinndóminum, og efla hann, svo að enginn þeirra glatist, sem viðurkenna þig, og þann, er þú sendir, Jesúm Krist! Verði miskunar-vilji þinn á oss öllum, svo vjer getum komizt að landi eylífs lífs um veg sannrar yðrunar, trúar og lífernis-betrunar; já, lát þinn vilja vera vorn vilja, og gefðu oss Anda þinn til þess, að vjer getum breytt eptir þínum helgu englum á himnum! þú hefur gefið oss líf og sálu, og hverttveggja þetta er í þinni hendi; æ, veit oss þá daglegt viðurhald bæði handa líkama vorum og sálu, meðan þú ætlar oss að ala aldur vorn í þessum stundaheimi! Æ, vjer játum vorar miklu og mörgu syndir gegn þjer, ó vor Guð! fyrirgefðú oss þær allar, fyrir þíns Sonar skuld, og vertú oss aumum syndurum líknsamur; vjer viljum fúsir sýna ávöxt náðar þinnar, með því að elska vora samendurleystu bræður, og fyrirgefa þeim, er oss a móti brjóta! Öll vor kjör eru í þinni hendi; og það sambýður elsku þinni og alvizku, að aga oss, sem ástríkur faðir börn sín;

en leggðú samt ekki á oss þyngri byrði enn vjer getum borið, heldur gefðú freistingunum þann enda, að vjer fáum staðizt! Ó, þú, sem laggðir grundvöllinn til vorrar eylífu farsældar með kross-dauða Sonar þíns, frelsaðu oss, Drottinn! frá því öllu, sem getur hindrað oss frá að njóta hans blessuðu endurlausnar, en gefðú oss að geta hlotið eylífa sælu, fyrir hans sakir! Æ, bænheyr oss um þetta, Drottinn dýrðarinnar! hvers ríki að er eylíft; bænheyr oss, því það er almætti þínu auðvelt, en dýrð þinni vel verðugt! Amen.

## ANNAR SALMUR.

Heilagi Faðir himneski! hátignar Kongur máttugi! þú sem ert varst og verður einn, veldi þitt skilur ekki neinn.

2. Heiðrist þitt dýrðar dásamt nafn, Drottinn! þjer finnst ei nokkur jafn; sannleikans orð þitt sje oss kært, svo það með andakt getum lært.

3. Láttu þín mildu ríkis ráð, rjettkristnum veita hjálp og náð, trúarinnar svo lögmál ljóst, laði til kærleiks manna brjóst!

4. Ó! að svo fúsir vinnum vjer, vilja þinn, Guð! á jörðu hjer; einsog þín engla heilög hyrð, hvör þjer án afláts syngur dýrð.

5. Dagligt oss gefðu, Drottinn! brauð, dugir oss nóg, ef sviptumst nauð, fátækt og ríkdóm frá oss snú, forsjón þinni vjer treystum nú!

6. Misgjörðir vorar meðkennum, mót þínum drýgð-

ar boðorðum, gef oss þær kvittar, Guð! af náð, glæpugum sýndu líknar ráð!

7. Líf vort hjer reiknast reynslustand, rekjum vjer braut á föðurland, greið þú oss veginn, gef oss styrk, gegnum freistíng, þó leið sje myrk!

8. Mikið þó höfum móðgað þig, miskun þín við oss birti sig; frá synda valdi, sekt og pín, síðast oss frelsi náðin þín!

9. Heyr þú, vor Kóngur! þegna þín, þvíað þíns ríkis tign ei dvín! orka þinn náðar máttur má, að magnist þín dýrðin oss í hjá!

## BÆNIN.

Ó, þú allra-heilagasti, himneski Faðir! þú, almáttugi himins og jarðar Konungur! þú, sem varst, ert og verður æ hinn sami, frá eylífð til eylífðar, og hvers veldi og tign er meiri og æðri öllum mannlegum skilningi, ó Drottinn! heiðrist þitt guðdómlega nafn og náð af öllum tungum, engla og manna; en einkum, þá gefðú oss náð til þess, að þitt guðdóms-orð, sem víðfrægir þitt nafn meðal vor mannanna, verði oss svo kært, að vjer iðkum það með guðrækni, og hlýðum því með trúlyndi! Láttú þitt náðarríki, er Sonur þinn elskulegur hefur stofnsett hjer á jörðunni, verða öllum kristnum mönnum, — já, öllum Adams börnum — til blessunar, svo að lögmál trúarinnar á Jesúm Krist fylli hjörtun með kærleika og von og stöðuglyndi! Ó, að vjer værum allir jafnfúsir á að laga oss eptir þínum blessaða vilja, sem þínir helgu englar eru það á himn-

um, þínir þjónustusömu andar, sem lofa þig og vegsama óaflátanlega! Gefðú oss, Drottinn! daglegt brauð til nauðsynlegs viðurhalds, en hverki fátækt nje auðæfi; oss nægir það, ef vjer ekki líðum nokkra nauð, því vjer vitum, að þín föðurlega forsjón vakir yfir oss! Vjer játum, ó Drottinn! vorar óteljandi syndir gegn þjer; æ, gefðú oss þær allar kvittar í Jesú nafni, og vægðu oss brotlegum börnum þínum, eptir mikilleik miskunsemda þinna, þegar þú finnur betrun vora einlæga, og trú vora á þjer ávaxtarsama í kærleikanum! Þetta vort líf er reyslu-skóli, og á leiðinni til föðurlandsins mæta oss margar torfærur, sem vjer eigum örðugt með að komast yfir; æ, greið fætur vora úr snörum freistinganna, á veg friðarins, og vertú fyrir Anda þinn vort ljós í myrkrunum, vor styrkur í stríðinu, og vort örugga vígi fyrir árásum allskyns óvina! Æ, lát oss ekki gjalda þess, góði Guð! þótt vjer höfum móðgað þig svo mikillega; miskunaðu oss samt, Drottinn! og frelsaðu oss frá yfirdrottnan syndarinnar í lífinu, og frá refsingu hennar annars heims! Heyr oss þína vesælu þegna, vor Guð og Konungur! svo vjer verðum þjer ekki til vanheiðurs í ríki þínu; náðarkrapti þínum er hægt að gjöra það að verkum, að vjer verðum til dýrðar náð þinni tímanlega og eylífiega! Amen.

## ÞRIÐJI SÁLMUR.

Himneski Faðir, Faðir vor! Faðir að náð og misk-

un stór! Faðir, sem æðstu frelsun tjer! Faðir um tíma' og eylífðer!

2. Herra! þitt nafn er heilagt mjög, háleitt, dásamt á allan veg, inni þjer vegsemd, ást, lofgjörð, englar, manneskjur, himnar, jörð!

3. Ríkis-sprota þinn rjett þú oss, reiðubúnum með trúar koss, að sverja' oss undir sáttmálann, er Sonur þinn, Jesús, stipta vann.

4. Ó! að veröldin vildi öll, vilja þíns rækja boðorð snjöll, eins og þinn tignar engla her, alla sem hlýðni veitir þjer!

5. Seð vora nauðþurft sjerhvörn dag; svoddan er hollast gæfulag, ánægt ef hjarta höfum með, og hugsýkin ekki plágar geð!

6. Fyrir þíns Sonar dýran deyð, Drottinn! oss syndakvittun greið; forláta viljum aptur eins, öðrum sem að oss valda meins.

7. Mæta freistingar megnar títt; má sjer vor dugur harla lítt; býttu oss krapti' að berjast vel, bugað svo fáum synd og hel!

8. Þó að hjer líðum þraut í bland, það útkrefur vort reynslustand; loksins frá allri lasta-pín, leysi oss blessuð náðin þín!

9. Biðjum vjer, Herra! bænheyr þú, blómgist þitt ríki æ og nú, endalaus máttur er þjer hjá, að eylífu mun þín dýrðin stá!

## B Æ N I N.

Ó, þú himneski Faðir, og Faðir vor allra í Jesú Kristí! náð þín og mildi er jafn-mikil, sem þú ert

það sjálfur. Þú hefur sýnt oss föðurlega miskun í þínum Syni, svo þú gætir orðið vor friðþægður Faðir um tíma og eylífð! Ó, hversu heilagt, háleitt og dásamlegt er nafn þitt á allan hátt! Ó, að gjörvallar þínar skepnur á himni og jörðu, bæði englar og menn, vildu heiðra þig og elska, treysta þjer og hlýða, allra lofs- og elskuverðasta Vera! Vertú oss, Drottinn! þegnum ríkis þíns hjer á jörðunni mildur og miskunsamur, og vottaðu náð þína við oss á andlegan hátt, með því að rjetta að sálum vorum veldissprota náðar þinnar í orðinu; æ, vjer viljum kyssa á hann með trúfastri tilbeiðslu, og sverja þjer að nýju helgan hollustu-eið, að lifa, líða og deyja eptir þeim sáttmála, er Sonur þinn elskulegur hefur samið millum þín og vor. Ó, að allir innbyggendur heimsins mættu sem fyrst fá að þekkja þinn náðurvilja, og vildu síðan hlýða honum trúlega, og breyta þannig eptir þínum helgu englum á himnum, sem hlýða þjer, heiðra þig og vegsama án alls afláts. En þareð vjer, Adams börn, berum eptir oss brothættan líkama, sem þarf við uppheldis síns, meðan hann á að vera bústaður sálarinnar: ó, svo gef oss það dag hvern, er satt geti hans sárustu þörf, og láttu oss vera ánægða með það, sem þú úthlutar oss, en ekki bera heiðinglega hugsýki fyrir morgundaginum. Æ, vjer erum syndugar skepnur, Drottinn Guð! og höfum unnið til mestu refsingar hjá þjer fyrir óhlýðni vora og óteljandi boðorðabrot; æ, fyrirgefðu oss samt, góði Faðir! allar vorar syndir, fyrir þinn og dauða Son-

ar þíns; vjer viljum sýna vora þakklátsemi aptur á móti með hlýðninni við þig og þín blessuðu boðorð, en þó einkum með því, að fyrirgefa þeim öllum af hjarta, sem gjöra oss rangt til! En vjer erum, ó vor Guð! hjer í heimi umkringdir ótal freistingum, sem ýmist lokka oss eður hræða til að rjúfa heit vor við þig; æ, gefðu oss krapta til að verjast þeim dyggilega, svo að vjer getum, fyrir sanna trú á þig, sigrað syndina, sem er orsök til allrar vorrar ógæfu. Þó vjer hljótum nú að reyna hjer í lífi þessar eður þvíumlíkar þreyngingar, til að efla með því trú vora og hlýðni við þig, æ, unn oss samt af náð þinni að frelsast farsællega frá þeim, og öllu sannkölluðu íllu, fyrir sáluhjálplegan dauða! Heyr þessar vorar auðmjúku bænir, og láttú náðarríki þitt blómgast hjer á jörðu í oss, og oss í því; til þess brestur þig hverki mátt nje vilja, og hið sama mun verða þjer til lofs og dýrðar eylíflega! Amen.

## FJÓRÐI SÁLMUR.

Allsherjar Guð og Herra hár! himneski Faðir! dýrðar klár, ástverk sem hefir ótal gjörð, uppfyllir bæði himin og jörð!

2. Tignist þín speki dýrð og dáð, dásemdar nafn og líknar-ráð; lúkist þjer einum lofgjörð skær, lotning, tilbeiðsla, hlýðni kær!

3. Láttú þíns ríkis lögin mild, laga vort hjarta' að þinni vild, svo brjótum ei af oss blessun þá, blíð sem þín gæzka vill oss tjá.

4. Láttú þinn vilja verða' á jörð, vikni til mýktar hjörtun hörð! englanna sinni í oss ræt; engla svo hreppum kjörin mæt!

5. Herra! í dag oss brauði být, blessun þín er oss víst einhlýt; hvað sem á morgun skyldi ske, skal þinni falið trúfeste!

6. Uppgef oss vora synda sekt, sem í himininn gnæfir frekt; yðrar oss nú af innstu rót, athæfis viljum sýna bót!

7. Þóknist þjer, Herra! að hyrta oss, hjálpa þá til að bera kross! fell oss ei þyngri freisting á, enn forsjón þín sjer oss staðist fá.

8. Afbiðjum ei þitt ástar hrís, undir typtun því náð er vís; en öllu rjettnefndu illu frá, oss frelsi, Guð! þín tignin há!

9. Heyr, Faðir! vora blíða bón, bljúgir vjer mænum á þinn trón; ríkið og máttur þver ei þinn, þín er um eylífð vegsemdin.

## B Æ N I N.

Allsvaldandi Guð Drottinn! þú dýrðarinnar eylífi Faðir, sem stjórnar bæði himni og jörð, og sem hefur á svo ótalfaldan hátt auðsýnt á oss þína föðurlegu elsku, bæði andlega og líkamlega! Lofað og vegsamað sje þitt guðdóms-nafn, þín heilaga vera og eiginlegleikar, en þó einkum miskunsemi þín í Kristi Jesú; þú alleinn átt það skilið, að vjer lofum þig og tilbiðjum, elskum þig og hlýðum þjer, af fyllingu vorra hjartna! Ó! láttú lögmál þíns náðaríkis laga hjörtu vor til sannrar trúar og

kristilegs kærleika, svo vjer ekki förum á mis við þá blessan, sem þú hefur af náð þinni afrekað oss, í þínum Syni Jesú Kristi! Láttú þinn helga vilja verða hjer á jörðunni, sem er sá: að syndararnir snúi sjer frá myrkrunum til ljóssins, frá Satans valdi til þín. Innræt oss hið sama sinnislag, sem þínir helgu englar hafa á himnum, sem er fólgið í því: að elska og lofa þig, hlýða og þjóna þjer af einlægu hjarta, svo vjer getum orðið hluttakandi sömu sælu, og þeir, í þínu dýrðarríki, þegar þessu voru stunda-lífi er lokið! Gefðú oss í dag, og hvern dag, vort líkamlegt uppheldi, og být oss þinni föðurlegri blessun! hún ein nægir oss í öllum efnum. Vjer kvíðum þá ekki morgundeginum, heldur felum vongóðir öll vor ókomnu lífs-kjör þinni guðdómlegu trúfesti til beztu umönnunar! Ó, þú miskunsami, góði Faðir! fyrirgefðú oss, í Jesú nafni, vorar mörgu og miklu syndir, sem vjer höfum framið, bæði leynt og ljóst, gegn þínum helgu boðorðum; gefðu oss að geta gjört sanna yðrun fyrir þær, og að færa síðan ávöxt af þeirri yðran, í betrun lifnaðarins með kærleika, sáttfýsi og öðrum kristilegum dyggðum! En þóknist þjer, Drottinn! að typta oss með einhverjum krossi: [æ, hjálpaðú oss þá til að bera hann rjettilega; láttú engar freistingar, hverki frá þjer nje öðrum, verða þyngri enn svo, að vjer fáum risið undir þeim, og sigrað þær! Vjer biðjum oss alls ekki undan þínum föðurlegu typtunum, því þær eru oss ómissandi, og hvern þann son, sem þú elskar, þann agar þú; en frelsaðu

oss að eins frá öllu sannkölluðu íllu, sem helzt er syndin og allar hennar banvænu afleiðingar; æ, frelsaðu oss frá þessu, þá erum vjer fullfrelsaðir! Bænheyr oss, ó Faðir! um þetta, þegar vjer krjúpum í auðmýkt frami fyrir þínum veldisstóli, með vort frómhjartaða bænakvak! Láttú ríki þitt og mátt þinn, sem hefur engan enda, auglýsa sig vor á meðal á þenna hátt; þá skulum vjer víðfrægja dýrð þína og lofgjörð meðal allra þinna útvaldra eylíflega! Amen.

## FIMMTI SÁLMUR.

Mildasti Faðir mannakyns, minnumst vjer glaðir nafnsins þíns, þú hvör á himnum hefir ráð, heiminum sýnir stærstu náð.

2. Miklist þitt nafn á meðal vor, miskunsemd þín og gæzka stór, haldist þitt orð í heiðri bezt, hlýðni trúar því auðsýnest!

3. Vöndur þíns náðar veldis klár, verji þinn kongstól síð og ár, fyrir óvina hættum her, hjer sem þitt ríki ásæker!

4. Vilji þinn dempi vilja vorn, vjer svo þín gjörumst hlýðin börn; eins í mótgangi' og meðlæti, möglunarlaus vor hlýðni sje!

5. Æfinnar meðan skundum skeið, Skapari trúr oss fæðslu greið, til saðningar en ei sællífes svo vjer dagliga njótum þess!

6. Yðrun vora þú sjálfur sjer; syndakvittunar leitum vjer, vegna þíns Sonar dreyra' og deyðs, Drottinn! minnstú þíns náðareiðs!

7. Vondra freistinga vjelum gegn, veit þú oss, Guð! að stríða megn, svo að vjer fáum sigri náð, síðan prísum þitt hjálparráð!

8. Gyrndir holdsins oss ginna mjög, og gjálífið heims á margan veg; frá þessu íllu' oss frelsa þú, fyrir þíns Sonar dýra trú!

9. Bænheyrslu, Drottinn! væntum vjer, veldi þitt svo útbreiðist hjer, þinn náðarmáttur megnar það, mjög sje þitt nafnið vegsamað!

## B Æ N I N.

Ó, þú miskunsami Faðir allra Adams barna undir sólunni! glaðir minnumst vjer þíns Föðurnafns, því það sýnir oss, hvers vjer megum vænta af þjer, þess nefnilega: að þó þú sjert Konungur himnanna himna, viljir þú þó líta náðarsamlega niður til vor, dauðlegra duptsins barna, þegar vjer leitum miskunar þinnar rjettilega, einsog góð og auðsveipin börn! Ó, að nafnið þitt og náðin þín, sem er svo óendanlega mikil, vegsamaðist verðuglega vor á meðal, og að þitt helga orð, sem lýsir bæði rjettlæti þínu og náð þinni, væri guðrækilega um hönd haft, og því sannarleg hlýðni sýnd, fyrir sanna trú á nafnið þitt! Láttú vönd og staf náðarveldis þíns halda við þinni andlegu konungstign í heiminum, og setja skorður óvinum þínum, er vilja hindra blómgun og blessun þíns náðarríkis! Ó, að vilji þinn, sem er fullkomlega heilagur og rjettlátur, mætti stjórna gjörvöllum vorum vilja, svo vjer sjeum þín hlýðin og auðsveipin börn; já, svo að vjer tökum, bæði í meðlæti og mótlæti, viljugir á oss þitt hlýðnis-ok, og

möglum hverki undan þínum boðorðum nje typtunum! Á meðan vjer hrekjumst hjer á jörðu á vegferð vorri til eylífðarinnar, æ, þá gefðú oss nauðsynlegt veganesti handa líkama vorum, en þó ekki meira enn svo, að það nægi til að viðhalda lífi voru, en ekki til að freista vor til sællífis og óhófs, því ella yrði það oss til skaða, er annars gæti orðið að notum fyrir líkama vorn og sálu! Vjer erum syndarar fyrir þjer, Drottinn! en hvert vjer erum sannyðrandi syndarar, það veitst þú sjálfur best; en allir þeir af oss, sem yðrumst af hjarta, leitum þjá þjer fyrirgefningar á misgjörðum vorum, já, vjer leitum hennar í nafni þíns Sonar Jesú Krists, sem píndist og dó fyrir oss dauðaseka, svo þú mættir vera oss miskunsamur, og svo þinn náðareyðstafur gæti hrinið á oss, þegar þú sórst, að þú viljir ekki dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sjer og lifi! En af því vjer eigum, ó Guð! hjer í heimi í stríði við svo volduga óvini, er leitast við að leiða oss í syndir og lesti: æ, þá hjálpaðú oss, fyrir anda-krapt þinn, að berjast gegn þeim, svo vjer fáum að lyktum að bera úr býtum sigurinn, og getum sigrihrósandi þakkað þjer fyrir hann eylíflega! Þú veist hverjir skæðastir eru óvinirnir, nefnilega: vort eigið hold og blóð, með sínum gyrndum, og heimurinn, með sínum glaum og ginningum. Æ, frelsaðu oss, Drottinn! frá þessum vorum óvinum, fyrir trúna á Soninn þinn, sem var freistaður á allan hátt, einsog vjer, þó án syndar! vjer gjörum oss góða von um bænheyrslu,

því hún eykur náðarríki þitt og veldi hjer á jörðunni, svo máttur þíns kærleika geti auglýst sig á oss, þínu guðdómlega nafni til lofs og dýrðar eylíflega! Amen.

## SJÖTTI SÁLMUR.

Alheima Kongur alvaldi! algæzku Faðir trúfasti! þú sem einn ræður himnahöll, heimsins bygging þig prísar öll!

2. Lönd öll fyllist af lofi þín, leggi þar sitt til öndin mín, gef oss þín kenning gagni blíð, gjör oss þjer hlýðna lífs um tíð!

3. Gef að þegnskyldu greiðum þá, góðfúsir, sem oss ber að tjá, hátign þinni, vor Kongur klár! kongsríki þitt um eylífð stár!

4. Vilji þinn er vor helgan hrein, hann á oss verði' í hvörri grein, viljandi svo ei vinnum synd; veit oss að bera þína mynd.

5. Drottinn! gef oss vorn deilda verð, dagliga' er þurfum hjer á jörð! búksorg lát þú ei blekkja oss, bezta gef rækjum sælu hnoss!

6. Í himininn syndgað höfum vjer, heilagi Kongur! fyrir þjer; taktú oss aptur samt í sátt, til sannrar yðrunar gef oss mátt!

7. Vísdóm og krapta veit oss hjer, viðsjáll því bæði og máttkur er, óvinur sá oss svíkja vill, syndanna fýsn og veröld íll!

8. Öllu frá, sem að andartjón, oss verkað getur, heyr þá bón! frelsaðu' oss, ástar Faðir trúr! farsælan gef oss andlátsdúr!

9. Heyr, Faðir! vora hjartans raust, hátt er þitt veldi' og endalaust, mátt þínum enginn móti stár; miklist þín dýrð um eylíf ár!

## BÆNIN.

Ó, þú himins og jarðarinnar alvaldi Guð Drottinn! þú hinn algóði og eylífi trúfasti hjartans Faðir: þú, sem alleinn ræður öllum heiminum, og sem öll þín handaverk lofa og vegsama, bæði á himni og á jörðu! ó, að nafn þitt yrði kunnugt öllum innbúum heimsins, svo túngur allra þjóða mættu lofa og vegsama þig! Láttú kenningu þinna helgu orða færa oss og öðrum eptirækstan ávöxt, og verka hjá oss lifandi trú, velgrundaða von, og kristilegan kærleika! Gefðú oss jafnan að minnast þess, að vjer erum þínir þegnar, þú hátignarfulli Konungur allra heilagra! og að oss ber að greiða þegnskyldu vora góðfúslega, þareð undir því er komin blómgan þíns náðarríkis hjer á jörðunni, og fjöldi borgara þíns dýrðarríkis á himnum! Þinn guðdómlegi vilji sem er helgan vor eptir lögmálinu og náðar boðskapnum: ó, að hann mætti verða bæði hjá oss og á oss, í öllum hlutum! Láttú oss aldrei drýgja syndir af ásettu ráði, heldur stunda að líkjast þínum helgu englum á himnum í hlýðninni við þig, svo að þín mynd, sem vjer mistum í falli vorra fyrstu foreldra, mætt endurnýast í anda vors hugskots, og vjer svo ganga fyrir þjer í rjettlæti og heilagleika alla vora lífdaga! Ó Drottinn! gefðú oss daglega vorn deildan verð, meðan vjer lifum

hjer á jörðunni; en varðveittú oss frá ágyrnd og búksorg, svo þessir skaplestir leiði oss ekki til eylífrar glötunar, heldur að vjer mættum fylgja trúlega þessari blessuðu lífsreglu: að leita fyrst guðsríkis og hans rjettlætis, svo oss geti veitst allt annað gott í viðbot! Himneski faðir! vjer höfum syndgað, já, syndgað mikillega fyrir þínu augliti: æ, fyrirgefðu oss þær samt vegna þíns kærleika til vor í þínum Syni Jesú Kristi, fyrirgefðu oss þær, og taktu oss aptur í sátt við þig! Gefðu oss að geta gjört sanna yðran fyrir syndir vorar, með lifandi trú á verðskuldan þíns elskulega Sonar; láttu síðan yðraninni fylgja aflát vondra athafna, en trúnni ástundan góðra verka í kærleikanum til þín og náungans! En þareð um oss er setið hjer í heimi af vorum sálar-óvinum, sem eru bæði margir og viðsjálir, nefnilega: Djöfullinn, með her sinna freistinga; heimurinn, með margfjölda sinna hneixlana, og holdið, með grúa vondra ginninga: æ, þá gefðu oss, góði Faðir! vizku, vilja og megn gegn þessum óaldarflokki, svo vjer getum sigrast á þeim! já, í einu orði: frelsaðu oss frá því öllu, er getur orðið oss að sálartjóni, því það eina köllum vjer íllt, og ekkert annað; gefðu oss síðan, að stríðs-lokum sáluhjálplegan viðskilnað frá heimi þessum, svo dauðinn verði vor ábati! Ó, heyrðu, himneski Faðir! þetta vort hjartans bænakvak til þín; þú ert Konungur vor, en vjer þínir vesælir þegnar; þig brestur hverki mátt nje vizku til að hjálpa oss, en vjer

skulum síðan dýrka þig, og þakka þjer, fyrir bænheyrzluna æ og eylíflega! Amen.

## SJÖUNDI SÁLMUR.

Guð Faðir, Son og Andi einn, englanna kongur máttar hreinn, himininn hvörs að hástóll er, heimar gjörvallir lúta þjer!

2. Þitt orð og sannhelg sakrament, sem oss fá náðarkrapta ljent, haldist, með trúnni, hjá oss við, heiðran og guðligt líferníð!

3. Í oss þitt ríki eflist hjer, undir vort hjarta leggi sjer, svo þú drottnir þar inni einn, ekki það hindri kraptur neinn!

4. Unn oss að hafa engla lund, í því að reynast hvörja stund, hlýðugir þínum vilja vel, verkaðu hjá oss auðmjúkt þel!

5. Nægir oss, Herra! náðin þín, náðþurftugum sem aldrei dvín, saðning dagliga' og svölun tjá; syndum og löstum snú oss frá!

6. Í Jesú nafni vjer biðjum bezt, brotin ótal oss forlátest; lífernisbetrun lofum senn, líknargjarnir við aðra menn!

7. Freistingar ótal holds og heims, hindra' oss frá notum dýrðar seims, aðstoð þeim mót oss öflga tjá, einkum í dauða vert oss hjá.

8. Öllu því, sem oss ásæker, íllu' og skaðligu' í heimi hjer, leystu oss frá, nær lífið dvín, leið oss í himnavist til þín!

9. Heyr og bænheyr oss, Herra vor! hvörs að

er ríki' og maktin stór; á þinni dýrð er aldrei hlje, amen! seg, Drottinn! það skal ske!

## BÆNIN.

Ó, þú þríeini Guð, Faðir, Sonur og heilagur Andi! engla og manna eylífi Konungur! þú, hvers hásæti að er himininn, en jörðin skör þinna fóta! ó, að allir þeir þúsund heimar, er þú hefur skapað, vildu vegsama þig, hver ein skepna í hverjum heimi, og hver ein tegund í hveri skepnu! þitt helga orð og háleitu sakramenta, er boða oss heilagleika þinn og dýrð þína, þessi blessuðu náðarmeðöl, sem kenna oss ekki einasta aðferðina til þess að gjöra gott, heldur miðla oss einnig kröptunum til þess: æ, gef að þau haldist við hjá oss hrein og ómenguð, svo að trúin, kærleikurinn og guðlegt líferni geti sprottið af þeim; þá verðum vjer rjettir þegnar í þínu náðarríki, og hjarta vort þitt musteri, hvar enginn mun þá drottna nje dýrkast, nema þú alleinn; þá mun skynsemi vor upplýsast af þínu ljósi, vilji vor helgast af þínum Anda, og tilhneigingar vorar lagast eptir þínum boðorðum. Ó, Drottinn, rektú þá alla í burtu þaðan, er saurga vilja þetta þitt veglega musteri, en stofnsettu þinn helgidóm í hjörtum allra kristinna manna! Æ, þó vjer sjeum syndugir, unn oss samt, að engla lunderni mætti æ betur og betur kvikna í oss, sem er í því fólgið: að vilji vor lagist eptir þínum vilja, svo vjer getum auðsýnt þjer fúsa hlýðni, innilega lofgjörð og auðmjúkt þakklæti! Ó, verkaðu, Drottinn! þetta hugarfar

meður oss, og lát það verða þess rótgrónara hjá oss, sem vjer reynumst lengur í orrustu trúarinnar hjer í lífi! Oss nægir að sönnu, hjartkæri Faðir! náð þín við sálir vorar, enda bregðst hún heldur aldrei neinum þeim, er leita hennar í trúnni, voninni og bæninni; en af því þú hefur fengið vorum ódauðlegu sálum um stundarsakir brothætt hreysi til bústaðar, sem er vor líkami: æ, þá biðjum vjer þig auðmjúklega, að gefa oss einnig hið nauðsynlegasta til hans viðurhalds, sem er: fæði og klæði, en þó með þeim skamti, er þú sjerð oss bezt henta; en umfram allt, frelsaðu sálir vorar frá syndinni, því þegar hún er á burtu rekin, hljóta allir aðrir hlutir að verða oss að góðu! Já, miskunsami Faðir! vjer ítrekum þessa vora bæn til þín: æ, fyrirgefðu oss allar vorar syndir, — öll vor boðorðabrot á móti þjer; fyrirgefðu oss þær, vegna friðþægingar og fyrirbónar þíns ástkæra Sonar Jesú Krists! Vjer heitum þjer aptur á móti, svo sem til lítils þakklœtismerkis fyrir náð þína, vorri lífernis-betrun, og lofum því, að votta þjer hana við náungan, einkum við óvini vora og óvildarmenn, með því að fyrirgefa þeim, og elska þá, eptir þínu helga dæmi og blessaða boði! Æ, hjálpaðu oss gegn freistingum Andskotans, heimsins og holdsins, er vilja aptra oss frá að ná eylífu lífi; ískríð oss krapti af hæðum til að standast gegn þeim, og sigra þær; og þegar vor síðasti óvinur, dauðinn, herjar á oss: æ, gjör hann þá orkulausan gegn oss, fyrir dauða-krapt þíns eingetins Sonar, er sigr-

að hefur synd og deyð, sjálfan Djöful og vítisneyð! Já, frelsaðu oss, góðir Faðir! frá öllu sannkölluðu íllu, er ásækir oss í heimi þessum, og sem syndin ein er ollandi, en alls ekkert annað, og láttu sáluhjálplegan dauða gjöra enda á öllu voru stríði, svo vjer getum komizt til þíns himneska ríkis, hvaðan öll synd og sorg er eylíflega útrýmd, en rjettlæti og fögnuður munu standa í fullum blóma! Æ, heyr oss nú og bænheyr, hjartkæri Faðir! hvers ríki er rjettlæti, friður og fögnuður í heilögum Anda; hvers máttur sýnir sig í frelsi syndaranna, fyrir trúna á Jesúm Krist; og hvers dýrð vottar sig í auglýsingu þíns rjettlætis og miskunar við allar þínar skynjandi skepnur, en þó einkum við oss, Adams niðja. Innsigla nú bænir vorar með þínu náðarameni, og seg til vor allra: Verði yður sem þjer viljið! Amen, í Jesú nafni! Amen.

---

## Þriðji flokkur.

Sálmar og bænir til sama augnamiðs.

---

### FYRSTI SÁLMUR.

Lagið: Kær Jesú Kristi, kom þú nú, o. s. frv.

Lífs og ljóss Faðir! lof og dýrð sje þjer, sem gafst, að glaðir, getum lifað hjer; fyrir Son þinn sæla, sendan oss á láð, er veitti von indæla, að verða í þinni náð; þartil stoðar orð þitt oss, í því skoðum dýrðarhnoss, og friðar boða fyrir hans kross, er fyllir trúar dáð!

2. Dag þennan, Drottinn! sem dregst að næturtíð, einn ástarvottinn, enn þá sendir lýð, fyrir kenning fríða, er festa skyldi rót, að þú allra lýða, endur-girnist bót, svo eptir mæðu eignist frið, og allra gæða sælgætið; æ! þá ræðu vakni við, í veröld yðran skjót!

3. Ó Jesú! á þig, einan set eg traust, syndmæddann sjá mig, sem að þína raust, heyra girnist hýra; hjálpaðu aumum mjer! lát þitt ljósið dýra, lýsa í myrkrum hjer! svo eg feginn sælu þá, sem eg þreyi himnum á, hreppa megi, og hana fá, nær heiminn kveðja fer.

## B Æ N I N.

Svo er þá þessi blessaði dagur liðinn, sem þú ljezt, himneski Faðir! renna upp yfir oss í morgun, af náð þinni. Þú hefur að vísu veitt oss margfaldar blessanir á hönum, en samt þá hina allradýrmætustu, að þú hefur unnt oss að heyra þitt helga orð, sem auglýsir oss þinn friðar-sáttmála fyrir Jesúm Krist. Þú hefur látið segja oss það í dag, eins og svo ótalsinnum áður, að ef vjer gjörum sanna yðrun fyrir syndir vorar, tökum með lifandi trú að oss verðskuldan þíns Sonar, og kappkostum síðan, bæði leynt og ljóst, að betra lifnað vorn: þá viljir þú fyrirgefa oss misgjörðir vorar, og ekki einasta aldrei hegna oss fyrir þær, heldur gjöra oss jafn farsæla í eylífðinni, eins og vjer hefðum ávalt lifað hjer í heimi í einskærum heilagleika og rjettlæti. Æ, nú biðjum vjer þig, góði

Faðir! um aðstoð þíns helga anda til þess, að vjer getum upp frá þessari stundu tekið svo þessum þínum friðarkostum, að vjer mættum bera eylíflega úr býtum þá blessan, er þeim eru samfara. Veittu oss að geta byrjað nýjan lifnað með nýbyrjaðri viku, og að halda hönum síðan áfram jafn margar eður fáar vikur, sem þú villt unna oss að lifa í heimi þessum. Æ, hjálpuðu oss að ganga nú í kvöld til rekkju með þeim óbifanlega ásetningi, að kappkosta að varðveita daglega upp frá þessu dóma þíns rjettlætis, með hreinskilnu hugarfari og helgri hegðan, svo vjer getum loksins tekið á móti dauða vorum með fullvissu náðar þinnar í þínum syni Jesú Kristi, og síðan orðið hluttakandi eylífrar sælu á himnum, ásamt öllum hólpnum og heimkomnum. Bænheyr oss um þetta, himneski Faðir! vegna þíns kærleika til vor í Kristi, fyrir samverkandi náð heilags Anda! Amen.

Vers. Svo vjer til sængur, sælir göngum fljótt, Guðs verndar vængur, veiti oss ró í nótt, ljós náðar lifi, í læstum hjartans rann, ef að oss yfir, æða dauðinn kann; verður öllu óhætt þá, engin spjöll Guðs heitum á; í friðarhöll vjer fáum sjá, Frelsarann Guð og mann.

## ANNAR SÁLMUR.

Lagið: Á Guð alleina, eg o. s. frv.

Dags ljósið dvínar, Drottinn Guð! sjá minn hag; minnst ekki' á mínar, misgjörðir liðin dag! frels mig af föllum, fús þeirra' eg yðrast vil; gleym

mínum göllum, Guð! þig jeg einkis dyl, og þeim sökktu öllum, í þinn miskunarhyl!

2. Heyr alla, Herra! er hrópa til þín af rót, lát þrautir þverra, þeirra, og vinn þeim bót, syndanna sárin, svíða nú þeirra lund; tel úthellt tárin, trúar þeim gefðú stund; um eylíf árin, auktú þeim sælu-mund!

3. Gleð þig í Guði, grátandi, sála mín! full af fögnuði, fyrir Guðs Sonar pín, sem þínum syndum, sjálfur uppá sig hlóð; mörg oss, mannkyndum, miskunin þaraf stóð, frið svo vjer findum, fyrir hans dýrmætt blóð!

## BÆNIN.

Mikil er þín miskunsemi, Drottinn minn Guð! sem viðheldur mjer og verndar mig á hverjum degi; þú ert ávalt samur og jafn að þinni náð; aldrei lætur þú af að gjöra oss gott, þótt vjer látum seint af að móðga þig með syndum vorum. En þareð þú hefur sett yðrun hinum syndugu, æ, svo biðjum vjer þig nú, í nafni þíns Sonar: fyrirgefðu oss vorar syndir, og minnstu ekki á vorar misgjörðir; því þegar þú hefur fyrirgefið oss syndirnar, og tekið oss í sátt við þig, þá erum vjer óhræddir um oss fyrir öllum vorum óvinum. Þá getur hverki skaðað oss sú drepsóttin, sem læðist í myrkrunum, nje heldur hin, sem eyðileggur um hádegið. Svefninn og vakan, hvíldin og vinnan, sorgin og gleðin, verður oss þá allt til beztu blessunar; já, lífið og dauðinn verður oss þá hveru-

tveggja jafnkært, jafnvelkomið. Vjer felum oss nú alla, Drottinn! á þitt miskunar-vald; gjörðu við oss hvað gott er fyrir þínu helga augliti. Ef þú vilt lofa oss að lifa, gefðu oss þá að lifa þjer til lofs og dýrðar; en viljir þú láta oss deyja, æ, láttu oss þá deyja í þinni náð og vináttu! Blóðið Sonar þíns Jesú Krists hreinsi oss af öllum vorum syndum, svo vjer rjettlættir getum vegsamað þig hjer í þínu náðarríki, en dýrðlegir annars heims sungið þjer lofgjörð með öllum útvöldum, eylíflega! Amen.

Vers. Þar dagur þessi, þrotinn nú reynist lýð, biðjum að blessi, byrjaða nætur tíð, Guðs gæzkan fróma, og gefi værðar hnoss, láti sinn ljóma, lýsa náðar oss, en hels hepti dóma, hann sem deyði' á kross!

## ÞRIÐJI SÁLMUR.

Lagið: Ó vjer syndum setnir, o. s. frv.

Dagur er enn á enda, aðkomin nætur stund; vyrðst þú oss værð að senda, vor Guð! og sætan blund; það skeður, þú ef leiðir, þinn anda hjörtun í, trúarlíf sem tilreiðir, og tendrar elsku á ný; svo verður samvizkan, södd af frið, er ávann, Jesús, nær bar vort bann.

2. Hans minning blessuð blífi, blessuð um eylífð sje! sínu hann sviptist lífi, svo hann oss frelsi í tje, frá lögmáls ljeti banni, er lá yfir allri þjóð, en hefir hverjum manni, himins afrekað sjóð, sem elur sanna trú, á Son Guðs í heimi nú, uppgefast ei má sú!

3. Uppvek hjá öllum trúna, á þig, minn Jesú kær! svo hreppum blessun búna, bezt sem oss styrkta fær, þegar hels þruma dynur, á þetta vort lasna hold, svo hreysið sálar hrynur, og hlýtur að verða að mold; beri þá blak af oss, þinn benja rauður foss, kvalning og dauði á kross.

## B Æ N I N.

Um hversu innilegt þakklæti erum vjer ekki skyldugir gæzku þinni, ó vor Guð! fyrir þá náð, vernd og varðveizlu, er þú hefur auðsýnt oss í dag, eins og ætíð endranær; ó, að vjer gætum goldið þjer það svo sem vera ber, og viðurkennt það með þakklátum og auðmjúkum anda: að vjer sjeum, Drottinn! minni allri þeirri miskunsemi, er þú hefur auðsýnt oss; já, þúsundfalt minni, þegar vjer hugleiðum vorn mikla óverðugleika að njóta náðar þinnar, þar sem vjer höfum enn í dag, eins og alla vora æfidaga, brotið þín blessuðu boðorð, með hugrenningum, orðum og verkum. Æ, þess vegna vogum vjer nú ekki að bera fram fyrir þig þakklætisfórn vora fyrir þegnar velgjörðir, nema vjer höfum áður fengið fórnaraltarið, sem ætti að vera hjarta vort, hreinsað með yðraninni, og rjóðrað með Jesú blóði fyrir trúna. Æ, vjer biðjum þig því, himneski Faðir! fyrirgefðu oss syndir vorar og illgjörðir, bæði þessa dags, og allra vorra liðnu lífsstunda; — æ, fyrirgefðu oss þær, fyrir pínu og dauða skuld þíns ástkæra Sonar, og láttú þær ekki fylgja oss fram á komandi nóttu; svo

að náðin þín og rjettlætið hans geti heyrt oss til, bæði lífs og liðnum. Varðveit oss síðan á komandi nóttu frá öllum voða og allskyns ógæfu, og leyf oss, sje það ekki gagnstætt vilja þínum, að líta aptur næsta dags ljós, til að lofa og vegsama þig! já, að lifa það eptir er í þínum ótta, og loksins að geta dáið sáluhjálplega! Amen.

Vers. Oss þínum faðmi felum, Frelsari! þessa nótt, varnaðú Satans vjelum, svo verði' oss í svefni rótt! unn oss upp að rísa, aptur að morgni dags, og þína ást að prísa, sem unnti oss værðarhags; loksins við dauðans dúr, þá dymmir að heljar skúr, vertú vor verndar múr!

## FJÓRÐI SÁLMUR.

Lagið: Stríðsmenn þá höfðu krossfest Krist, o. s. frv.

Nú sýgur, Drottinn! nóttu að, nálægjast myrkur svört, samt bregðst ei mildi þín við það, þú, Sólin náðar björt! skín þú oss öllum strax í stað, svo stillist sorgin ört! heyrðú nú hvörs þitt barnið bað, bjóð þú það verði gjört!

2. Myrkurin eru lík sem ljós, lifandi Guð! hjá þjer, aldrei fölnar þín elsku rós, ef trú ei bregðst hjá mjer, það er vor stærsta heill og hrós, að hafa þig æ með sjer, sál mín þann gefna kostinn kjós, Kristur sem öllum tjer.

3. Flýum þá, Guð! í faðminn þinn, í Frelsarans Jesú trú; taktú oss, Faðir! fús þar inn, festing er óhult sú, ástar á dýran eiðstafinn, æ minnstú,

Drottinn! nú, brodd ef að dauðinn brýnir sinn, brjót hann í sundur þú!

## BÆNIN.

Enn höfum vjer þá í dag, himneski Faðir! reynt ný merki miskunar þinnar, þar eð þú hefur viðhaldið oss lífs og heilbrygðum á líkamanum, og þar að auki gefið oss þín dýrmætu náðarmeðöl til að viðhalda andlegu lífi og heilbrygði sálna vorra. Lofaður og vegsamaður sjertu fyrir alla þína einskæru náð og miklu miskunsemi, er þú hefur látið oss í tje, óverðugum Adams niðjum, allar vorar liðnu lífsstundir! Æ, haldtu, góði Faðir! þessari þinni sömu náð og miskunsemi áfram við oss, bæði á komandi nóttu, sem og allar vorar ókomnu æfistundir! Vjer höfum ekki að flýja til annara, heldurenn til þín; þú ert sá alleinasti, er oss getur hjálpað. Auglýs þess vegna á oss mátt miskunar þinnar, ekki einungis í því, að gefa oss þetta líkamlega líf, og það sem því tilheyrir, heldur miklu framar með því, að veita sálum vorum allskyns blessanir og gæzkugnóttir hins andlega lífsins, í þínum elskulega Syni Jesú Kristi, og með því að varðveita oss stöðuga í sameiningu trúarinnar á hönum, allt til dauðans. Ó, gef oss að sofna svo útaf á þessu kvöldi, að vjer sjeum áður orðnir fullvissir um náð þína og velþóknun; svo hvert sem þessi nótt ætti að verða vor síðasta, eða ekki, að vjer mættum fá að líta morgundaginn glaðir og hagsælir, hvert heldur í þessu lífi eður annars heims.

Ó, Drottinn! vjer treystum þinni gæzku, því hún er jafn óendanleg eins og þú ert það sjálfur. Æ, láttu oss njóta meðalgöngu þíns ástkæra Sonar; vjer reiðum oss í trúnni á hans friðþægingu og fyrirbón; æ, bænheyrðu oss því, fyrir hans sakir! Amen.

Vers. Komi þá svefninn sæll í rann, sem þarf við líkams ker. Guð oss blessi til heilla hann, svo hressist kraptarner! en ef að dauðinn og svo kann, uppá oss falla hjer, óvægur skaðar engan þann, er Jesú! treystir þjer!

## FIMMTI SÁLMUR.

Lagið: Jesús Kristur að Jórdan kom, o. s. frv.

Til þín, ó Jesú! augu vor, upphefjum þessu sinni, hingað til lífsins hafa spor, í hag greiðst af miskun þinni. Biðjum af hjarta börn þín klökk, að burtu rýmir því verra, þar kominn er nætur dymma dökk, en dagurinn tekur að þverra: æ! vertú hjá oss Herra!

2. Við Emaus forðum þú sem þá, þangað gengu, bænheyrðir, og virtist í náð þeim vera hjá, verkandi friðar eyrðir; eins vora hjartans heyrðú bón, hjá oss í nótt að búa, þaraf kætist vor sálar sjón, en sorgirnar burtu snúa, trygð þinni megum trúa.

3. Þó að oss straffir þrjótska fyrst, það er oss mjög til góða, auðmýktar þar við æfist list, yðrunar tár að bjóða; hugga oss síðan, Herra! bezt, með hógværðar orði þínu; mundu til þess, að mæddur grjezt, margopt í lífi þínu, þó helzt í þinni pínu!

## B Æ N I N.

Lof og þakklæti sje þjer, lífsins Faðir! fyrir alla þá miklu náð, er þú hefur veitt oss allar lífsstuudir, bæði í tilliti líkamlegra og andlegra efna, en þó einkanlega á þessum næstliðna degi. Hver dagurinn kunngjörir það öðrum, og hver nóttin annari, já, hver stundin og hvert augnablikið lýsir því, hversu þú, ó Drottinn! lætur oss í tje þína miklu miskunsemi, svo óþakklátir og óverðugir sem vjer þó annars erum til þess. Æ, það angrar oss, að vjer höfum verið svo tregir að kannast við gæzku þína hingað til, og enn síður notað oss þau meðöl, tækifæri og krapta, til hins góða, er hún hefur látið oss í tje, svo það væri full von á því, þótt þú værir orðinn þreyttur á að miskuna oss. En þú ert Guð, enn ekki maður; þú hefur sjálfur lýst þjer svo, að þú sjert miskunsamur, líknarfullur og trúr, og fús á að fyrirgefa þeim misgjörðirnar, sem yðrast þeirra af hjarta. Æ, vjer flýjum þess vegna til þinnar grunnlausu gæzku, er Sonur þinn elskulegur, Jesús Kristur, hefur veitt oss aðgang til; vjer flýjum til hennar, og biðjum auðmjúklega: fyrirgef oss, í Jesú nafni, allar vorar syndir, allt vanþakklæti þinna velgjörninga, alla vanbrúkun þinna náðarmeðala, alla vanrækt gefinna krapta og tækifæra til hins góða. Já, bæt því, nú ofan á allar þegnar velgjörðir, að unna oss enn eptirleiðis þinnar náðar og náðarverkana í vorri sálu til helgunar og sáluhjálpar; og sjer í lagi, þá láttu, Drottinn!

þína hönd hvíla yfir oss á komandi nóttu, til hlýfðar og varðveizlu gegn öllu grandi; já, snú þínu blíða augliti til vor, og vertu oss öllum mildur og miskunsamur, fyrir verðskuldunar-krapt þíns Sonar Jesú Krists, og samverkandi náð heilags Anda! Amen.

Vers. Er það vor allra ósk og trú: að þú vor Jesú kæri! sjert hjer í vorum selskap nú, svoddan von gleði nærir; á dyr vors hjarta dreyra þinn, drjúpa lát oss til bezta, svo vondir þankar engir inn, orki sig þar að festa; blessan þá lát ei bresta!

## SJÖTTI SÁLMUR.

Lagið: Heiðrum vjer Guð af huga' og sál, o. s. frv.

Þessa dags, Guð! er þrotinn tíð, þannig lyktar vor æfi um síð, undirbú oss til endadags, enginn veit nema' hann komi strax, kveik í oss yðrun, tendra trú, tállausa betrun verka nú, umvendun því að sönn er sú.

2. Umvendunarlaust enginn mann, til eylífrar sælu komast vann, þinn Sonur kenndi' oss þennan veg, þó hann að feta lund sje treg; æ, Guð! láttú því anda þinn, auðsýna þar í kraptinn sinn, að ræti oss öllum yðrun inn.

3. Son þinn fyrst gafstú öllum oss, og ljezt hann sökum vor deyja á kross, gef þú oss anda einnig þinn, annars nægir ei skenkur hinn, er leiði oss rjetta lífsins slóð, loks svo að hreppum afdrif góð, fyrir þíns Sonar blessað blóð!

## BÆNIN.

Lofaður og vegsamaður sjertu fyrir það, eylífi miskunsemdanna Faðir! að þú hefur á umliðnum degi, eins og allar aðrar vorar liðnu lífsstundir, unt oss alls hins góða, er þú hefur sjeð oss sann-nauðsynlegt til lífs- og sálar-heilla. Þú hefur gefið oss framfærslu-meðöl handa líkama vorum, og frelsismeðöl handa sálu vorri, svo vjer gætum þjónað þjer bæði með líkama vorum og sálu vorri, sem ert Drottinn vor Faðir og Frelsari. En með hvílíkri varmennsku höfum vjer goldið gæzku þína? Limu líkamans höfum vjer ljeð ranglætinu til hervopna, en sálir vorar syndugum girndum til íbúðar. Æ, fyrirgefðu oss það, Faðir allrar mildi! og láttu oss ekki skera upp makleg laun athafna vorra, hverki á þessari nóttu nje endranær! Hvert skulum vjer annað flýja, heldurenn til þín, þú, sem hefur heitið yðrandi syndurum vægðarríkri viðtöku. Æ, taktu því á móti oss, í nafni þíns ástkæra Sonar, og fyrirgefðu oss allar vorar líkams- og sálarsyndir, fyrir sakir allrar þeirrar beisku pínu og bitru kvala, er hann hlaut að líða vor vegna á líkama sínum og sálu; já, láttu hans blessaða blóð hreinsa sálir vorar og samvizkur af öllum syndanna saurugleika. Svo viljum vjer þá, fágaðir þessari blessuðu blóðs-ádreifingu, leggja oss útaf til svefns í kvöld, í þínum miskunarfaðmi, himneski Faðir! og óskum þess, að vjer mættum sofna í honum hinum síðasta dauðans-dúr, til að vakna upp aptur myndfegraðir í þínu dýrðarríki! Æ, veit oss það, hjart-

kæri Faðir! af náð þinni, fyrir Jesú Krists skuld! Amen.

Vers. Svo viljum ganga sængur í, sættir við þig, ó Guð! á ný, óhultir fyrir allri neyð, eins þó að hlytum kanna deyð; vak þú, minn Jesú! yfir oss, oss er þá búið sælu hnoss, hnoss, er á þínum keyptir kross!

## SJÖUNDI SÁLMUR.

Lagið: Um dauðann gef þú, Drottinn! mjer, o. s. frv.

Svo er þá vika enduð enn, ein fyrir gæzku þína; ó! þú Guðdómsins eining þrenn! yfir oss ljeztú skína, andlitis ljómann æðsta þinn, er hann þín stóra miskunin, sem við oss gjörðir sýna.

2. Af Syninum þetta ljómar ljós, sem leiptrar í orði þínu, sú er hin stærsta heill og hrós, í hjarta það geyma sínu, vísar það oss á veginn lífs, en varnar myrkrum andarkífs, Frelsarans fyrir pínu.

3. Þúsund margir við þetta ljós, þrætt hafa veg til hæða, sem að nú fremja sigurhrós, sitt eptir stríðið skæða; aðrir þess glansa ganga í, gegnum myrkurin skaðafrí, ljett er þeim lífsins mæða.

4. Æ! svo lengi oss ætlast skal, eptir ráðstöfun þinni, í búa þessum eymda dal, önd vor þeim ljóma sinni! svo að á dauðans dymmri stund, dýrð þess forklári síðsta blund, en bezt í eylífðinni!

## BÆNIN.

Ó, að vjer gætum nú þakkað þjer verðuglega, heilagi Faðir! alla þína miklu miskun og mildiríku

velgjörðir, er þú hefur auðsýnt oss af einskærri náð, bæði umliðin dag, sem og alla þessa liðnu viku, já, öll vor aflifuðu æfiár! Ó, að hjörtu vor gætu orðið full-hæf til þess, af helgandi krapti anda þíns, þá hefðum vjer þess fullvissara traust að vænta hins sama framhalds gæzku þinnar við oss hjer eptir sem hingað til. Æ, hreinsa þess vegna hjörtu vor, góði Faðir! fyrir lifandi trú á nafnið Sonar þíns! Fyrirgef, fyrirgef allar vorar syndir, fyrir sakir hans blóðugu fórnfæringar á altari krossins, og kastaðu þeim í hafsdjúp þinnar grunnlausu gæzku, svo minning þeirra komi ekki upp að eylífu! því þegar þú hefur tekið syndirnar burt frá oss, og rjettlætt oss aptur fyrir trúna á Jesú blóði, þá erum vjer orðnir hæfilegir til allra góðra verka, til að lofa og vegsama þig, þakka og þjóna þjer, hlýða og eptirfylgja þjer, alla vora lífdaga. Svo minnumst vjer þá með þakklæti og lofgjörð allra veittra velgjörða, og ölum þá glöðu von og örugga traust, að mega njóta enna sömu eptirleiðis. Vjer endum þá glaðir þenna dag og þessa viku, því vjer vitum, að þín náð og trúfesti tekur samt engan enda, heldur varir eylíflega. Já, vjer erum þess glaðari, sem vjer vitum, að fremur fækka vorir hjerveru-dagar og vikur í heimi þessum, þareð vjer nálgumst því framar dagsbrún hinnar sælufullu eylífðar. Æ, gefðu oss, hjartkæri Faðir! að búa oss þannig, með lifandi trú, vöku og bæn, undir vort síðasta æfikvöld, að vjer mættum endurvakna eptir þinni mynd, að morgni hins eylífa dýrðar Sabbatsins, í hádegis-

ljóma ennar himnesku Jerúsalem, og ásamt öllum þínum útvöldum, sjá og skoða þig, vor Guð og Frelsari! augliti til auglitis eylífflega! Æ, veit oss það, góði Guð! fyrir sakir þinnar elsku til vor í þínum Syni, Jesú Kristi vorum Drottni og Frelsara! Amen.

Vers. Þú Jesú, sem í þinni gröf, á þessum hvíldist degi, en uppreist að morgni utan töf, unn oss að sál vor megi, á morgun upprísa einsog þú, til andligs lífs í sannri trú! æ! lát það bregðast eigi!

---

## Fjórði flokkur.

---

# Viku-sálmar,

allir með alþekktu, líku lagi.

---

### I., Á SUNNUDAGSKVÖLD.

Sólar dag, sál' í hag, sannhelg Guðdóms þrenning! menta ljezt, lýðinn bezt, lífs með ræðu kenning; veit þitt orð, vítt um storð, verki lasta grenning, og manndyggða menning!

2. Ekkert hnoss annað oss, ætti að vera kærra, enn miskun þín, skært er skín, skýum lægra og hærra; æ! henni þá, unn oss ná, ekkert girnumst stærra, nje blessunar bærra!

3. Styrk oss hjer, þjóna þjer, og þínum boðum hlýða, af hjartans rót, hvað sem mót, heillum nái stríða; svo vor dyggð, sje vel byggð, á Sonarkærleik blíða, er trú fæðir fríða!

4. Vort er líf, veikt, en kíf, í veröld nóg að reyna: send oss því, ánauð í, aðstoð náðar beina: þó ávallt, umfram allt, ást og trúna hreina, lát sjer ei leyna!

5. Jesú blóð, blessi þjóð, burtu syndir mái, hefndar glóð, hels frá slóð, hvörgi til vor nái! opni sjóð, gæzkan góð, Guðs, (sem eptir þrái), frið svo hvör fái!

## II., Á MÁNUDAGSKVÖLD.

Dagsljósið dvínar, Drottinn! í þínar, sál hendur seljum, sæla þá oss teljum, af umsjón þinni, ef hún oss hlynnir, líf þar til linnir.

2. Þakklætið þýða, þitt fyrir blíða, ástríki' ótalda, oss ber að gjalda; Guð! þú oss gladdir, gæfu tilkvaddir, sál og líf saddir!

3. Allt frá þjer einum, ofan koma reynum, gott, sem oss gleður, gæðum lífsins meður; ei gjörist grunnur, af gnótt sælu kunnur, þinn blessunar brunnur!

4. Vjer þó ei verðir, velgjörða mergðir, þínar að þyggja, þig sem náum styggja, sjeum, samt vænum, sárt til þín mænum, bljúgum með bænum!

5. Sonar þíns sakir, sjáðu vort kvakið; brot vor hann bætti, blessaður við þig sætti, hóp þinna sauða, með sínu blóði rauða, og dýrmæta dauða!

## III., Á ÞRIÐJUDAGSKVÖLD.

Dagur horfinn einn er, æfistunda minna, sjerhvör annar svo þver, sem þeir umliðinna; veittu Drott-

inn minn mjer, miskunsemd að finna, unz lífsstundir linna!

2. Forsjón ræður föst þín, fyrir vorum högum, metur endamörk sín, mæðu og rauna-slögum; gjörvöll lukka, Guð! mín, gengur að þínum lögum, á öllum æfidögum.

3. Eins til þakka eg tek, ögun og huggun frá þjer; veit eg mín er sál sek, sem þarf vægðar hjá þjer; heimur ef við lund ljek, lítt var traustið á þjer, meðkenna' eg má þjer.

4. Fyrirgefðú mín mörg, misverk, Drottinn góði! þó þau sjeu allörg, augljós, sem í hljóði, sendtú minni sál björg, svo hún fyrrist móði, í Krists krapta blóði!

5. Er mjer þá óhætt, eins í vöku' og blundi, geng eg þá og sef sætt, sáttum þínum undir; allt verður böl bætt, við búnar lífsins stundir, á Guðs friðar fundi!

## IV., Á MIÐVIKUDAGSKVÖLD.

Geng eg nú, Guð minn! greitt að hvíldarbóli, um mig bú, eittsinn, enn í þínu skjóli; von mín sú, vel finn, víst er ei á hjóli; skal hún minn skóli!

2. Skóli sá, skal mig, til skyldu trúar hvetja, að eg á, einn þig, eigi traust að setja, og þar frá, aumlig, engin kjör að letja, er ná hjer ínetja!

3. Er þín tryggð, eins skír, oss þó typta hljótir; en engin lygð, er dýr, oss þín loforð brjóti; vor er dyggð, víst rír, ef veröld hlær á móti, náðar þó njóti.

4. Oss í nótt, svæf sætt, sjálfur Guð! vjer biðjum; gjörðu skjótt, böl bætt, búið Adams niðjum; verður rótt, geð grætt, gráts í dalnum miðjum umbót ef iðjum!

5. Fyrir þinn, Son, er sinn, seldi dreira' úr æðum, leið oss inn, loks í hinn, lífsins sal á hæðum, eymda grynn, ólög stinn, með öllum lífsins mæðum, en gleð dýrðar gæðum!

## V., Á FIMMTUDAGSKVÖLD.

Kvölds er komin stundin, kallar þörfin blundinn, hvíldar leitar lundin, við lífs andstreymi bundinn; ó Jesú! þín undin, auki trúar mundinn, svo hryggð sje burtu hrundinn!

2. Mörg er manns ástríða, er megnum þvingar kvíða; gott er að lifa og líða, og lífs á himnum bíða; þá mun sælan þýða, þeirra kjörin prýða, hjer sem trúa' og hlýða!

3. Gef oss, herra góði! gleði, úr þínum sjóði, ei svo böl ofbjóði, nje bannist friðar gróði, hrittu hryggða móði, hreinsa oss þínu blóði, því frelsunar flóði!

4, Mildi Kongur manna! meinin græð syndanna! lát oss kvittun kanna, svo kæti hreppum sanna; ef dauða ber ei banna, að brjóta fjörið granna, leið oss lífs í ranna!

5. Vík burt öllum vanda, og vjeljum sálar fjanda, er eymdum allra handa, inní lífið blanda; láttú ljóssins anda, ljúfa hjá oss standa; mun þá mein ei granda.

## VI., Á FÖSTUDAGSKVÖLD.

Þessi dagur þrotinn, (þangað hlaut að berast) mörg eru misbrotin, má því yðrun gerast, svo náðar hreppum notin, nokkuð má í skerast, heilagt verk handtjerast!

2. Heilagt verk má heita, hreina yðrun drýgja, Drottins líknar leita, með lundu hræsnis fría; berum oss svo breyta, og biðja' um miskun nýa, fár svo mættum flýa.

3. Allt á Jesú einum, eigum traustið festa, hann með dreyra hreinum, hreinsun gjörði bezta, Guð, í öllum greinum, gjörir þá ei fresta, miskun votta mesta.

4. Lofum lifnað bæta, lífs á voru skeiði, mun þá náð oss mæta, en mýkjast forþjent reiði, orðið Guðs ágæta, oss til dyggða leiði, götu friðar greiði!

5. Kristó líkjast keppum, kristnum er það sómi; slíkri æru' ei sleppum, svo slitni saka drómi, en hærstu lukku hreppum, að Herrans friðar rómi, bæði' í deyð og dómi.

## VII., Á LAUGARÐAGSKÖLD.

Komin um síð, kvöld-tíð, kennir líf að endi, og eptir stríð, um hríð, að oss friður vendi; værðin blíð, veitt lýð, verður þá í hendi, Kristur sem kenndi.

2. Hverjum þá, helzt má, hamingja sú veitast, greinir skrá Guðs frá, sem gjörir ekki breytast; það er sá, sem þrá, synda reynir heitast, og líf betra leitast.

3. Yðran trú, sönn sú, er sæmir kristinndómi, gjörir nú, Guðs hjú, glöð af náðarrómi; sál mín!

þú, þig bú, þinn svo framist blómi, sigur og sómi.

4. Vikan ein, ósein, er nú þegar flúin, hafa' ei nein, hörð mein, hingað verið snúin, náðargrein Guðs hrein, góðum mun tilbúin, treystir því trúin.

5. Náðin þreyð, Guð! greið, gef þín frelsi þjóðir; oss í neyð, ábreið, ást, svo fyrrumst móði, en í deyð, loks leið, lífs á dýrðar slóðir; heyr það, Guð góði!

---

## Daglegar bænir.

### í Stefum.

---

### I., Á SUNNUDAG.

Eylífi Guð! vor æðsti og bezti Faðir!
af öllu hjarta nafn þitt lofum glaðir;
þökkum einnig þinnar gæzku dáðir
þúsúndfaldar, sem oss veita náðir;
liðin dag og lífsstundirnar allar
ljeztu þær oss sjerhverjum tilfalla,
enginn af oss orkar þær að meta,
enginn heldur mun þær talið geta.
Mest er þó sú miskun þín áf öllum,
nær miðlaðir oss bót við synda göllum,
í þínum Syni Jesú Kristó kæra,
sem kom á jörðu lífið oss að færa;
með sínum dauða dró hann oss frá pínu
og dýrðleg kjör í ríki veitti þínu;
börn þín nú en bræður hans vjer heitum,
bænheyrir oss, nær vjer til þín leitum.

Oss áminnir, einsog Faðir beztur,
með orði þínu, við þess heyrn og lestur:
að vjer skulum stunda' að gjörast góðir
og ganga rjettar trúarinnar slóðir.
Í dag vjer höfum heyra fengið þetta.
hjálpaðu' oss að bera' ávöxtu rjetta,
unn oss vaxa eins í trúnni' og dyggðum,
yfir þínum glaðir vera tryggðum;
veit oss orku vel í trúnni' að stríða,
vaka, biðja og þolinmóðir líða;
svo vjer hjá þjer loksins fáum lenda,
í lífi því, sem engan tekur enda;
hvar börn þín öll í blóma dýrðar gleðjast,
af brunni þinna vellystinga seðjast;
fyrir þinn Son, Frelsarann Jesúm mæta,
Faðir! vyrðstu að bænum vorum gæta! Amen.

## II., Á MÁNUDAG.

Í hæðir til þín hefjum nú vorn anda,
Herra! Kongur alheims, þjóða' og landa!
Í Jesú nafni vjer þig bljúgir biðjum.
být oss náð, svo þína dýrkun iðjum.
Lát þíns ríkis lög oss heilög vera,
lát oss dyggð og trúar merki bera;
helga bæði húsin vor og hjörtu
himnesku með sannleiks skini björtu;
veit þú oss með vönduðu hjarta' og sinni
verk öll fremja skipun eptir þinni,
samvizkuna svo vjer geymum góða,
gætandi þess, sem þín orðin bjóða.

Æ! lát, Jesú! anda þinn oss leiða,
í oss frið og kærleikann tilreiða;
öll vor til þess umgengni þjer líki,
sem undirgefnum ber í þínu ríki;
farsæld þá og fögnuð sannan hreppum,
ef frá oss aldrei þínum kærleik sleppum;
hann oss veitir hughraustum að stríða,
og hjálpar þinnar fullvissum að bíða;
unz vjer loks, nær æfi stundleg dvínar,
innleiðumst í friðar hallir þínar;
þá munum vjer heiðrun góða gjalda,
Guð vor! þjer, um allar aldir alda! Amen.

## III., Á ÞRIÐJUDAG.

Ómetanleg er þín náð! vor Faðir!
ómetanlegt hvað vor tilkostaðir,
fyrst í sköpun, framar í viðhaldi,
fáum vjer það gjörvallt metið aldrei;
þar næst í því, sem allt yfir tekur,
og í oss heita þakklátsemi vekur:
nær miskunar vildir oss þinn vilja,
veita rjett í Jesú Kristó skilja;
hvörsu þú oss blessun þína býður,
og brotlega með þolinmæði' umlíður;
að vjer hólpnir verðum allir villtu,
vilja þennan, Drottinn! á oss fylltu.
Lát oss trúna lifandi varðveita,
ljena oss eptir þínum orðum breyta;
samvizkuna svo vjer ölum hreina,
sívakandi, hvað sem hljótum reyna;

meðlætið þá mun oss ekki villa,
mótlæti ei óþolgæði fylla;
allt svo verður oss til lykta' að góðu,
af því fylgjum Jesú, vorum bróður,
einn sem lífið oss afrekað hefur,
og anda sinn til pants þar upp á gefur,
því skulum vjer þig og hann tilbiðja,
þína dýrkun hjer og síðar iðja! Amen.

## IV., Á MIÐVIKUDAG.

Drottinn Guð! vjer andvörpum nú allir
upp til þín, með bænar heitu' ákalli,
allir jafnt í einum hug samtaka,
allir sem að stunda biðja' og vaka;
gef oss öllum gott það er og heitir
af gæzku þinni, hvör sjer aldrei breytir,
til lífs og sálar, líkt sem þörfin krefur,
líka sem þú hingaðtil gjört hefur.
Daglegu með brauði þú oss blessa,
blessun þína lát oss styrkja' og hressa;
gef þú oss með glöðu hjarta' að vinna,
gæzku þína í öllum kjörum finna,
ánægðir þó eitthvað blási móti,
og nauðstöddum til að hjálpa fljótir;
svo vor trúin sjer með verkum lýsi,
sem þig, Guð! í kærleikanum prísi.
Oss lát jafnan að því gá og hyggja,
að á jörðu' ei lengi skulum byggja,
en ástunda það eina nauðsynlega,
alltíð þar til geyma lund ótrega;

svoleiðis vjer sanna gæfu hljótum,
sáttmálann, ef við þig ekki brjótum;
loks á himnum fulla sælu fáum,
fyrir þinn Son, hvörs dýrðar skoðun þráum.
Amen.

## V., Á FIMMTUDAG.

Bljúgum með og böli mæddum anda,
biðjum vjer þig, Drottinn Guð! að vanda,
syndugum er mönnum miskun veitir,
og mildilega við þá jafnan breytir.
Æ! vjer játum allar vorar syndir,
að vjer höfum rjett sem værum blindir,
anað fram á uggleysis vegi,
yfir oss svo þína reiði dregið;
gleymt að virða gæzku náðar þinnar,
er gafst þú oss í Jesú Kristó finna;
fyrir hans sakir fyrirgef oss öllum.
framda glæpi, sem nú til þín köllum!
æ, vor Faðir! ástand vort þú þekkir,
allopt hvörsu spillingin oss blekkir;
ó! hvað lítin optast höfum vilja,
og kappsmuni við það ranga' að skilja;
einnig brestur áræðið að stríða,
allteins líka stöðuglyndi að hlýða.
Vorkenndu nú vanmáttinn, ó Herra!
en vonzku hjartans láttú sífelt þverra,
gef oss vilja' og viðleitni þess góða,
verkaðu trúna kærleikans með gróða;
legg oss, Jesú! líknarmál til hlýtar,

lát þinn anda dáð og krapti býta;
spor þín síðan gef þú oss að ganga,
góðs þeim unna, sem að breytni ranga
iðkað hafa oss og þjer á móti,
en auðsýna þeim mannelskunnar hótin;
svo merki trúar mættum á oss bera,
um miskun þína svo fulltrúa' að vera." Amen.

## VI., Á FÖSTUDAG.

Guð trúfasti! Guð vor Faðir blíði!
gef oss hjarta, sem þjer fúsast hlýði;
hjarta sem þig hyllist meður yndi,
hjarta. sem ei freistni stakleg blindi.
Lát oss ekki af lasta dæmum tælast,
lát oss ekki óvinina fælast,
heldur móti heimi og glæpum stríða,
hvað sem vjer þar fyrir kynnum líða;
aldrei heldur um það efast geta,
að öll þín stjórn er vís og góð að meta;
já, að allir eru þínir vegir
af æðstu náð og tryggðum dægilegir.
Slíkt vjer eigum þínum Syni að þakka,
þá oss fyrir, dauðann gjörðir smakka.
Leið þú oss með ljósi þínu' og anda
lífsins veg, í gegnum allan vanda.
Kenn oss heiminn kunna rjett að brúka,
krossinn bera með þollyndið mjúka.
Styð þú oss í stríði öllu' og mæðum,
að stunda rjettum lífsins eptir gæðum;
svo vjer trúna sanna varðveitt fáum,

samvizkunnar jafnan líka gáum.
Freistingarnar þó að þúsund þjaki,
þeim á móti sálin biðji' og vaki;
loksins veit oss sannkristinna' í safni
sigurinn, í Jesú Kristí nafni! Amen.

## VII., Á LAUGARDAG.

Herra Guð! þjer heiðrun allir gjaldi,
hjálp vor stendur öll í þínu valdi,
þanki slíkur sálu vorri svalar,
svo hún þannig grátbænandi talar:
miklaðú' á oss máttinn gæzku þinnar,
að mættum jafnan athvarf hjá þjer finna!
Frelsaðu oss frá öllu því hinu' illa,
öllu því sem megnar oss að spilla;
veldur syndin vondum öllum kjörum
varðveit oss því bezt frá hennar snörum;
lát oss öðlast lukku náðar sanna,
til lífs og sálar, hvað sem verðum kanna;
gef oss vizku' að ganga fram í heimi
grandvarlega' í sæld og lífs andstreymi,
engan hneixla engum skaða gjöra,
ætíð varðhald samvizkunnar bera,
hún er það sem hverjum mest á ríður,
hún er það sem gleður mest og svíður;
hafi flekkan hennar ollað móði,
hreinsaðu' hana þá með Jesú blóði!
Lát þinn anda vitni bera vorum
vjer að fylgjum Jesú dyggða sporum;
öruggir svo mættum lifa' og líða,

líka vorrar dauðastundar bíða;
hjeðan loksins frelsaðir svo fara,
í fagran sælu- og dýrðar-vistar skara.
Oss bænheyr, sem öllum hlutum stjórnar
Amen segðu, vegna Jesú fórnar! Amen.

## Fimmti flokkur.

Sjö

# Viku-sálmar og bænir,

til Frelsarans, út af hans pínu.

### FYRSTI SÁLMUR.

(þessir sjö vikusálmar eru allir með sama lagi).

Um dauðann gef þú Drottinn mjer.

Jesú af hjarta' eg þakka þjer, þinn dauða' og beiska pínu; hvörja þú leiðst til líknar mjer, á lífi manndóms þínu; svo að þíns Föðurs feingi náð, þess fallna mannkyns brot afmáð; að óveiktu veldi sínu.

2. Ó hvað sárbitur sút og kvöl, sálu magnaðist þinni — í grasgarðinum, svo varð ei völ — á værð eður róseminni; blóðugur sýndi sveitinn það, sem af þjer dundi' í tjeðum stað; allt til góðs öndu minni.

3. Svo margar hafði' eg syndir drýgt, í sálar fylsnum mínum, að þín sál varð að þola slíkt, í þaunkum og grunni sínum; friðþæging, er því feingin mjer, Frelsari minn! ef treysti' eg þjer, og hlýðnast orðum þínum.

4. Íhugan láttu angurs þíns — eg svo Guðs frið-

ar njóti — hepta þá gleði hjarta míns, sem hjarta þín' er á móti; láttu mig sorg af syndum þjá, svo eg þeim aldrei ginnist á; nje heilög þín boðorð brjóti.

5. Uppvek þú, Drottinn! auðmjúkt þel, og andakt í mínu geði, að eg biðjandi vaki vel, sem vinum þínum tilrjeðir; í freistingum gef mjer trausta trú, til míns dauða mig undirbú, svo eylífa' eg öðlist gleði.

## BÆNIN.

Ó, Drottinn Jesú Kristi! þú Sonur lifanda Guðs! sem kominn ert í heiminn synduga menn sáluhólpna að gjöra. Jeg þakka þjer af öllu hjarta, fyrir þína blóðugu pínu og bitra dauða, sem þú leiðst, svo vel mín, sem allra Adams barna vegna, til þess þinn himneskur Faðir gæti, að óveiktu sínu herradæmi og óskertu sínu lögmáli, tekið mig og alla þá syndara til náðar, sem í sannri yðrun fyrir sínar yfirtroðslur, og lifandi trú á þína friðþægingu, hennar hjá honum leita. Sjerílagi þakka jeg þjer fyrir þá sárgrætilegu kvöl, er þú leiðst á þinni heilögu sálu í grasgarðinum Gethsemane, þegar þú, titrandi af hræðslu, kvartaðir yfir því, að þín sála væri svo hrygg, að þú ætlaðir að deyja. Með þessari písl hefur þú sjerílagi liðið og friðþægt fyrir allar þær óteljandi syndir sálar minnar, er hún með saurugum girndum og svívirðilegum þaunkum drýgt hefur móti þínu Föðurs heilaga lögmáli, og þar sem í sálu minni er uppspretta alls þess ílla, sem jeg með orðum og verkum drýgi og drýgt hefi alla æfi mína, hlýtur sú þín pína, er fyrir

þetta friðþægja skyldi, að hafa verið hin allra skelfilegasta; hvað líka sýndi sig á því, að hún pressaði út af þjer blóðugann sveita, og kom þjer í þrjár reisur til að að biðja þinn himneska Föður um nokkra vægð á henni. Æ, minn Herra! láttú nú íhugan þessara þinna sálarkvala deyða í mjer allar saurugar girndir og syndugar ímyndanir, og gjöra mjer þær viðbjóðslegar; en aptur á móti uppvekja þjer til dýrðar í hjarta mínu heilagar hræringar, fullar af auðmýkt fyrir þjer, kærleika til þín, og löngun til góðs og guðlegs lifnaðar. Einkum gefðu mjer, nær jeg innvortis eður útvortis freistast til að syndga, að hafa stöðuglega í minni aðvörun þá, sem þú gafst þínum lærisveinum: að vaka og biðja, svo jeg falli ekki í freistni! Ó, láttu þitt blessaða krossins orð verða að því sæði í sálu minni, af hvörju spretti trúin á þína friðþægingu, vonin á þín fyrirheit og kærleikurinn til allra þinna heilögu boðorða, svo eg til míns dauða vel undirbúinn, mætti hjá þjer eylífa sælu og sálargleði finna. Bænheyr það, Herra Jesú! vegna allra þeirra sálar kvala, er þú fyrir mig líða máttir. Amen.

Vers. Fyrir þá písl, er þoldir þú, þjóðum til lausnar minn Jesú! einkum fyrir þá ofur neyð, önd þín í Gethsemane leið, veittu mjer hjartans værð og frið, í vöku' og svefni, þess jeg bið; einkum nær skilst eg veröld við!

## ANNAR SÁLMUR.

Þakklæti' og lofgjörð þjer eg á, þýðasti Jesú! greiða, fyrir gjörvalla þjáning þá, er þig loksins rjeði deyða — vegna mín; svo eg finndist frí, frá Guðs rjettlætis straffi því, syndirnar sem til leiða.

2. Fangaður varst' af fjendum þín, og fjötrum þúngum reirður; mektugir síðan milli sín — morðingjar bundinn keyrðu; þetta leiðstu sem þolugt lamb, þú svo fyrir mitt bættir dramb; hjartans ákall mitt heyrðu!

3. Bið eg að minning banda þín, bindi mitt hold óspaka, svo andanum takist iðja sín, í eptirfylgd þinni' að vaka. Stöðuga lund og styrk mjer gef, að stríða þar til eg unnið hef; ei lát mig ótryggð saka.

4. Af öllu hjarta' eg óska mjer, Anda þíns hjálpar njóta, svo eg þín fótspor feti hjer, en forðist athæfið ljóta. Bind þú með elsku böndum þín, blessaði Jesú! sálu mín; þá mun ei trú mín þrjóta.

5. Láttu svo hvörki líf nje deyð, lukku nje þjáning skæða, snúa mjer rjettri lífs af leið; ljena mjer styrk að þræða, gegnum syndar og dauðans dal, dýrðar inn í þinn skæra sal, til eylífra yndis gæða.

## BÆNIN.

Lof og þakkir sjeu þjer, Herra Jesú, minn Endurlausnari! fyrir alla þína friðþægjandi pínu ýfirhöfuð; en þó sjer í lagi fyrir það, hvörsu þú ljetzt þig af þínum eigin lærisveini svíkja, svikinn til fanga taka, og fangaðan frá einum ranglátum dómara til annars hrekja. Þetta hefur þú minna vegna

viljað líða, sem átti að vera, eptir minni skírnarskyldu, þinn andlegur lærisveinn, já, líða það fyrir þá ótryggð, er eg hefi sýnt þjer, bæði leynt og ljóst; fyrir það, hversu eg hefi látið tillokkanir syndanna hertaka mig, og leiða frá einu ranglæti til annars. Æ, Drottinn minn! eins hjartanlega feginn og eg vil njóta pínu þinnar, mjer til fullkominnar friðþægingar hjá þínum himneska Föður, jafn innilega bið eg þig nú að gefa mjer náð þíns heilaga Anda til þess, að íhugan þinna fjörráða kefji niður hjá mjer alla hræsni í þinni dýrkun; íhugan þinna banda auki kappsmuni hjá mjer að slíta af mjer öll fjötur syndanna og vondra girnda, og íhugan þíns hraknings milli dómaranna í Jerúsalem verki hjá mjer stöðuglyndi í þinni þjónustu og eptirfylgd, allt til dauðans. Já, um þetta bið eg þig þess innilegar, Drottinn Jesú! sem jeg er fremur fullviss um, að ef eg ekki öðlast slíkt hugarfar, ef eg ekki gjörist þinn hreinskilinn dýrkari, bæði í því, að stríða gegn syndinni, sem og að stunda eptir helguninni: þá fæ eg ekki notið þinnar blessuðu friðþægiugar. Æ, bind þú sálu mína böndum elskunnar við þig, svo engar holds nje heims tælingar, engar ógnanir nje ástríður, orki að skilja mig við þinn kærleika, þína dýrkun og þína eptirfylgd. Láttu Anda þinn vera minn leiðtoga gegnum heiminn, þar sem syndin, eymdin og dauðinn hrekja mennina millum sín, svo eg geti komizt farsællega heim þangað, þar sem rjettlætið, sælan og lífið blómgast ey-

lífiega. Varðveittu trú mína stöðuga, og láttu hana ekki þrotna, þangað til eg fæ fullþekkt frelsi þitt, og notið þess fyrirstöðulaust, ásamt öllum útvöldum, í enni himnesku Jerúsalem, eylíflega. Bænheyrðu mig um þetta, Drottinn Jesú! vegna þeirra vægðalausu písla, er þú leiðst í minn stað; æ, bænheyrðu mig, svo skal eg eylíflega lofa þig! Amen.

V e r s. Jesú! fyrir þín blóðug bönd, bið eg af minni greiðir önd, lögmáls fjötur og lastahnút; leið mig úr synda myrkrum út, eptirkomandi og alla tíð, auðnist mjer náðar vernd þín blíð. Færist þjer lofgjörð fyr og síð!

## ÞRIÐJI SÁLMUR.

Ennþá að nýju eg inni þjer, ó, Jesú! þakkir frómar, fyrir písl þína, og það sem mjer, þar með gjörðir til sóma. Farsæld af henni flýtur mín, friðþæging, traust og von til þín; samt heill á degi dóma.

2. Dómssakir á þig, Drottinn minn! djarfir fallsvottar sóru, aldeilis hverjar á mig finn, andliga sannar vóru; en þú leiðst fyrir allan heim, eg svo kvittaðist hreint af þeim, samt þeirra straffi stóru.

3. Aldrei lát mig nú eptirdags, uppreisn þjer móti gjöra; kenn mjer í öllu leita lags, lögum þín hlýðinn vera; öðrum á rjettan vísa veg, svo verði með þeim einn talinn eg, er trúar ávöxt bera.

4. Ó! þú sann-nefndi Sonur Guðs! sonarrjett gef mjer hljóta, undirrót er það alfögnuðs, í eylífu lífi' að njóta; sálar minnar þig konung kýs, kemst eg þá inn í Paradís; gleðin mun þar ei þrjóta.

5. þegar þú, Drottinn! dæmir heim, nær dagar veraldar linna; æ! lát mig verða einn af þeim, sem eylífa sælu finna; fyrir þinn stranga dauða dóm, dæmdu mjer til með náðar róm, blessanir barna þinna!

## BÆNIN.

Hjartanlegustu þakkir inni eg þjer fyrir það allt-saman, minn ljúfi Lausnari Jesú Kristi! er þú hefur liðið fyrir minna og alls heimsins synda skuld, því í þessu er fólgið mitt sama lausnargjald og fullgilda rjettlæti. þú varst mín vegna ákærður af þínum fjandmönnum fyrir lognar sakir, svo eg þín vegna ekki yrði eylíflega fyrirdæmdur fyrir sannar sakir gegn lögmáli þíns Föðurs. þjer var kennt um það, að þú frásnjerir fólkinu, því eg hafði svo opt snúið mjer frá Guði, til hans óvina; að þú fyrirbyðir að gefa keisaranum skatt, af því eg hafði svo þrátt synjað Guði um skatt minnar skyldugu hlýðni; að þú segðir þig að vera konunginn Krist, af því eg hafði svo tíðum með syndum mínum gjört uppreisn gegn konungi himins og jarðar. þú varst dæmdur dauðasekur af öllu hinu mikla ráði í Jerúsalem og af sjálfum æðsta prestinum þar, fyrir það að þú

sagðist vera Guðs Sonur, af því eg, og aðrir mínir samsyndarar, höfum brotið svo hræðilega af oss þann rjett: að heita börn lifandi Guðs. Æ, Drottinn Jesú, minn æðsti prestur og talsmaður! veittu mjer, að allar sakir þíns dauða, sem eru syndir mínar, verði mjer fyrirgefnar, og láttu lögmál þíns himneska Föðurs, ekki geta fyrirdæmt mig fyrir þær að eylífu. En gefðu mjer þó jafnframt náð þíns helga Anda til þess, að geta, meðan eg lifi hjer í heimi, varizt og barizt gegn öllu því, og öllum þeim, sem vilja snúa mjer frá trúnni á þína blessuðu friðþægingu; en að kosta þar á móti kapps um, að snúa sem flestum eg get til þinnar dýrkunar; og gjalda þannig sjálfur Guði skatt viljugrar og sonarlegrar hlýðni, jafnframt því að eg hylli þig af hreinskilnu hjarta fyrir konung sálar minnar, svo eg mætti verða sannarlegt barn þíns himneska Föðurs, og öðlast, fyrir verðskuldunar krapt þíns rjettlætis, eylífa vistarveru í þínu konungsríki á himnum. Bænheyr mig, ó Jesú! og haltu máli mínu til sigurs fyrir augliti þíns Föðurs, svo hann láti mig njóta þess, að enginn mælti þjer málsbót, þegar þú varst fyrirdæmdur mín vegna! Eg skal þá lofa og vegsama þig og hann fyrir það eylíflega! Amen.

Vers. Sakfeldur með því saklaus varst, syndir veraldar þegar barst, Jesú! því taktu málstað minn, mjer til líknar, við Föður þinn. Sökum þú öllum svipt af mjer, svo eg þá tíð, sem eptir fer, óhultur lifi í heimi hjer.

## FJÓRÐI SÁLMUR.

Ó! að eg gæti af innstu rót, eins og mín skylda krefur, þjer, Jesú! vottað þakkar hót, þjer — sem mig frelsað hefur, með þinni pín' og dýrum deyð, frá dauðanum, synd og allri neyð, já, himneska heimvon gefur.

2. Þú sem á himnum heiðrun bezt, af heilögum þiggur skara, háðyrði, spott og forakt flest, fjandmenn þjer ekki spara, á þinni píslar þungu tíð; það svo mjer yrði fyr og síð, upphaf til æru-kjara.

3. Pústraður, hræktur, hæddur varst, hvössum þyrni-við krýndur, purpura flík með forsmán barst, falsheiður var þjer sýndur; reyrstaf í hönd þjer lýður ljet, með limsku spotti þig konung hjet; þungliga þú varst píndur.

4. Þvílík var minna synda sekt, sem tíðum niðrað hafði, með glæpum dýrð þíns Föðurs frekt, fordæming lögmál krafði; þú tókst upp á þig þrælsins sök, þau urðu minnar lausnar rök, drómi hvörn dauðans vafði.

5. Gef mjer þinn Anda' að geta nú, greitt þjer þá vegsemd kæru, sem fylgir hlýðni af traustri trú, með tryggða lunderni skæru; og leita þess sóma að líkjast þjer, í lífi og dauða, rjett sem ber, svo eylífa' eg öðlist æru.

## BÆNIN.

Hvernig fæ eg, Drottinn Jesú! goldið þjer verðugar þakkir fyrir alla þá písl og smán, er þú

hlautst að líða fyrir mig á þínum síðustu lífsstundum? Þó allur minn innri maður brynni af heitustu elsku til þín, og girnd til þess, að gjöra þinn vilja, þá væri það að vísu meir enn maklegt, en þó allt of lítið og lakt þakklætis-merki þjer til handa. Ó, þú heilagi Guðs Sonur! sem allir englar og höfuðenglar tigna og tilbiðja, og byrgja fyrir andlit sín af helgri blygðan: ó hvílíka smán hlautst þú að líða mín vegna í húsum höfðingjanna í Jerúsalem! Þjónar höfuðprestanna spottuðu þig, byrgðu þína ásjónu, og pústruðu þig; eins breyttu stríðsmenn Pílatusar við þig; þeir færðu þig í purpuraflík, fengu þjer reyrstaf í hönd fyrir veldissprota, krýndu þig þyrni-kórónu, og hræktu síðan í þitt blessaða andlit. Á líkan hátt hafði Heródes og hirðfólk hans þig að háði.

Allt þetta leiðstu nú, Drottinn minn! fyrir þá skuld, að eg, og aðrir andvaralausir syndarar, höfum svo opt spottað Guð og vanvirt hann með syndum vorum, og höfum því unnið til þess, að verða að eylífu spotti og athlátri í augsýn allra heilagra. Æ, hjálpaðu mjer, Drottinn Jesú! fyrir Anda þinn; hjálpaðu mjer, að eg dragi aldrei framar vísvitandi gis að orðum þínum, hverki með opinberum glæpaverkum nje heimuglegri hræsnis-dýrkan. Gefðu mjer auðmjúkt og hreinskilið hjarta til þinnar dýrkunar. Láttu mig aldrei skammast mín fyrir þig nje þín orð, heldur alleinasta fyrir það líferni til orða og verka, sem þeim er gagnstæðilegt. Veittu mjer að meta það

fyrir minn mesta heiður, að fylgja þjer í fyrirlitningu þinni, bæði með því að viðurkenna þig opinberlega fyrir minn Guð og Endurlausnara, þó þú sjert fyrirlitinn af hinum vantrúuðu; og líka með því að iðka það líferni, sem þínu er líkast, enda þótt heimurinn meti það vetthugis. Eg vil vera ánægður með hver helzt þau kjör, sem þjer þóknast að úthluta mjer í heimi þessum, hvert sem þau svo horfa til heiðurs eður vanheiðurs, ef eg má að eins halda hinum sama heiðri hjá þínum himneska Föður, sem sprottinn er af trúnni og kærleikanum til þín; og hafi svo þess vissa von, að þú munir á síðan hefja mig til eylífrar vegsemdar og dýrðar, ásamt öllum þínum útvöldum. Æ, bænheyrðu mig, þú dýrð- og heiðrikrýndi Jesú! vegna allrar þeirrar vanvirða, er þú hlautst að líða í þinni pínu fyrir mína skuld, svo eg geti heiðrað og lofað þig fyrir það eylífiega! Amen.

V e r s. Þú sem varst hæddur, Herra minn! þá heimurinn smáði guðdóm þinn; eylíf svo græddist æra mín, útaf háðung og píslum þín; forsmán syndanna' að forða mjer, Frelsari minn! eg treysti þjer, dag og nótt meðan dvelst eg hjer!

## FIMMTI SÁLMUR.

Lausnari góður! lof sje þjer, fyrir líðingu þína og dæmi; hvörttveggja sem þú hugðir mjer, til hollustunota kæmi. Líðing þín friðar fyrir mig, en fyrirmyndin þín elskulig, sýnir hvað bezt mjer sæmi.

2. Þolinmæði hvað þín var stór, í þinni gjörvallri pínu, sýnir, að eg skal sinnis rór, sjást í andstreymi mínu; kærleik sýndir þeim sýndu þjer — saklausum vestu mótgjörðer; dýrð skín af dæmi þínu.

3. Ó, að eg gæti einsog þú, óvinum greiða leitað; því bezta merki' er breytni sú, að bróðir þinn megi' eg heita. Fæ eg þá njóta frelsis þín, til fullnaðar bóta verkum mín; náð til þess virðstu veita!

4. Eins lát mig vera óhræddan, æru þíns nafns að verja; lát mjer ei daprast dugnað þann, þó drambsamir vilji' á herja; heldur með einurð halda fast, heiðrun þíns kross, þó reyni last, þeirra, sem þig afsverja.

5. Allt til míns dauða lát mitt líf, lífi sameinast þínu, hvört sem eg reyni kæti' eða kíf, kærleik í hjarta mínu, þolgæði og einurð viðhalt vel, svo veitist mjer, eptir liðið hel, eylífð með yndi sínu!

## BÆNIN.

Lofaður vertu, Lausnari minn! fyrir allt það að sönnu, er þú hefur bæði gjört og liðið mín vegna, en þó sjer í lagi fyrir það, hvernig þú hegðaðir þjer í þinni pínu, mjer bæði til fyrirmyndar og frelsis. Þú hegðaðir þjer þolinmóðlega fyrir þínum Föður í grasgarðinum, og fyrir þínum kvölurum í Jerúsalem, svo þú laukst ekki upp munni þínum, heldur enn lamb til slátrunar leitt. Þú

hegðaðir þjer einarðlega í viðurkenningu sannleiksins, bæði fyrir ypparsta-prestinum og hinu mikla ráði, sem og fyrir sjálfum landsdómaranum Pílatusi. Þú hegðaðir þjer kærleikslega við þína fjandmenn, svo þú læknaðir þann, sem Pjetur hjó af eyrað, og ljezt það vera þitt fyrsta orð á krossinum, að biðja þínum kvölurum vægðar hjá þínum himneska Föður. Æ, gefðu mjer að geta fetað í þessi þín fótspor, svo eg beri það nafn með rjettu, að heita þinn lærisveinn og sporgöngumaður. Veittu mjer að bera það allt með þolinmæði, er Guð eður menn kunna að leggja á mig í heimi þessum, svo eg falli aldrei í víl eður örvæntingu; en láttu mig samt jafnan vera ókvíðinn og einurðargóðan í viðurkenningu sannleikans og vernd hans allt til dauðans, hversu sem hann, eður eg hans vegna, kynni að verða hataður eður ofsóktur. Já, láttu mig aldrei hatast við þá, sem gjöra mjer rangt til, heldur biðja af hjarta um betrun þeirra og sáluhjálp, og styðja af allri alúð að þeirra tímanlegu og eilífu velferð. Æ, Drottinn Jesú! láttu þinn helga Anda innræta þetta hugarfar sálu minni, svo sem eitthvert hið órækasta merki þess, að í mjer búi lifandi trú á þig og þína friðþægjandi pínu og dauða; og láttu mig síðan öðlast endalok þessarar trúar — hið eilífa sælufulla lífið — þar sem þolinmæðin mun krýnast, sannleikurinn sigri hrósa, og kærleikurinn drottna, meðal allra þinna útvaldra að eilífu. Æ, bænheyrðu mig vegna þinnar heilögu þolinmæði, þú sannleiksins og kær-

leikans himneski Konungur! svo eg geti vegsamað þig, með öllum útvöldum, um aldir alda! Amen.

Vers. Það er undirrót þess fögnuðs, þolinmóðasta lambið Guðs! sem eg í vænd um eylífð á, að þú varst píndur mönnum hjá; kærleikur brann í brjósti þjer, blessaður vildir hjálpa mjer; gef eg þín fótspor feti hjer!

## SJÖTTI SÁLMUR.

Þúsundfalt stærri þakkargjörð, þjer, Jesú! greiða bæri, af þinna leysingja þjóð á jörð, enn þá sem eg vesæll færi. Æ, eg vil samt það greiða' eg get, greiðslu mína í náð þú met! rjett sem hún velgreidd væri.

2. Ómælanlig var elska þín, alla þá kvöl að líða, viljugur sem leiðst vegna mín, svo veittist mjer náðin fríða; fjötraður, laminn, flengdur varst, fljettaða af þyrnum krónu barst, á krossinn keyrður síðan.

3. Eg hafði sjálfur unnið til, að eylífu verða píndur, í dauða straffsins djúpum hyl, dóm slíkan lög þín sýndu; en, Herra! þú söktir sjálfum þjer, sárheitan í þann písla hver; aldrei svo yrði' eg týndur.

4. Ó, að eg gæti elskað þig, sem einkenni er þinna sauða; og að mín elska sýndi sin, í sæld bæði' og kjörum nauða! Æ, að eg galdar girndir mín, geti með písla minning þín — dempað, allt til míns dauða.

5. Hugbraustur get eg hlakkað þá, hjeðan — til

farar minnar; mun eg, Jesú! þig sjálfan sjá, í sælu dýrðar þinnar; fæ eg þar reynt hvað frelsan þín, til friðþægingar sálu mín, gjört hefir gott ávinna.

## BÆNIN.

Þúsundfalt meira þakklæti og lofgjörð átt þú skilið, minn astkæri Frelsari Jesú Kristi! fyrir alla þá friðþægjandi písl, er þú hefur liðið fyrir mig og alla Adams niðja, heldur enn eg vesæll og volaður syndari get látið í tje. Ó, hversu ómælanleg var þín elska, sem kom þjer til þess, að gefa þig með fúsum vilja útí kvaldómsfyllstu kvalir, sem óvinir þínir löggðu á þig! Þú ljezt fjötra þig sem friðarspilli, pústra þig sem lastaþræl, krýna þig þyrnum sem kongdóms-spottara, húðstrýkja þig sem versta íllvirkja, og krossfesta þig sem mesta óbótamann. Æ, þetta leiðstu allt, góði Jesú! fyrir mína skuld. Eg hafði selt mig til að vera þræl syndarinnar, og ljeð alla mína limu ranglætinu til verkfæra; þessvegna hlautst þú að þjást á öllum þínum líkams-limum. Eg hafði sem annar landráðamaður, gjört uppreist gegn konungi himins og jarðar, og unnið til eylífrar drottinssvika refsingar með djöflinum og öllum hans árum; en þú tókst fyrir mig einn við allri refsingunni, svo eg yrði frelsaður, fyrst frá ánauð syndarinnar hjer í lífi, og síðan frá hegningu hennar annars heims. Æ, gefðu mjer þína guðdómlegu náð til þess, svo sem til lítilfjörlegs þakklætis- og elsku-merkis við þig fyrir þessa þína miklu velgjörð, að gjöra hið sama við minn gamla mann,

og girndir míns holds sem óvinir þínir gjörðu við þig. Gefðu mjer að geta laggt fjötur á mínar vondu geðshræringar; að kúga vilja minn til að þjóna þínum vilja; að kefja niður hjá mjer alla drambssemi og sjálfsþótta; að særa mína sofandi samvizku með svipum þíns lögmáls, og að krossfesta mitt hold með þess gyrndum og tilhneigingum. Já, gefðu mjer að geta látið þessa trúar-ávexti æ betur og betur í ljósi svo eg verði ávalt líkari þinni mynd, unz eg verð algjörlega leystur frá allri syndarinnar áþján- og ánauðar-oki, og fæ að ríkja hjá þjer í þinni dýrð að eylífu. Æ, bænheyrðu mig, ó Jesú! vegna þinna fjötra, pústra, húðstroku og krossfestingar; já, vegna alls þess, sem þú hefur liðið mín vegna, svo eg geti lofað þig og vegsamað um alla eylífð! Amen

Vers. Lifandi Jesú! lof sje þjer! lífgjöf fyrir, sem veittir mjer, með húðstroku þinni, krýning, kross, kvölum dauðans og benja foss, hrína láttu það allt mjer á; öruggur stríða mun eg þá; en loks á himni friðland fá!

## SJÖUNDI SÁLMUR.

Ó! að eg hefði Engla mál, elsku vegsama þína, Jesú! er ljezt þitt líf og sál, lausnar til meðals pína; fórn Guði slíka færðir þá, er forlíka veröld alla má, eins þar með öndu mína.

2. Svo mögnuð syndin engin er, að kunni mjer að granda, trúar augum ef til þín hjer, tárugum lypti' í anda; eignandi mjer þitt offur-blóð, út

sem helltir til lausnar þjóð; sú von má stöðug standa.

3. Hefir nú lögmáls hótan stríð, hitt þig fyrir oss alla; þinn dauði er orðinn lífgjöf lýð; lífið mun þeim tilfalla, sem elska þig og trúa' á traust, tryggð þjer vottandi hræsnis-laust, en forðast glæpa galla.

4. Dauði þinn, Jesú! deyði í mjer, dauðann, er sálu grandar; í lifandi trú svo lifi' eg þjer, lífs meðan dreg eg anda; óttast eg þá ei afgang minn, opnað fyrir mjer loksins finn, sæluport lífsins landa.

5. Eylíft Sabbath í engla borg, eg mun þá glaður halda, nær horfin er burtu synd og sorg, er sælan veitt þúsundfalda. Dagur sá renni dýr sem fyrst, að dýrkað fái' eg þig, Jesú Krist! já, dýrkað um aldir alda.

## BÆNIN.

Ó, að eg hefði engla-hjarta og engla-tungu til að þakka þjer minn ljúfi Lausnari! fyrir þinn blóðuga fórnfæringar dauða, sem þú leiðst fyrir mig á fjallinu Golgatha. Þar frambarst þú með sjálfum þjer þá friðþægingar fórn, sem einsömul nægir til eylífrar friðþægingar fyrir alla. Til þessarar einu fórnar miðuðu allar fornir gamla Testamentisins, af henni höfðu þær alt sitt gildi; og þessi eina blessaða fórnin líkaði þínum himneska Föður svo vel, að hann krefst nú engrar annarar fórnar framar fyrir syndir heimsins; svo að hver og einn sá maður fær vissulega fyrirgefningu allra sinna synda,

— enda þótt hann hefði verið hinn mesti og þrálátasti syndari — sem framber þessa fórn fyrir Guðs heilaga auglyt, með sannri yðrun, og lifandi trú, og samfarandi einlægri lífernis betran. Með þínum dauða hefur þú, ó Jesú! goldir fullnustu Guðs lögmáls-hótan um dauðan, svo sem verðlaun syndarinnar, svo nú er ekkert framar fyrirdæmanlegt á þeim sem eru þjer sameinaðir fyrir trúna. Já, dauði þinn sýndi sig ekki að eins kröptugan í því, að aptra afbrotunum, innsigla syndirnar, og friðþægja fyrir misgjörninginn, heldur og einnig í því, að afreka eylíft rjettlæti. Því eins og syndinn ríkti til dauðans, fyrir Adams ranglætis skuld, svo skal og náðinn ríkja fyrir þitt rjettlæti, ó Jesú! til eylífs lífs.

Ó, hvað kærleiki þinn var sterkur, Drottinn minn og Guð minn! já, sterkari enn dauðinn, þar eð þú færðist ekki undan að deyja í minn og annara stað, sem vorum þó allir eptir voru spilllta eðli þínir óvinir.

Æ, hvernig fæ eg þá, minn ljúfi Lausnari! innt þjer nokkurt verðugt þakklætis-merki aptur á móti fyrir þessa þína óviðjafnanlegu elsku? Eg get það með engu öðru móti fremur enn því, að eg kosti alls kapps um, meðan eg lifi, að deyja frá syndunum, en lifa rjettlætinu. Æ, láttu þá krapt þíns dauða verka þetta hjá mjer fyrir fulltyngi Anda þíns, þareð eg hefi annars engin not af dauða þínum, og hlýt allt eins að deyja fyrir það í syndum mínum, þótt þú hafir áður dáið fyrir þær.

En þegar þú gefur mjer að geta framkvæmt þetta, má eg hlakka til dauða míns, svo sem til annarar stór-hátíðar, því þá verður dauðinn mjer sáluhjálplegur inngangur til himneskrar sælu, þar sem eg, og allir þínir heilögu englar og útvaldir, fá að halda gleðilegt dýrðar-sabbat í þínu ríki eylíflega. Æ, bænheyrðu mig um þetta, Drottinn Jesú! og og láttu þennan blessaða dag renna upp sem fyrst, svo eg fái að sjá þig í þinni dýrð, og dýrka þig þar og þakka þjer eylíflega fyrir þinn friðþægjandi fórnardauða! Amen.

V e r s. Fyrir þitt dýra fórnar blóð, til frelsis allri sem ljeztu þjóð — úthellt, Jesú! eg inni þjer — auðmjúkar þakkir; veittu mjer, að dauði þinn verki velferð mín, svo verði' eg í lífsins sal til þín — hafinn, hvar eylíf dýrð ei dvín!

---

## Sjötti flokkur.

# Sálmar
út af
## Sjö Orðum Krists á krossinum.

Allir með laginu: Jesú! þín minning mjög sæt er.

### FYRSTI SÁLMUR.

Ypparsti Prestur, ó Jesú! á krossinum nær píndist þú, óvinum sýndir elsku og trú; aðdáanlig var náðin sú!

2. Dýrustu fórn þú frambarst þar, fórn sú þitt blóð og dauði var; offraðir tárum auðmýktar öllum heimi til blessunar.

3. Fyrir þeim baðst, er þjáðu þig, þín aðferð, Jesú! huggar mig; veit eg að ást þín innilig, aldrei því getur dulið sig.

4. Gef þú að dæmi dýrast þitt, dragi svo til sín hjartað mitt, góðfús að öðrum gefi kvitt gljúpir sem brotið þekkja sitt!

5. Flý eg vesæll að fótum þín, Frelsari góður! lít til mín, ángraðri minni sálu sýn, svoddan miskun, er aldrei dvín!

6. Bið þú þinn Föður fyrir mjer, fullviss er eg hann gegnir þjer; verðkaup þíns dauða eylíft er, öllum til góðs það nota sjer.

7. Ef mjer þín veitist gæzkan greið, gjöri' eg þá engri kvíða neið; æfinnar þreyti áfram skeið, óhræddur bæði í lífi' og deyð.

## ANNAR SÁLMUR.

Móður þína, sem minntist á, mædd er stóð þínum krossi hjá, og henni gjörðir forsvar fá, þó framar ei kynni þig að sjá.

2. Láttu mig forsvar finna þitt, Frelsari kær! þá lífið mitt, verður af dauða stormi stytt, stórsyndugum ei frá þjer hrytt!

3. Aðstoð þegar að enginn mann, í andláti mínu veita kann, leiddu mig þá í lífsins rann; sem líf þitt og dauði mjer ávann!

4. Fyrir dómi þíns Föðurs þá, forsvar mitt taktu

þig uppá; svo mun ei lögmáls svipan slá, sekann mig hönum burtu frá.

5. Ei bið eg þessa einum mjer; öllum það sama veittu hjer! Miskun þín ekki' í manngrein fer; um mannkynið gjörvallt annt er þjer.

6. Gjör við líkamann það sem þú, þekkir mjer hollast vera nú, fyrir minn anda; óskin sú—allrabezt svarar minni trú.

7. Fel eg mig svo þitt forsvar í, Frelsarinn Jesú! sorga frí; þó yfir mig dragist dauda ský, dapur eg ekk kvíði því.

## ÞRIÐJI SÁLMUR

Þú sem ræningans yðrun á, og hans bæn vildir heyra og sjá, seint þó hún kæmi sekum frá, söm var þjer, Jesú! náðin hjá.

2. Þegar yðranin er svo hrein, einsog þú vilt á hvörja grein, aldrei hún verður um of sein, öll getur sefað hjartans mein.

3. Samt þessu trausti engann í, undan láta draga betrun því — forherðing þaraf flýtur ný, þá fyrir oss glepja dauðans ský.

4. Vek til yðrunar seka sál, sjerhvörja þá, er glæpa tál, dregur á skrefin heljar hál; svo hrapi ei neinn í Vítis bál.

5. Ó Jesú! láttu Anda þinn uppvekja dofinn þanka minn, að eg húgleiði sjerhvört sinn, að sje mjer nálægur dómurinn.

6. Þegar eg hrópa í hryggð til þín, hlaðinn af

synda megnri pín; Drottinn Jesú! þá minnstu mín, af meðaumkun þinni vægð mjer sýn.

7. Í þínu ríki unn þú mier, að eylífu hjá að lifa þjer; með þeirri von eg feginn fer, frá þessum heimi, líf nær þver.

## FJÓRÐI SÁLMUR

Yfirgefðu mig, ó Jesú! aldrei fyrst soddan reindir þú — af þínum Föður; auk mjer trú, ásjónu þinni til mín snú.

2. Yfirgefa lát ekki mig, af uggaleisi sjálfan þig; hald mjer á rjettum himna stig, hjer þó sje freisting ýmislig.

3. Viljirðu reina trúartraust, til þín hvört stendur efalaust; þína láttu mig þekkja raust þaraf gjörist mín vonin hraust.

4. Í stormi freistinga styrk mjer veit, stoðaðu mig, svo bænin heit, haldi sjer fast í hjartans reit; hjálpin þá kemur víst í leit.

5. Alla menn sem í angurs pín, ó Herra Jesú! leita þín, endurnær þá og svöluu sýn, sólin þegar að loksins skín.

6. Öllum deyendum auktu trú, efasemd burtu frá þeim snú; í þínu ríki byggð þeim bú; bregðist ei nokkrum vonin sú.

7. þinni láttu oss þreifa á náð, þegar að dauðastundin bráð, yfir oss kemur; drýgi dáð, Drottinn Jesú þitt hjálpar ráð.

## FIMMTI SÁLMUR.

Nær eg hugleiði þorsta þann, þig sem á krossi plága vann, Herra Jesú; mitt hjarta kann, hryggjast og gleðjast jafnt við hann.

2. Hryggð eykur hjarta mínu það, hvörsu sárheitt það písla bað, var, sem eg hafði verðsuldað, væri' ei pína þín í minn stað.

3. Aldrei hefði' eg um eilífð, þá einn svaladropa kunnað fá, heldur mátt reina þorsta þrá, þvílíka, sem þú kendir á.

4. Huggan sú aptur hressir mig, að hef eg í vændum fyrir þig, eylífðar gæði ymislig, eptir þessa heims mæðu-stig.

5, Æ að mig þyrsti eptir þjer, allar stundir í heimi hjer; sannviss þá yrði svölun mjer, í sælunnar stað, hvar dýrðin er..

6. Velgja lát mig við vamma drykk, sem veraldar sona býður skikk; mjer burt úr þeirra möskvum rykk, mínum anda þinn vilja' innþrykk.

7. Þá skal mjer alltíð súrt og sætt, er sendir þú, vera jafndýrmætt, allt mun því verða bölið bætt, í borg útvaldra, þá líf er hætt.

## SJÖTTI SÁLNUR.

Fullkominn er nú frelsan góð fyrir þitt, Jesú! verkuð blóð; ó að þess nyti öll heims þjóð, engann svo vítis hremdi glóð.

2. Gef oss þinn Anda' að gæta að því, að getur einginn þeim kjörum í, hlutdeild eylífa fengið frí, fyrst nema hann verði skepna ný.

3. Sáttmáli náðar sá var hjer, af sjálfum staðfestur, Jesú! þjer: að yðran og trú ef undanfer, eylíf þá sæla búinn er.

4. Fullkomið er þitt frelsisráð, fullkomna það oss veitir náð, ef vjer svo fáum það rjett þáð, að það geti vora synd afmáð.

5. Frá þinni síðu er fullkomnað, hvað Föður þíns lögmál hátt á hvað, en Evangelíum eptir það, áskildi trú í verka stað.

6. Vanti nú hana og viljann með, að veita þjer hlýðni og þakklátt geð, fullkomnan þó sje fyrir oss skjeð fær hún sámt ekki lífið tjeð.

7. Fullkomni Kongur friðar þú, fullkomna veit mjer á þig trú, lóksins rjettlæti svo mig sú, þó síst geti eg lögmál uppfyllt nú!

## SJÖUNDI SÁLMUR

Frelsari! sem í Föðurs hönd, fólst í dauðanum þína önd, sundurslíttu mín synda-bönd, svo mig ei dauðans bremmi grönd!

2. Öndu mína þjer einum fel, yfir nær geisar dauðans jel; henni svo loks mun vegna vel; velkomið þá sem líf er hel.

3. Dauðann með dauða deyddann fjekkst, dóminn lögmáls nær undirgjekkst, og kvalinn á þínum krossi hjekkst; kvitt er því synd, ef yðran tekst.

4. Undir þinn kross eg feginn flý, fram þegar brjótast dauðans ský; þar mun mjer dæmast náðin ný, af nauðum öllum svo verð eg frí.

5. Blossar Guðs reiði bugast þar, og bannfæríng-

lögmáls hótunar Djöfullinn fær þá drjúft afsvar; dauðinn sjer ekki megnar par.

6. Komi því dauðans kalda nótt, komi hún, ef þjer geðjast fljótt; verður mjer eflaust vært og rótt, ef veitir þú sálu trúar-þrótt.

7. Breiddu þá faðminn móti mjer, mildasti Jesú! treysti eg þjer; mig fyrir sálar voða ver, veröld þegar eg kveðja fer!

---

# Bænir

útaf framanskrifuðum sjö sálmum.

## FYRSTA BÆN.

Ó, þú eylífi endurlausnari, Dróttinn Jesú! hversu aðdáanleg var elska sú og tryggð, er þú auðsýndir óvinum þínum, þegar þú píndist á krossinum á Golgatha. Sem ypparsti prestur frambarst þú þar hina allra dýrmætustu fórn fyrir þeirra og alls heimsins syndir; og þessi blessaða fórn var fólgin í úthellingu þíns helga blóðs; já í allri þinni bitru pínu og beiska dauða. Þú fórnaðir líka opt í lífi þínu öflugu kalli og táraföllum fyrir þínum himneska Föður, til eylífrar blessunar öllu syndugu mannkyni; þar að auki baðst þú sjer í lagi fyrir þeim sem kvöldu þig; og þessi þín breitni, ó Jesú! er mjer til mestu huggunar; því vegna þess er eg nú fullviss um að þín guðlega elska getur aldrei synjað neinum þeim náðar, sem leita hennar rjettilega,

þar eð þú baðst um náð fyrir þá, sem ekki leituðu hennar að fyrra bragði. Æ, láttu þetta þitt dyggðadæmi hafa þá verkun á hjarta mitt, að eg fyrirgefi þeim öllum fúslega sem brjóta mjer á móti, en þeim þó allra helzt, er bljúgir játa ávirðingar sínar. Nú flý eg — svo vesæll sem eg er — í anda að fótum þínum, minn ástríki Endurlausnari! Æ, virðstu að líta til mín í náð, og auðsýna minni angurbitnu sálu þá miskun, sem varir eylíflega! Æ, bið þú þinn himneska föður fyrir mjer óverðugum; eg er þess fullviss, að hann heyrir þína fyrirbón, því verðkaup þíns fórnardauða, sem þú leiðst mín vegna, hefur óendanlegt og eylíft gildi; og þess njóta þeir allir, sem færa sjer það rjettilega í nit, með sannri og lifandi trú á þig. — Ef eg verð nú sem mig vonar, bænheyrður um þetta af gæzku þinni góði Jesú! þarf eg öldungis ekki að kvíða framar nokkurri neyð, heldur get eg þá skundað áfram skeið mitt í voninni og trúnni, þar eð eg er þá alls óhræddur fyrir öllu íllu, bæði í lífi og dauða. Æ, bænheyrðu mig því um þetta. minn blessaði Meðalgangari! vegna allrar þinnar heilögu verðskuldunar! Amen.

## ÖNNUR BÆN.

Ó, þú ástúðlegasti Frelsari! þú, sem hjekkst blóði strokinn og benjum þakinn á krossinum, en mundir þó til móður þinnar, er stóð undir hönum angur — þrungin, og ánafnaðir henni jarðneskan aðstoðarmann í þinn stað, af því hún gat þá ekki

lengur fengið að sjá þig eður vera hjá þjer, á líkamlegan hátt í heimi þessum; æ, láttu mig einnig finna aðstoð og athvarf hjá þjer. þegar hreggviðri dauðans brjóta loks niður þetta mitt veika líkams hreisi; vísaðu mjer þá ekki frá þjer verndarlausum, þó eg sje stórsyndugur fyrir þínu heilaga augliti. Og þegar enginn maður megnar að bjarga mjer í andláti mínu, hvað feginn sem hann vildi, svo eg hlít að yfirgefa heim þenna hælis - og hjálparlaust: æ, leiddu mig þá, fyrir orð þitt og anda, í eylífa dýrðar-bústaði á himnum, sem þú hefur keypt mjer til handa, með líti þ nu, líðan og dauða. Já, þegar eg kem svo loks fyrir dómstól þíns himneska Föðurs, æ, taktu þar þá málstað minn, og verðu mig, sekan syndara; þá mun Faðir þinn himneskur ekki hrekja mig, með svipu sins lögmáls, í burtu frá sínu heilaga augliti að eylífu, þó eg hafi þúsundsinnum unnið til þess. Um þetta bið eg þig nú, Drottinn minn ekki einungis sjálfs mím vegna, heldur vegna allra minna samsyndara; því þar eð þú hefur endurleyst alla jafnt, og eg veit, að þú ferð ekki í manngreinar-álit, þá villt þú vissulega, að alllr menn verði sáluhólpnir, og komist til viðurkenníngar sannleiksins. — En hvað líkama minn áhrærir, og hagi hans, þá bið eg þig þess að eins, að þú gjörir það við hann, sem þú sjerð sálu minni hollast, hvert sem það er meðlæti, eða mótlæti, líf eður dauði; því sú bæn er samkvæmust þeirri reglu sem þú hefur kennt mjer að trúa og biðja eptir. Svo fel eg mig þá ókvíðinn, ó Jesú! í þitt

verndar-skuut meðan eg lifi, og þarf ekki heldur að kvíða mjer þótt eg deyi; ef eg að eins mætti deyja í lifandi trú á þig í sannri von og hreinum kærleika. Ó, veittu mjer Drottinn Jesú! og öllum oss, fyrir náðarfulltyngi Anda þíns! Amen.

## ÞRIÐJA BÆN.

Ó, minn Jesú! þú, sem gafst gaum að yðrun og bæn hins angurbitna ræningja; þó hún kæmi seint fram hjá þessari dauðaseku mannskepnu, þá var náð þín jöfn við hann allt fyrir það. — Af þessu eina dæmi sje eg það því, að sje **yðranin** annars að öllu leyti jafn hrein og einlæg, sem þú hefur áskilið í orði þínu, verður hún aldrei fyrirlitin af þjer, þótt hún láti sig seint í ljósi; heldur er hún jafn kraptmikil til þess að friða samvizkuna, og veita oss inngöngu í eilíft líf þótt hún láti sig seint í ljósi. Ó, varðveittu oss samt frá því, Drottinn! að draga í þessu trausti undan yðrun vora, því það gjörði ekki ræninginn; því forherðing þeirra, sem gjöra það, verður þá, við aðkomu dauðans, miklu meiri heldur enn forherðing ræningjans var, og yðrun þeirra þess vegna langtum torveldari. Æ, vektu því, ó Jesú! með orði þínu, sjerhverja þá sálu til sannrar yðrunar, er sefur ugglaus í syndunum, og anar áfram samvizkulaust á vegi glæpanna, svo — ef ske mætti — að enginn þeirra fyrirfarist eylíflega. Æ, minn góði Jesú! láttu einnig Anda þinn vekja í tíma mína sofandi samvizku til sannrar yðrunar, og gefðu mjer að

geta haft það sífelt fyrir sálarsjónum, hve nálægur að dauði og dómur kunna að vera mjer, svo eg sje á hverri stundu míns lífs vel undirbúinn, hvenær sem kallið kemur. En þegar eg þá hefi vaknað til einlægrar yðrunar, og hryggist alvarlega út af syndum mínum, og þungi þeirra liggur sem sárast á samvizku minni, svo eg æpi til þín hástöfum um náð og fyrirgefningu: æ, minnstu mín þá, Drottinn minn! eins og hins yðrandi ræningjans; kenndu þá í brjóst um mig, og vertu mjer náðugur og miskunsamur! Unn mjer síðan, þegar eg er skilinn við þetta líf, að vera hjá þjer eylíflega, í þínu dýrðarríki á himnum! þegar þú fyllir nú hjarta mitt þessari von og vissu, get eg farið með friði og fögnuði burt úr heimi þessum, því eg veit þá, að augu mín fá að sjá þitt hjálpræði eylíflega. Æ, veittu mjer, ó Jesú! þessa mína bæn, og láttu þessa trú mína og von rætast, eptir þínum náðar-fyrirheitum! Amen.

## FJÓRÐA BÆN.

Ó, minn Jesú! þú, sem reyndir það á krossinum, að vera yfirgefinn af þínum himneska Föður; láttu mig aldrei þurfa að reyna hið sama af sjálfum þjer til; þú getur því nærri, hve sárt það sje, að verða að sjá þjer á bak, þegar eg leita þín í hörmungunum. Auk mjer þess vegna sanna og lifandi trú á þig, og snúðu til mín þínu blíða og blessaða náðar-augliti, bæði í lífi og í dauða! En láttu mig heldur aldrei sjálfan yfirgefa þig í yðrunarleysi,

því það er vissasti vegur til eylífrar glötunar. Æ, greið miklu fremur fætur mínar á hinn rjetta friðarveg til himnaríkis, enda þótt margskyns freistingar vilji tæla mig í heimi þessum. Ef þjer þóknast, Drottinn! að reyna það á einhvern hátt, hve staðföst og óhvikul trú mín sje á þjer, æ, þá láttu mig samt, mitt í þessari reynslu, þekkja þína náðarraustu í orðinu, því þá mun von mín og trú á þig verða öflg og óbilandi. Já, þegar eg ætla ekki að geta staðizt gegn ofurmegni freistinganna, æ, hjálpaðu mjer þá til þess, að missa ekki krapt bænarinnar, heldur láttu hana þá vera hvað rótgrónasta hjarta mínu, því þá mun hjálpin frá þjer vissulega koma á hagkvæmasta tíma. Æ, líttu ljúfi Lausnari! í náð til allra þeirra, sem leita þinnar miskunar með sannri yðran synda sinna; endurnærðu þá, og svalaðu sálum þeirra, eptir það myrkur hörmunganna eru afstaðin, en sól þinnar náðar tekur að breiða út að nýju sína blessuðu geisla; álíka og kom fram við þig í pínu þinni! Efl þú lifandi trú hjá þeim öllum, sem liggja fyrir dauðans dyrum, og láttu ekki ofmikla efasemi hertaka sálu þeirra; veittu þeim síðan eylífa vistarveru í þínu dýrðar-ríki á himnum; æ, láttu ekki þessa von bregðast neinum þeim, sem byggja hana á þínum evangelisku náðar-fyrirheitum. Ó, láttu oss alla rjett þreifa á þinni náð, en þó einkum á vorri dauðastundu; láttu oss þá, ó Jesú! þitt dýrmæta endurlausnarverk verða lífatkeri sálar vorrar! Þá tortýnumst vjer aldrei, hversu

háreistir sem brimboðar dauðans kunna að verða. Æ, opna þú þín miskunar-eyru fyrir þessari vorri hjartans grátheiðni, og láttu hana öðlast náðugt já og amen, í þínu blessaða nafni! Amen.

## FIMMTA BÆN.

Drottinn Jesú! þegar eg hugsa um þann sára þorsta, er kvaldi þig á krossinum, þá getur sú tilhugsan jafnmikið hryggt hjarta mitt, sem glatt það, sem hryggt. það mætti vissulega auka hjarta mínu mestu hryggðar, þegar eg hugleiði, hve óbærileg sú písl hefði orðið, sem eg annars hefði orðið að líða, eptir dómi þíns rjettlætis. Eg hefði þá aldrei að eylífu fengið að smakka nokkura svölunardropa, heldur hlotið að pínast endalaugt af þeim brennandi þorsta, sem mæddi hjer um stundarsakir þína blessuðu tungu. En — þegar eg hugsa aptur á móti til þess, að þú leiðst þessa þína pínu, sem og allt annað, fyrir mína skuld, þá hughreystir sú von mig, að eg á fyrir þína skuld í vændum, eptir þetta líf liðið, ekki að eins að frelsast algjörlega frá öllum kvala-þorsta, heldnr að drykkjast af unaðar-straumum þíns dýrðar-húss eylífiega. En þess óska eg mjer af hjarta, Drottinn minn! að mig gæti alla mína tíma þyrst rjettilega eptir þjer, og þinni náð, því þá mætti eg vera öldúngis fullviss um, að sá minn þorsti fengi að lyktum fullkomnustu svölun, í dýrdlegum sælu-bústöðum allra útvaldra. En þessi þorsti eptir þjer getur ekki verið sannarlegur, nema mig taki áður alvar-

lega að velgja við ádrykkju heimsins barna, sem full er af banvænu eytri allskyns lasta; æ, láttu mig þessa vegna ekki ínetjast þeirra tælingum, heldur slíta þeirra bönd af mjer, svo þau haldi mjer ekki föngnum; en innræt anda mínum þinn guðdómsvilja, svo eg hafi hann æ fyrir augum. Ef eg öðlast nú slíkt sinnislag, þá munu allar þínar ráðstafanir verða mjer jafn-geðfeldar og dýrmætar, hvert sem holdi og blóði finnast þær súrar eður sætar; því þá er eg sannfærður um, að allt lífsins böl, hvert sem það heldur er andlegt eður líkamlegt, verður mjer bætt að fullu eptir dauðann, í enni himnesku Jerúsalem, þar sem enga synd, nje sorg, nje dauða er framar að finna. Æ, bænheyrðu mig um þetta, blessaði Jesú! vegna þinnar dýrðar og dyggðar! Amen.

## SJÖTTA BÆN.

Þú lýstir því ljóslega á krossinum, minn ljúfi Lausnari! að öllum heimi sje afrekað fullkomið frelsi fyrir þína bitru pínu og blóðuga dauða. Ó, að það gæti rætst á oss öllum! já, að allar heimsins þjóðir, allir Adams niðjar, gætu notið þess. svo engum þeirra þyrfti, jafnt eptir sem áður, að verða varpað í eylífar píslir vegna synda sinna. En af því nú að þetta blessaða frelsi getur ekki fengist fortakslaust, æ, þá gefðu oss, Drottinn! Anda þinn til þess að gæta rjettilega að því, að eptir eðli þins náðarsáttmála getur enginn sá notið þeirrar farsældar, sem þú hefur afrekað heiminum með

þinni pínu og dauða, nema hann endurfæðist í anda síns hugskots, og gjörist nýr maður; því það er inntak og undirstaða þess sáttmála, sem þú, ó Jesú! samdir sjálfur og staðfestir millum vor og þíns himneska Föðurs: að ef sönn yðrun fyrir syndirnar, og lifandi trú á þína friðþægingu, gengur á undan í lífi þessu, þá er oss, enn ella ekki, heitið eylífri sælu annars heims. Þó því frelsi það sje í sjálfu sjer alfullkomið, sem þú hefur veitt oss, góði Jesú! og fullkomin náð sje oss framboðin af hendi þíns Föðurs: þá ríðnr samt allt á því, að vjer meðtökum þessa þína fullnægjugjörð rjettilega, ef hún á að koma oss að haldi, og geta afplánað syndasekt vora. Já, það er með öllu efalaust, að þú hefur, Drottinn Jesú! vor vegna uppfyllt allt Guðs lögmál, og fullnægt þess kröfum, þar eð oss var orðið það öldungis ómögulegt, eptir það vjer vorum orðnir spilltir af syndinni; en þinn heilagi náðarboðskapur heimtar þá af oss í þess stað lifandi trú á þig og þína friðþægingu. Æ, vanti oss þessa sáluhjálplegu trú, vanti oss hreinskilin vilja og viðleitni að hlýðnast þjer eptir vorum veika mætti: ó, þá getur ekki þessi þín blessaða fullnægjugjörð gagnað oss til eylífs lífs. Ó, þú alfullkomni Konungur og eylífi Friðarhöfðingi, Drottinn Jesú! æ, veittu mjer og öllum oss þá trú í vor hjörtu, sem sje sönn og fullgild fyrir þínum himneska Föður, svo hún verði mjer til rjettlætis reiknuð, þó eg hafi ekki getað, nje geti, á nokkurn hátt fullnægt Guðs helga lögmáli. Æ, veittu mjer og

öllum oss þessa vora bæn, vor blessaði Borgunarmaður! þú, sem ert Drottinn, vort rjettlæti. Amen.

## SJÖUNDA BÆN,

Ó, minn Frelsari! sem fólst í dauðanum sálu þína í hendur þínum himneska Föður; æ, slíttu af sálu minni fjötur syndanna, svo hinn annar dauði fái aldrei vald yfir mjer, þótt eg hljóti, sem annað Adams barn, að deyja hinum náttúrlega dauða! Eg vil, minn góði Jesú! fela á þitt miskunarvald öndu mína í dauðanum, eins og þinn trúi píslarvottur, Stefánus, gjörði, því þú hefur endurkeypt hana með þínum dauða, og eg er þess fullviss, að hversu ógurlegar sem aðfarir dauðans kunna að verða, muni henni samt vegna vel að eylífu; og þá er dauðinn mjer allt eins velkominn eins og lífið; því lifi eg, þá ert þú, Jesú! mitt líf; en deyi eg, þá verður dauðinn minn ábati. Þú vannst sigur yfir dauðanum með dauða þínum, Drottinn minn! þegar þú ljezt þann lögmálsins dóm ganga yfir þig á krossinum: bölfaður sje hver, sem á trje hangir! Fyrir það er því syndin afplánuð, ef vjer gjörum jafn heita yðrun fyrir hana, eins og orð þitt áskilur. Þess vegna vil eg nú feginn flýja í krossskjól þitt, ó Jesú! þegar dauðans hreggviðri dragast yfir sálu mína, þar eð eg er þess fullviss, að mjer muni þá verða dæmd til handa eylíf náðargæði fyrir sanna yðrun og lifandi trú á þig; og þá geta engar sálar hörmungar framar unnið mjer nokkurt mein. Blossi Guðs reiði, sem

brennur allt til neðstu stöðva yfir öllum yðrunarlausum, slokknar þá algjörlega, og bannfæring lögmálsins, sem þú hefur borið, Frelsari minn! verður þá að alls engu; Djöfullinn, sem áklagar mig, og rjett sem heimtar mig út sem eign sína, eptir rjetti lögmálsins, sem eg hefi svo hræðilega brotið, hann fær þá fullkomið afsvar, og hefur engan rjett til mín framar, þar eð eg hefi með trúnni tekið að mjer þitt rjettlæti; og dauðinn, sem þú hefur svelgt í sigur, orkar þá alls engu. Komi þá dauðans myrkur yfir mig, já, komi þau skjótlega, ef þú svo villt, Drottinn Jesú! mín sálar-værð og samvizku-ró þarf samt ekkert að raskast fyrir það, ef þú að eins veitir mjer þá lifandi trúar-styrkleika á þinni blesauðu friðþægingu. Æ, breiddu þá þinn blessaða blóðfaðm, góði Jesú! móti mjer, einkum á minni andláts-stundu! Eg set allt mitt traust á þig einan! Vernda þú mig frá þeim voða, sem grandað getur sálu minni, þegar eg hlýt að skilja við þenna heim, svo henni verði eylífiega hólpið á landi lifendra, þegar þetta veika líkams-hreysi hrynur! Æ, heyrðu nú þessa mína bæn, Drottinn minn og Guð minn! og bænheyrðu hana, þjer til dýrðar, en mjer til blessunar! Amen.

---

# Sjö vers

## út af sjö Orðum Krists á krossinum.

Lagið: Allt eins og blómstrið eina.

1. Vers. Jesú! er baðst með blíðu, blessað-

ur fyrir þeim, sem þig, með sinni stríðu, særðu í þessum heim; eins bið þú fyrir öllum, einkum þeim dýrka þig, svo þeir í himna höllum, hreppi kjör yndislig!

2. Vers. Munaðarlausri móður, miskun ei gleymdi þín, Jesú, minn blíði bróðir! bú þú eins sálu mín, forsvar, þá fer hún hjeðan fráskilin glæpa keim, svo hún þig fái sjeðan, sjálfan í betra heim!

3. Vers. Ræningjans sem að seinu, sannri þó, yðrun tókst, Jesú! með orði einu, öndu hans gleði jókst; mig lát í mínum dauða, miskun eins finna og hann, og frían af fári nauða, flytjast í himna rann;

4. Vers. Ó Jesú! yfirgefinn, af þínum Föður varst; á því er enginn efinn, að mínar syndir barst, sálu á sem líkama; sízt yfirgefur þú, nokkurn í nauðum framar, er náð hefur sannri trú!

5. Vers. Þig, Jesú! þyrsti forðum, þínum á krossi mjög; svölun af sannleiks orðum, sem mæltir, hefi jeg; láttu mig þar til þyrsta, að þjóna Guði af tryggð; flytt mig svo hið fyrsta í friðarins sælu byggð!

6. Vers. Fullkomnað forðum sagðir! Frelsari minn! á kross, þegar þú líf útlagðir og leystir af sektum oss; fullkomna yðrun unntu, eg gjöri', af hjartans rót; fullkomna mjer svo muntu, meðdeila synda bót!

7. Vers. Þú fólst í Föðurs hendur, Frelsarinn! sálu þín, úti þá var og enduð, æfinnar mæða' og pín; svo taktu sálu mína, sæll Jesú! þjer í hönd, nær slitnar lífsins lína, leys af mjer synda bönd!

# Viku-kvöld-bænir,

samdar af

sjera **Jóni** sál. **Hjaltalín.**

seinast presti að Breiðabólsstað á Skógarströnd.

---

## SUNNUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Enn þá nálgast vor hvíldar tími, og dauðans bróðir dregst yfir vor augu, minnandi mig á, að dauðans endurminning ætti á hverjum degi vakandi að vera í sinni mínu. Æ! hvað of sjaldan hefi eg það hugleitt; hvað dauf hefir í dag hjá mjer verið dauðans íhugun. Ó! mín sál! þú ódauðlegi hluti minnar tilveru, hversu hefi eg á þessum umliðna degi, eflt þína heill og velferð; og sú hugsan að eg skal eittsinn enda taka, hversu jók hún mjer krapta, til að standa á móti heimsins tælandi girndum, og hvatti mig að yðka dyggðirnar, aðhyllast Guðs náð, en forðast syndina. Æ, Faðir! væg þú mjer þínu brotlega barni, og útsljettu mínar misgjörðir. Sjá þú hversu mitt særða hjarta snýr sjer til þín, sem síns einasta skjóls og athvarfs, og leitar náðar í nafni þíns sonar Jesú. Og svo sem þín blessuð föður-forsjón leiddi mig í dag, og forðaði öllu grandi, svo annist hún mig enn í nótt, og hlífi mjer við háska og meinum. Gæt þú mín, Guð minn! og geym mig sem barn þitt. Eg fel þinni varatekt hús vor og eignir, líf vort og sálir, í vöku og svefni, lífi og dauða. Amen.

## V e r s.

Lagið: Gleð þig guðs sonar brúð.

Sjá, Guð! mín sál og líf, sig felur þinni hlíf; blessa mjer nætur blundinn, blessuð unz morgunstundin, þjóð vekur, þá mig leiði, þín hönd, og veg minn greiði.

## MÁNUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Æ! hvað fljót og framstreymandi er tímabilting þessarar veraldar. En þá er ljós dagsins liðið frá vorum sjónum, og nóttin útbreiðir sig yfir lopt og lönd. Einum þjer er það kunnugt, ó Guð! hvert oss auðnast skal, að sjá eittsinn enn þá dagsljós í austri upprenna; þú ert sá, sem ljósum himinsins hefir leið og gang takmarkað, og um þína makt, vísdóm og gæzku, bera ótal hlutir vitni á himni og jörðu. Vjer þökkum þjer, vor Guð! fyrir afliðinn dag, og alla velgjörninga; þú afstyrðir öllum meinum, þú aðgættir og greiddir vorn hag til bezta. Lát oss þess minnast, að þessi dagur flutti oss enn þá nær vorum dauða, og kenn oss að vanda svo vort líf, að vjer vitum oss vísa óhulta hlíf í hendi þinni, þegar vjer höfum ei lengur líf í þessum heimi. Veit oss nú í nótt væra og rósama hvíld, því nú felum vjer oss allir í þína föðurlegu geymslu og varatekt; líkni oss þín miskun, skýli oss þitt almætti, umgyrði oss þinn friður. En þá vjer á kvöldi vorrar æfi hnígum nákaldir í dauðans skaut, leið þá sálir vorar frá

náttdægradimmu þessarar veraldar, inní eylíft ljós þinnar dýrðar. Amen.

V e r s.

Lagið: Hver sem að reisir hæga byggð.

Lífsins hertoginn líf og önd, legg eg í geymslu þína; mjer þín almættis hlífi hönd, hún verndi mig og mína; svefndúrinn gef þú sætan mjer, svo skal eg vegsemd færa þjer, ljós dags nær lít eg skína.

## ÞRIÐJUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Enn eitt sinn hraðar sólin sjer að hafsbrúninni, og hennar undirgangur endar þannig eitt skeiðrúm af vorum lífsvegi; hvert oss enn þá auðnast skal að útenda annað aptur á morgun, er þjer, Drottinn! einum kunnugt, enn oss er það ei unnt að vita óðar enn líður; hitt nægir, að vjer vitum að vort líf á eittsinn endingu að taka, og að bæði vor æfi og útför er í þinni hendi; það er oss nóg að vjer vitum, að þú ert vor faðir, og þjer er umhugað um vora hagi; það hefir þín gæzkufull forsjón og handleiðsla enn þá nóglega sannað á oss í dag. Ó, vor Guð! öll þín stjórnun og jafnvel umbreytingin sjálf er oss til huggunar, því vjer sjáum, að eins og hin ljósa stund dagsins leiðir oss fram að nætur myrkrunum, svo líður dimman brátt, og dvínar aptur við dagsins komu. Þannig er vort líf vegur til dauðans, en dauðinn aptur leið til lífsins; því skyldi þá sjerhver lifa, eins og hann dag hvern sálast ætti, enn andast um síðir eins og sá, er aldrei framar

þarf að deyja. Ó! vor Guð, og ástríki faðir! í þína blessuðu umsjón felum vjer enn vort líf, hús og eignir, ástvini og heimkynni, og leggjum oss svo í Jesú nafni glaðir til svefns. Vertu vor skjöldur, svo enginn háski grandi vorri rósemi, enginn plága vorum húsum, og engin fláráð ginning tæli oss frá þinni ástsemd. Amen.

V e r s.

Lagið: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

Mín í skjóli maktar þinnar, minn Guð! aldrei rjúfast grið, hjer um bólið hvílu minnar, herra! tjalda þínum frið; værðarhag minn nær þú nú, nótt og dag mig annast þú; hjálpráð þitt sje hlífin nauða, og hæli mitt í lífi' og dauða. Amen.

## MIÐVIKUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Ó! minn góði Guð, og himneski faðir! enn hefir þín óþreytt náð, og mikla mildi, sparað mig þenna dag, verndað mitt líf frá öllum voða, greitt í hag allar mínar gjörðir og blessað mig margfaldlega; því vil eg með auðmjúku þakklæti minnast við þína örlátu hönd, hún var það sem mig saddi og svalaði; hún gaf mjer klæði og húsaskjól, hún ljenti mjer krapta til að heyra og sjá, hugsa og tala, hún uppvakti mitt sinni, og hvatti með raust og bendingu þinna orða. Æ! hver fær yfirvegað og upptalið allar þínar ástgjafir? en hversu hefi eg nú, faðir! haldið það sem eg þjer svarið hafði? hefi eg í dag verið þitt hlýðið barn? notaði eg þau gæði, er þú gafst mjer, eins og eg vissi, þjer var

þókknanlegast? Ónei, því miður! Fyrirgef mjer brot mín og bresti, góði faðir! svo eg ekki út af sofni í þinni óvingan, lát þinn anda færa svölun samvizku minni, því allt mitt athvarf og öll mín von er þinn sonur Jesús, sem leið fyrir mínar syndir. Ó, Drottinn! enn á ný fel eg anda minn og líf, eign og heimkynni, þinni umsjón, fullviss þar um, að þín forsjón geymir mig frá öllu fári, og vekur mig á rjettum tíma, svo eg þá uppvaknaður færi þjer lof og þakkir. Lát mig framleiða mitt líf þjer til dýrðar, og á minni dauðastundu niðurbeigja mitt höfuð í Jesú trausti, og, eptir væran grafarblund, uppvakna til að eignast þitt ríki, og lofa þig um eilíf ár, með öllum þínum ötvöldum. Amen.

## V e r s.

Lagið: Á Guð Alleina.

Líf mitt framleiddi, lifandi Drottinn! þú, allri neyð eyddir, eins bið eg lika nú; náðþyrstan nærðu, næturblund væran gef; frið öndu færðu, í friðarins skaut mig vef; háskan frá mjer hrærðu hvert eg vaki' eða sef. Amen.

## FIMMTUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Lifandi Guð! mínir tímar standa í þinni hendi, og sú hönd hefir enn þá afmælt eitt stig af minni vegferð og leitt mig sem tryggur leiðtogi. Æ! hvað má sá óhultur vera sem þjer treystir, Drottinn! þú forðar honum frá öllum voða, og sjer honum fyrir öllu, sem honum áliggur. Þannig hefur

þú gjört við mig enn í dag, þygg því í náð það þakklæti, sem mín sál færir þjer á þessari stundu. Ó! hvað óverðugur er eg allrar þinnar náðar og ástar, eg, sem hefi saurgað sinni og hjarta af syndanna andstyggð; samt bið eg um náð og vægð í Jesú nafni; eg hata mína synd og áset að betra mitt líferni. Ó Guð! styrk mig veikann, álít þú minn vilja, viðrjettu mína dyggð, og blessa minn ásetning og viðleitni í lagfæringu míns lifnaðar. Það eykur rósemd hjarta mínu, að vita þig nálægan, einkanlega nú þegar nóttin yfirfellur, og myrkrið hylur alla jörðina. Æ! mig skaðar ekkert, fái eg, minn Guð! að hvílast í þínu skjóli; eg treysti á þitt almætti mjer til verndar, þú veitst að vaka yfir mjer, og afstýra öllum meinum; veri þá í nótt þín máttug hönd vor allra örugt hæli, svo vjer njótum rósamrar værðar. Æ, Drottinn! vorir tímar standa í þinni hendi; afmæl þú sem bezt hentar bæði vorn vöku- og værðartíma. Og að síðustu, þegar vor dvöl skal með öllu á jörðunni enda taka, blessa þá vora burtför, og meðtak vorar sálir í þínar miskunar hendur. Amen.

## Vers.

Lagið: Ó! Drottinn allsvaldandi.

Guð minn! þín nálægð góða, gyrði um oss svo verði rótt; virðst þú voðanum bjóða, að víkja frá oss enn í nótt; engin grönd friðar finni, fjör vort önd og heimkynni, föðurhönd, felum vjer allt þinni. Amen.

## FÖSTUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Lof sje lifanda Guði! enn þá er einum degi kvöldað, og það dimma myrkur, sem dregst yfir himininn, bendir oss aptur á værðina; þannig burthverfa vorir dagar sem skuggi, og vor æfi sem straumur; þín miskun, ó Guð! líknaði oss á liðnum degi; þú forðaðir oss við voða öllum; gafst farsæld og blessun yfir öll vor efni; ljettir undir alla dagsins byrði, viðhjelzt voru lífi og styrktir vora krapta, til að geta lokið dagsins erfiði; lofi þig því vorar sálir, og gleymi aldrei neinu af því góða, sem þú hefir oss veitt. Enn, æ! oss auma, vort hirðuleysi er mikið, og vor vangæzla margföld, gakk þú samt ekki í dóm við oss, góði faðir! heldur væg þú oss veikum börnum, og vert oss líknsamur, fyrir meðalgöngu vors bróðurs Jesú Krists. Geymdu oss enn í nótt með þinni maktar- og miskunar-hendi, því næturmyrkurin eru oss ekki trygg, nema þín ást og trúfesti láti sjer vera annt um oss, í þínu skauti skaðar oss enginn háski. Geym oss því, ó Guð! og gef oss væra hvíld, svo skulum vjer að morgni glaðir uppvaktir, hrósa þinni gæzku, og heiðra þitt nafn, þú ert sá Guð, sem gjörir dásemdarverkin, þig lofi englar og menn um tíð og eilífð. Amen.

### Vers.

Lagið: Hver sem að reisir hæga byggð.

Líf mitt og sál' enn leiddir þú, lifandi Guð! frá meinum; eg bið mig náð þín aptur nú, umgyrði friði hreinum. Verndaðu mig og mína vel,

mitt allt eg þinni geymslu fel, traust hef eg á þjer einum. Amen.

## LAUGARDAGS-KVÖLD-BÆN.

Eptir þinni miklu miskun, og mildiríku ráðstöfunn, alvísi Guð! kemur enn þá nóttin og kallar oss til hvíldar; svo kveðjum vjer, ekki einasta þenna dag, heldur og alla umliðna viku. Enn þá hefi eg, ó Guð! fundið óteljandi merki þinnar ástar; enn þá afvendaði hún öllum meinum; enn þá fann eg við hvert andartak heilsu, blessun, líf, krapta og frið; því skyldi þá ei sála min og hjarta með undrandi lotning lýsa þinni náð, ást og tryggðum og lofsyngja þínu nafni með innilegri auðmýkt. En jafnframt því ætti eg að gæta þess, hvert eg hefi verið eins og mjer ber að vera; vitni nú mín samvizka og hjarta, hvert eg hefi látið þá óþreyttu mildi míns góða föðurs, ávinna mig til að forðast syndir og glæpi. Ó Guð! eg blygðast, því og veit að þitt alskygna auga sjer og þekkir grannt allt mitt dagfar og líferni; enn það huggar mig aptur á mót, að eg veit þú ert fús að miskuna og fyrirgefa, því flýr mín önd í þetta skjólið, og huggar sig við kvöldrökkurs kvalir míns Jesú, hann bætti fyrir brotin mín, og fyrir hann vænti eg vægðar. Æ, faðir! gef mjer krapt þíns anda, að eg hjer eptir geti áformað og framleitt eitt sanndyggðugt, guðrækið og ráðvant líferni, og vandað mig því fremur, sem eg finn þú hefur mjer fleiri syndir fyrirgefið; með þvílíku hugarfari vil

eg nú enda þenna dag og þessa viku; afhendi mig svo þjer, og vil vera þinn lífs og liðinn. Blessa þú mína hvíld, og geym mig, því í þína mildu hönd fel eg mitt líf og sál í svefni og vöku. Amen.

V e r s.

Lagið: Meðan Jesús það mæla var.

Dags og vikunnar ending er, ímynd þess að burtlíðum vjer, lof sje þjer, Guð! sem gafst oss líf, gæði margföld og varst vor hlíf, geym oss í nótt við grandi' og neyð, gef oss svo farsælt æfiskeið, og vært andlát í vorum deyð! Amen.

---

a ð r a r

# Viku-kvöld-bænir,

samdar af

sjera **Jóni** sál. **Hjaltalín.**

---

## SUNNUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Ó! þú mikli ljósanna faðir og lífsins herra! Drottinn Guð allsherjar! fram fyrir þitt náðar auglit kem eg syndug manneskja með auðmjúkri lofgjörð og þakklæti, fyrir það þú hefir á þessum degi viðhaldið mjer með þinni miskunarhendi, og unnt mjer óverðugum tækifæris að búa mig undir minn dauða og frelsisstund. Þú hefur leyft mjer að heyra þá inndælu raust þinna lífsins orða í dag. Hverju skal eg endurgjalda þjer fyrir allt það góða, sem þú veitir mjer, eg vil prísa þitt nafn

meðan eg lifi. Ó Drottinn! eg má bljúgur játa, að eg er þinn óhlýðinn sonur, sem af mjer hefi brotið þína gæzku með mínum syndum, sem svo hafa inntekið mína náttúru, að eg hefi þeim rjetti glatað að heita þitt barn; Drottinn Jesú! fyrirgef mjer mínar syndir og óhlýðni, hinn sárheiti blóðsveiti, er þú sveittist í grasgarðinum, burttaki mínar ranglætingar, og veri borgun fyrir mín afbrot; lát mig svo, helgaðann af þinni forlíkandi náð, ganga til minnar hvílu; vernda mig frá öllu illu; þín verndarhönd sje skjaldborg míns líkama og sálar; umgyrð mig þínu almætti; haf þú þín augu vakandi yfir mjer þá eg sef, svo nær minn líkami hvílist í sinni sæng, hvílist sála mín á þínu skauti; uppvek mig svo með gleði og heilbrygði til að lofa þig á morgun. Enn þegar hinn síðasti blundur dregst yfir augu mín í andlátinu, standi þá þinn dýrðarhimin opinn fyrir sjónum sálar minnar. Amen.

## MÁNUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Ó! þú eylífi faðir, og almáttugi Guð! þú mikli hjálpari og verndari mannanna! að þínum fótum fell eg fáráður syndari, og segi þjer af klökku hjarta lof og ódauðlegar þakkir, að þú hefir enn þá einn dag sparað mig sekan syndara, og ei með þíns rjettlætis sigð upphöggvið mig, hina visnu eik. Ó Drottinn! hversu angráður má eg meðkenna, að eg hefi í dag sem hingaðtil aukið minn syndareikning með einni stórri skuld, þar hver minn þanki og hegðan er blandað með synd og

ranglæti. Ó Jesú! líttu í náð til mín, og fyrir þann kvaladróma, og þau bönd, er þig bundu í þinni pínu, leys þú af sálu minni öll bönd vondra girnda; fyrir þann kvalaferil, er þú hlauzt að ganga, frelsa mig af glæpanna vegi. Þín bönd bindi mig og mína limu frá ranglætinu, og greiði mína fætur fram á friðarins veg, þín náð sje yfir mjer á þessari nóttu og verndi mig frá öllu vondu, lát þína blessun vera yfir mjer; þitt andlits ljós lýsa mjer; þínar miskunar-hendur hjúkra mjer, svo eg óhlutur hvílast megi, og vænta þess með gleði upp vakna meiga á morgun, til að prísa þína gæzku. Enn nær eg síðast skal leggjast í mína hvílu og bjóða vinum og veröld góðar nætur í síðasta sinn, tilbú þá, minn góði Jesú hvílu sálu minni í þínu dýrðarrik, og lát mig fyrir þínar kvalir, er þú leiðst, leysast af dauðans dróma, svo eg megi í óútmálanlegum fögnuði og dýrð upp aptur vakna. Amen.

## ÞRIÐJUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Miskunsami Guð, og mildiríki faðir! eg segi þjer af hjarta þakkir og lof fyrir það þú hefir unnt mjer heilsu og lífs allt á þenna dag, og hefur hlíft mjer við freistinganna ofurefli, og leitt minn fót úr þeirra snörum; já, þú hefur geymt sálu og líkama minn frá allskyns meinum. Þína miskun, minn Guð! skal eg lofa alla tíma. Æ! hjartans faðir! svo sem þú hefur gjört mjer allt til góða, svo hefi eg þar á móti gjört það sem þjer var til styggðar; hver stund, já, hvert augnablik minna

lífdaga er saurgað með sífeldum glæpum. Ó! mig auma manneskju! hver mun frelsa mig frá líkama þessa dauða! hver mun græða sár synda minna, sem samvizkan er særð með? hver mun þvo og hreinsa mín sálar kaun? hver mun skýla nakleika minnar sálar fyrir augliti hins rjettláta Guðs? Enginn utan þú, ó Jesú! til þín flý eg, láttu þinnar friðþægingar krapt græða sár mín, og skýla sálar minnar sjúkdómi og nakleika. Í þínu trausti geng eg til minnar hvílu, lát þína heilögu engla setja skjaldborg í kringum sæng mína á þessari nóttu, svo eg hættulaust hvílast megi; mína sálu fel eg þinni verndan og föðurlegu umsjón; gef mjer svo heilum og glaðværum á morgun að vakna af mínum svefni, og lofa þig, minn Drottinn! Lát mig í þjer lifa meðan eg lifi, og í þjer deyja þá eg hjeðan fara skal; gef mjer á hinum síðasta degi að upprísa í krapti þinnar forþjenustu. Amen.

## MIÐVIKUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Lof og heiður og þakkargjörð sje þjer, ljóssins og lífsins herra, Drottinn Guð allsherjar! undir þinni tilsjón og varatekt hefi eg lifað og útendað þenna dag, án alls skaða og háska, svo sála, líf og allt hvað mitt er, er lukkulega leitt fram á þetta nálæga augnablik. Lofaður og vegsamaður vertu, örláti gjafarinn allra góðra hluta! þín náð vægi mjer sekum, sem dag frá degi fjölga syndum og ranglætingum mínum, eðli mitt er fordjarfað, og mín náttúra spillt; mitt hjarta er sjúkt,

og allar mínar tilhnegingar afvegaleiddar, hverSvegna eg má skjálfandi standa fyrir augliti hins rjettláta Drottins. Hvað skal eg tilgjöra, engin eru mín úrræði önnur, enn að flýja til þín, ó Jesú! hvers klæðafaldur uppfyllir þá himnesku Jerúsalem, megi eg að eins snerta hann, mun eg heill verða; bið þinn föður fyrir mjer að hann ekki láti sína rjettlátu reiði yfir mig koma. Uppræt mig ekki, heldur lát mig í nótt umvafinn vera þínum miskunar faðmi, veri þitt guðdómlega rjettlæti einn múrveggur í kringum mig, svo mín sál og líkami óhultur hvílast kunni á þessari komandi nóttu, að eg morgundagsins ljós megi glaðvær sjá. En nær þín alvizka ákvarðað hefir að láta dauðans beiska blund koma yfir mig í mínu andláti, vertu þá, ó Jesú! nálægur; flyt mína sál í þitt himneska dýrðarríki, hvar hún uppvöknuð að morgni þess eilífa sabbats-dags, megi þig án enda lofa og prísa. Amen.

## FIMMTUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Almáttugi Guð, þú æðsti stjórnari allra hluta! eg óverðug skepna birtist skjálfandi fyrir skör þinna fóta, framberandi mitt auðmjúkt skyldugt þakklætis kvöld-offur fyrir alla föðurlega umsjón á mjer á umliðnum degi; þinn voldugi armleggur hefur tryggilega verndað mig, frá minni fyrstu fæðingar og tilverustund, svo ekkert skaðræði hefur mjer grandað, hverki á sál eður líkama, jafnvel þó eg með mínum yfirtroðslum hafi þína rjett-

ferðugu reiði verðskuldað. Ó! minn Guð! mitt eðli er fordjarfað, eg em í syndinni getinn, og í syndum hefi eg allan minn aldur alið allt til þessarar stundar. Ó Guð! væg þú mjer veikum, lát þíns sonar Jesú Krists forþjenan afplána og burttaka mínar misgjörðir. Lát þinn heilaga anda leiða mig á veg þinna blessuðu lífsins orða, svo eg játi og gráti synd mína, í sannri yðrun. Þín miskunarhönd skýli mjer; lát þína heilögu engla vaka yfir minni sæng þessa nótt, svo óvinarins árásir megni mjer ekki mein að vinna; lát sálu mína, hvert eg sef eður vaki, ætíð vaka hjá þjer, og loksins þá mín augu í dauðanum apturlykjast, opna þá augum míns innra manns þína himnesku Jerúsalem, hvar eg þig lofa og prísa fái um allar aldir alda. Amen.

## FÖSTUDAGS - KVÖLD - BÆN.

Ó! þú líknsami Guð, og lífkröptuga uppspretta alls þess góða! fram fyrir þinn náðarstól kem eg niður sleginn og þjáður syndari, undir byrðarþunga minnar breisku náttúru, mænandi mínum trúar augum til þinnar miskunar, móti hverri eg hefi svo þrálega brotið með mínum íllverkum til orða verka og vondra hugrenninga, í þessum syndum hefi eg ráfað eins og villtur sauður í gegnum völundarhús þessa villugjarna heims. Ending þessa dags áminnir mig um, að um síðir muni líða að því takmarki, á hverju eg uppskera muni verðug laun fyrir það eg hjer niðursáði, og, ó! hversu má eg

kvíða að yfir mig muni, sem snara falla endurgjald það, sem öllum athugalausum og óviðbúnum syndurum er fyrirbúið. Ó Jesú! þú sem lífið í ljós leiddir, nær þú dauðann deyddir, lát mig ekki í mínum syndum útaf deyja; gef mjer á þessari kvöld-stundu að afþvo með heitum yðrunartárum mitt ranglæti; minnstu mín, Drottinn! þó eg sje þess óverdugur; minnstu þeirrar hörmunga stundar, á hverri þú varst yfirgefinn, og yfirgef mig aldrei, varpa mínum yfirtroðslum frá þínu heilaga augliti, svo eg glaður af þinni fyrirgefandi náð, ganga megi til minnar hvíldar, gef mjer væran svefn og rósama hvíld í þínum ástríka föðurfaðmi; lát þína vinstri hönd undir mitt höfuð, en hin hægri umfaðmi mig. Minn andi vaki hjá þjer; þitt ljós lýsi yfir mjer, svo eg fái með gleði að sjá ljós þess blessaða morguns. Lát hvern lífsdag minn vera undirbúnings dag til minnar burtfarar, svo nær eg skal flytjast burt frá þessum sorga- og eymdadal, að mjer þá opnist greiður vegur gegnum dyr dauðans til þeirra lifandi vatns-strauma, sem fram fljota af stóli lambsins. Bænheyr það, ó Jesú! fyrir þína forþjenan. Amen.

## LAUGARDAGS - KVÖLD - BÆN.

Heilagi Guð! þú yndislega ljós allra sorgmæddra sálna, er sitja hjer í skugga heimins synda myrkra, bíðandi eptir lausn frá þessu fangahúsi, eg aum og óverðug skepna sem dag frá degi þokast nær mínu fagnaðar fulla takmarki, upphef mitt hjarta í hæð-

irnar til þín, með auðmjúku þakklæti og lofgjörð fyrir þína grunnlausu gæzku, sem hefur enn í dag og alla þessa viku, geymt mína önd og líf frá öllum háska svo eg hefi með rósömu geði notið þinna föður velgjörða. Æ, minni er eg, Drottinn! allri þinni ást og trúfesti, sem þú hefur auðsýnt mjer, þar eg má bljúgur játa, að eg hefi ekkert fremur verðskuldað enn þína reiði, og ekki forþjenað þína náð. Ó minn Guð! þess fleiri daga og ár sem þú lofar mjer að lifa, þess fleiri syndum safna eg. Ending þessarviku minnir mig þar á, að ending allra hluta sje nær. Endir þessa dags kennir mjer, að kvöld minnar æfi og kvöld þessa heims muni eittsinn, fyrr eður síðar, yfir koma, á hverju eg hlýt að standa reikning allra minna daga- og vikuverka. Ó! herra Guð! hvar mun eg þá standast? hver verða þá mín úrræði? engin, já alls enginn, utan þau, að flýja, minn Jesú! að þínum miskunarfótum. Ó! þú náðarríka uppspretta allrar gæzku! yfirdöggva mitt harða hjarta með náðardögg þíns heilaga anda svo þaðan útfljóti tár hræsnislausrar yðrunar. Drottinn! lát allar mínar ranglætingar vera huldar fyrir þínu augliti. Lát mig í nótt vera umvafinn þinni forsjón; bú þjer hvílu í mínu brjósti og haf þína vistarveru hjá mjer; lát mig hafa huggun og von í þjer einum; lát þitt nafn vera eitt minnisteikn í mínum höndum; lát þitt blóðuga kvalastríð vera afmálað fyrir augum sálar minnar; breið þína hönd yfir mína hvílu; undir þína varatekt fel eg mína sál, líkama og allt hvað mjer til heyrir; vak þú

yfir mjer, þú Ísraels vaktari! sem ekki sefur, og lát mig hraustan uppstanda á morgun, til að lofa og vegsama þitt heilaga nafn. Enn að síðustu, þá eg skal fyrir tímanlegan dauða hjeðan fara, og sála mín hlýtur að skilja við líkamann, greiði þá þín blessuð náðarhönd, Drottinn! sál minni leið til þess eylífa dýrðar musteris, að hún þig um þann endalausa sabbatsdag eylíflega dyrka megi með öllum englum og útvöldum. Amen í Jesú nafni, amen!

---

Þriðju

# Viku-kvöld-bænir,

samdar af

## Dr. Jóhanni Lasseniusi.

---

### SUNNUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Drottinn Guð! faðir á himnum, og herra míns lífs! þín verk eru einsömul gæzka og trúfesti; þú hefur mjer á þessum degi lifandi viðhaldið, allt gott auðsýnt, og eptir þinni stóru miskunsemi varðveitt mig fyrir öllu illu; lífið og allt gott hefur þú mjer veitt, og þín umsjón hefur varðveitt minn andardrátt; þar fyrir prísar þig mín sál, og minn munnur er fullur af þinni lofgjörð; hjálpa mjer framvegis fyrir þíns nafns sakir, þú blessaða Ísraels traust! afmá mínar misgjörðir sem eitt ský, og mínar syndir sem eina þoku; hreinsa mína samvizku af dauðum verkum, fyrir það úthellta saklausa blóð

Jesú Krists, taktu ekki þína hönd í burt frá mjer, og yfirgefðu mig ekki. Sjá þú, elskulegi faðir! nú er nóttin komin, og dimman nálægist. Æ, þú mitt fegursta ljós! yfirgef mig ekki; mín skæra sól, gakk þú ei undir í mínu hjarta; settu vakt þinna heilögu engla í kríngum mig og alla mína, frá öllum skaða og háskasemdum á lífi, æru og gótsi náðarsamlega varðveiti. Blessa þú minn svefn, og lát mig í þjer hvíld og rósemi hafa. Ó, þú alleina góði Guð og faðir! þjer befala eg mig, mín von er á þjer einum, í þjer vil eg nú útaf sofna, undir skugga þinna almættis vængja verð eg vel varðveittur, taktu að þjer framvegis mína sál, og lát mig aptur eptir þínum náðar vilja, á morgun þjer til dýrðar og lofs uppvakna sakir þíns elskulega sonar Jesú. Amen.

## MÁNUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Nú er þessi dagur umliðinn, allra góðgjarnasti og elskuríkasti Guð og faðir! Á honum hefi eg fyrir þína staðfastlega vakandi náðar forsjón, föðurlega varðveittur verið frá öllum lífs og sálar skaða og háskasemdum; þinni miskunsemi þakka eg þar fyrir af öllu hjárta, og grátbæni þig auðmjúklega í nafni þíns elskulega sonar, míns endurlausnara Jesú! fyrirgef mjer, ó faðir! allt það, með hverju eg hefi á þessum degi, í hugrenningum, orðum og verkum þig styggt og móðgað. Æ, miskunsami Guð! þú sem að ert fullur náðar og gæzku, minnstu þess stóra lausnargjalds míns elskulega endurlausnara Jesú!

Vertu mjer fyrir þess sakir náðugur, og tilreikna ekki mínar þungu syndir sálu minni; miskuna þig yfir mig, ó, þú allra elskuríkasti Guð! eg ligg hjer fyrir þínu heilaga augliti með sundurkrömdu hjarta. Æ Drottinn Guð! vertu mjer aumum syndara náðugur, snú þú augum þinnar föðurlegrar miskunar til mín, og lát þína heilögu blessun, hlífð og varðveizlu á þessari yfirstandandi nóttu yfir mig koma. Varðveittu minn líkama og sál, alla mína og allt hvað mitt er, fyrir allri neið og háskasemdum; lát enga hræðslu eður hörmung yfir oss koma; vak þú yfir oss, vort hjálpræði, heill og hellubjarg, uppá þig alleina reiði eg mig. Ó Guð! undir skugga þinna náðar vængja hefi eg mitt traust. Æ, náðugi Guð! hugga þú á þessari nóttu allar harmþrungnar og yfirgefnar manneskjur, lát þína gæzku styrkja og hughreysta alla þá, sem sturlaðir og freistaðir eru, og vertu náðugur allri þinni kristni, þeim litla hóp þinna útvaldra. Drottinn Guð, almáttugi faðir! í þínu trausti legg eg mig nú til svefns, lát þína heilögu engla vera mína vaktara í kringum mig, og í rjettan tíma þjer til lofs og æru vekja mig upp aptur, þjer sje dýrð að eilífu! Amen.

## ÞRIÐJUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Hvernig kann eg þitt nafn nógsamlega að upphefja, og þína elsku verðuglega að prísa? Ó, þú allra elskulegasti Drottinn Jesú! þínum náðarvængjum hefi eg það að þakka, að eg með öllu því eg er, og mjer tilheyrir, hefi á þessum degi

náðarsamlega varðveittur, og frá öllum háska og ólukku verndaður verið. Ó, Drottinn Jesú! minnstu mín og framvegis til hins bezta, og láttu mjer ei á þessari nótt þína náðarsól undirganga. Vertu, ó, miskunarríki frelsari! allt til míns lífs enda, mitt ljós og mitt athvarf; minnstu ekki á mínar yfirtroðslur, með hverjum eg hefi syndgað á móti þjer, fyrirgef mjer allar mínar vitanlegar og óvitanlegar syndir, og veit mjer þína náð og hjástoð framvegis, svo að eg vegna hreinnar elsku til þín, forðist og flýi alla girnd og lysting til syndarinnar, að eg gefi þjer alleina rúm í mínu hjarta, og þig þar einan herbergi, og í þinni viðurkenningu og ótta staðfastlega framhaldi. Ó, þú elskulegasti herra Jesú! snú þú frá mjer allri hörmung lífs og sálar, vertu á þessari nóttu mín vernd og fasta slot, að mig ekkert illt hendi. Drottinn! eg er þinn, og þú ert mitt höfuð, yfirgef þú mig ekki, sem er einn limur á þínum líkama, á þjer einum er öll mín von, lát mig ekki til skammar verða. Blessa þú minn svefn, og gef mjer aptur uppvöknuðum að prísa þig með glaðværum anda. Bænheyr mig, Jesú! mitt ljós og líf, fyrir sjálfs þíns sakir Amen.

## MIÐVIKUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Allra elskuríkasti Guð, og náðugi faðir! þú sem hefur skapað daginn til erfiðis, enn nóttina til hvíldar, eg vil nú gefa mig til hvíldar á þessari næturstundu, en mitt hjarta og samvizka vitna fyrir mjer, að eg hafi þitt trúa föður-hjarta, með mín-

um syndum margfaldlega til reiði reitt, og þess vegna þína reiði, framar enn náð verðskuldað, samt kem eg nú aptur til þín, og bið um náð og fyrirgefningu. Æ, himneski faðir! burtkasta ekki þínu barni í þinni reiði, minnstu á þín eigin orð, að þú viljir ekki syndugs manns dauða, heldur að hann snúi sjer og lifi. Það er mjer allt af hjarta leitt, er eg hefi misgjört. Snú þú mjer, Drottinn! svo verður mjer snúið. Ó, himneski faðir! taktu mig á þessari nóttu, þína aumu barnkind, undir varðveizlu þinna miskunarvængja; vernda minn líkama og sál á alla vegu; vertu á þessari dimmu nótt fagurt ljós minnar sálar, og ef nokkur ólukka, fár eður neyð kynni yfirhangandi að vera, svo haltu mjer, Drottinn! undir vernd þinnar handar, að mjer ekkert illt að höndum komi, varðveittu mig fyrir illum og órólegum draumum, fyrir ónauðsynlegum og þungum umsorgunum. Miskuna þig yfir allar þínar manneskjur; vertu lækning þeirra sjúku. og hlífð þeirra. Amen.

Í þínu nafni vil eg nú með gleði út af sofna, Drottinn minn Guð! vertu hjá mjer, vertu mín vernd, og vak þú sjálfur yfir mjer, eg fel mig þjer, og bið af hjarta, láttu mig á morgun glaðan uppvakna og gjör svo framvegis við mig, eptir sem þú villt; verði þinn vilji; vertu mjer náðugur, og lát þína miskun koma yfir mig, því eg vona á þig. Amen.

## FIMMTUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Drottinn Guð faðir á himnum! fullur náðar og góðgirni, þú sem auðsýnir miskunsemi í þúsund liðu, hvernig kann eg þitt nafn nógsamlega að prísa, og þess lof að útbreiða, þú sem hefur látið mig þenna dag fyrir utan allan háska og skaðsemd útenda. Æ, góði himneski faðir! taktu nú af mjer til borgunar hjer fyrir, það fullkomna offur þíns elskulega sonar Jesú, og vertu mjer náðugur og miskunsamur fyrir hans skuld; þú ert mitt ljós og eitt öruggt hjálparhorn; taktu mig nú upp á þinn náðar armlegg, minn Guð! þú sem hefur lofað að gleyma mjer aldrei; mitt hjarta er angurvært vegna minna synda. Miskunsami Guð! fyrirgef mjer, og gef mjer einn glaðværan anda, að eg í sannarlegu trúnaðartrausti megi kalla til þín: Abba, elskulegi faðir! Lát mína sál staðfastlega í þjer hvild hafa, og þegar mín augu og líkamans limir hvílast, svo haltu, ó, mildiríki Guð! þínum augum ávallt vakandi yfir mjer, að engin ólukka kunni að snerta mig; eg gef mig undir þína föðurlegu forsjón á þessari nóttu, minn líkama, mína sál og alla mína. Drottinn! hafðu umsjón yfir mjer, svo að eg fyrir öllu illu, og allri hörmungu vel varðveittur verði og fyrir þína náðar forsjón aptur uppvakni til að lofa þig og vegsama; hugga þú einnig á þessari nóttu allar harmþrungnar manneskjur, og lát þá alla sem þitt blessaða nafn, í nafni þíns elskulega sonar ákalla, þinnar guðdómlegu hjálpar hluttakandi verða; veit mjer

þína föðurlega náð og hjástoð, ó, þú góðgjarnasti faðir! að eg fái svo lifað, að eg að enduðum mínum dögum, og þeirra armæðu, komist til eilífrar hvíldar og rósemdar á himnum. Bænheer mig, og miskuna mjer, minn Guð! fyrir það kröptuga árnaðarorð og forþjenustu þíns sonar, míns frelsara Jesú Krists. Amen.

## FÖSTUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Lofaður veri Guð! dagurinn er enn nú liðinn, og nóttin yfirkomin, eg kem og einn dag eptir annan nær minni gröf og mínum dauða. Æ, allra elskuríkasti Guð og faðir! þín náð og ómælanleg miskunsemi hefur enn á þessum degi sýnt mjer meðaumkun og mig án alls háska og skaðsemi verndað. Trúfasti Immanúel! hvað föðurlega umsorgun ber þú fyrir þínum börnum! hvað mildilega og kröptuglega verndar þú þau fyrir öllum óförum! Æ! að eg kynni að þjóna þjer svo fullkomlega, sem þú fullkomlega meðdeilir oss þinni ást og kærleika, enn æ, því verr! eg má með angurfullu hjarta meðkenna, að eg hefi þig, þú heilaga vera! með mínum syndum, þenna dag svo mjög styggt og móðgað. Drottinn Jesú! fyrirgefðu mjer samt vegna þinnar dýrmætu forþjenustu. Lát og þessa nótt mig þína aumu barnkind, þinni náð og umsorgun falda vera, lát þinn guðdómlega frið yfir mig koma bæði á lífi og sálu, að eg megi ljós morgundagsins með glaðværu hjarta fá að líta. Vertu náðugur öllum þeim, er þig í rjettri trú á-

kalla, og miskuna þig yfir allan kristinndóminn. Lát þitt heilaga blóð ekki verða til ónýtis á nokkrum manni. Ó, Drottinn Jesú! láttu á þessari nóttu ljós þinnar guðdómlegu náðar fagurlega yfir mjer skína, að mín sál í því ljómanda ljósi vaki alla tíma til þín, og að eg fyrir trúna hafi allann minn fögnuð í þjer, þangað til að eg á þeim efsta degi, fæ að sjá þig augliti til auglitis. Þessa beiði eg þig, minn dýrmæti endurlausnari! sakir þíns kærleika og óbrygðanlegu fyrirheita. Amen.

## LAUGARDAGS-KVÖLD-BÆN.

Þín náð og miskunsemi, þú náðugi Guð, og mildiríkasti faðir! er svo sem þú ert sjálfur, það viðurkennir mín sál með hjartanlegu þakklæti á þessari kvöldstundu. Fyrir þína föðurlegu miskunarhönd hefi eg á þessum degi og alla umliðna viku frá öllum slisum, fári og ólukku verndaður verið; miskuna þig yfir mig framvegis, himneski faðir eptir þinni óendanlegu gæzku. og afmá allar mínar misgjörðir. Tak ekki frá mjer og afsegðu mjer ekki þína náð og hjástoð þína, minn Drottinn! Yfirgef þú mig ekki í minni neyð, fyrir sakir þíns hjartans sonar hjarta blóðs, og heilögu forþjenustu. Æ, minn Drottinn Jesú! kom þú mjer til hjálpar með þinni kröptugu fyrirbón og árnaðarorði, og lát mitt angurfulla hjarta þessi þín huggunarríku orð fá að heyra: friður sje með þjer. Drottinn Guð, heilagi andi! vertu minn meistari, og hjálpa mjer í öllum mínum breiskleika. Ó,

þú blessaða þrenning! lát mig undir verndan þíns guðdómlega almættis, sem þitt barn, vel varðveittan vera, og geym mig þar á þessari nóttu, óhultan fyrir öllum háskasemdum lífs og sálar; mína sál og líkama, og allt hvað þín náð hefur mjer gefið, fel eg þinni guðdómlegu forsjón, og föðurlegum kærleika. Vak þú, ó Drottinn! yfir mjer svo enginn ólukka snerti mig, nje kunni nokkurt angur eður óróa að gjöra. Svo legg eg mig óhultur til svefns, minn Guð! því þú ert með mjer. Ó, þú heilaga þrenning! þjer fel eg mig nú, og alla tíma, vertu með mjer í lífi og dauða; lát mig eptir afliðin næturmyrkurin fá að sjá aptur dagsljósið glaðan og heilbrigðan, til þíns nafns æru og vegsemdar. Amen, í Jesú nafni! Amen.

---

F j ó r ð u

# Viku-kvöld-bænir,

samdar af

sjera **Hallgrími** sál. **Pjeturssyni,**

presti að Saurbæ á Hvalfjarðarströnd frá 1651 til 1669.

## SUNNUDAGS-KVÖLD-BÆN.

**A**lmáttugi Guð, og góði himneski faðir! þú sem skapaðir bæði himin og jörð á fyrsta degi, og hefur gjört eitt ljós fyrir þitt orð, eg bið þig, skapa þú í mjer eitt hreint hjarta og láttu sól rjettlætisins Jesúm Kristum upprenna í mjer, fyrir hvern

eg verði upplýstur til eilífs lífs, og heitur í elsku og kærleika til þín ásamt míns samkristins náúnga. Veittu mjer, minn góði Guð! að eg forðist verkin myrkranna og hegði mjer svo sem ljóssins barn, drýgi ekki syndanna myrkurs skaðleg næturverk, heldur að eg lifi siðsamlega, svo sem á degi, og ekki alleinasta hegði mínu líferni óstraffanlega fyrir allra manna augum, heldur og einnig öðrum til góðs og loflegs eptirdæmis; þetta veittu mjer, og styrk þú mig hjer til fyrir verkan heilags anda, í Jesú nafni. Amen.

## MÁNUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Eilífi miskunsami Guð og faðir! þú sem að viðheldur þeirri stóru himinsins festingu, og lætur ekki þann mikla skýanna þunga, sem í loptinu sveimar, falla, en þó vjer kunnum ekki slíkt að þekkja; svo virstu einnig festingu og himni þinnar kristilegrar kirkju að viðhalda hjer á jörðunni miskunsamlega, og kristinndóminum, sem er mjög þjáður og undirþrykktur, með þinni náðugu hjálp og heilagri aðstoð, til verndar og fulltingis að koma. Þín er dýrðin heiðurinn og vegsemdin! þú kannt það vel að framkvæma; og líka svo sem festingin er þú skapaðir á þessum degi, hún hleypur um kring á 24. stundum, svo mörg hundruð, já, þúsund mílur vegar og heldur svo algjörlega þessa þína skikkun, að þar vantar ekki nokkuð uppá, svo virðst einnig að stjórna mjer og hjálpa, svo eg hratt og viljuglega hlaupi veg og götu þinna

guðdómlegu boðorða, og að eg yfirtroði aldrei skikkun og setningar þíns heilaga lögmáls, svo að hvorki þessi dagur og nótt, eður nokkur annar, verði mjer reiði dagur, eður eilífrar refsingar nótt, þetta veittu mjer í nafni míns endurlausnara Jesú Krists! Amen.

## ÞRIÐJUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Ó, þú almáttugi Drottinn og eilífi Guð! þú sem á þessum degi safnaðir vötnunum í sinn stað, og gjörðir jörðina þurra og ávaxtarsama; ó Drottinn! varna þú og apturhald vatni hörmunganna, og flóði ofsóknanna, hverjum opt til samans slær yfir þína kristilega kirkju, svo að þinn andlegi aldingarður, sem þú sjálfur hefur uppbyggt, ekki yfirflotinn eða eyðilagður verði; heldur gefi af sjer mikinn, já, þúsundfaldan ávöxt, sem þjer vel þóknast, þjer til lofs, æru og dýrðar. Allra kærasti faðir! viðhaldtu mjer í þessum þínum andlegum aldingarði, svo sem einu frjófsömu trje, og blessa mig svo eg gefi af mjer óaflátanlega mikin og góðan ávöxt trúarinnar og þolinmæðinnar, vonarinnar og kærleikans, og annara kristilegra dyggða, og að eg verði ekki magnþrota og kraptlaus, undir hita og þunga krossburðarins, heldur standi fastur, grundvallaður og óbifanlegur í trúnni, svo sem vel gróðursett pálmaviðartrje, og þá eg hefi nógu lengi staðið í aldingarði þínum hjer í heimi, þá flyt þú mig inn í þann himneska Paradísar aldingarð, svo eg þar inni blómgist og ávöxt færi eilíflega. Iljer um bæn-

heyr, góði Guð! fyrir Jesúm Kristum, blessaður og lofaður að eilífu! Amen.

## MIÐVIKUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Ó. þú miskunsami Guð og faðir! þú sem á þessum fjórða degi heimsins sköpunar settir á festingu himinsins tunglið og stjörnurnar svo sem björt og skært skínandi ljós, sem gefa skyldi tíma, daga og ár, gef þú og alla tíma skært skínandi stjörnur á himin þinnar kristilegrar kjrkju, rjettsinnaða og trúlynda orðsins kennendur og predikara uppá það að fyrir þeirra lærdóm og orðsins framburð, mættu allir kristnir menn fræddir og leiddir verða til sáluhjálpar; láttu ljós þíns heilaga evangelíum, óaflátanlega skína fyrir oss, þangað til vjer um síðir prísum þig sllir sameiginlega í þínu ríki, hvar vjer munum í ljóma þinnar náðar og dýrðar, lýsa sem stjörnur um eilífa tíð, þangað virstu að flytja oss og færa frá þessari veröld þá þjer þókknast, fyrir forþjenustu sakir þíns sonar Jesú Kristí, vors blessaða árnaðarmanns og meðalgangara! Amen.

## FIMMTUDAGS-KVØLD-BÆN.

Ó! þú almáttugi Guð, og allra kærasti himneski faðir! þú sem á þessum degi, í þeirri fyrstu sköpun, lagðir þína blessun yfir fiskana í sjónum og fuglana í loptinu; vötnin og enn nú með fiska, og loptið með fugla óaflátanlega uppfyllir. Gef þú voluðum og vesælum manneskjum þína náð, að vjer út af þessari þinni ríkuglegri fyrirhyggju

færum oss til kröptugrar huggunar, það að þú munir ekki yfirgefa oss þín aumu börn, sem þinn elskulegur sonur hefur endurleyst með sínu blessaða blóði, heldur miklu framar hafa umsorgun fyrir oss, og blessa oss og frelsa frá öllu illu; hjálpa þú oss og gef oss þína náð, að vjer eins og góðir, heilnæmir fiskar veiddir verðum og samansafnaðir í neti þíns heilaga orðs, og þess heilaga prjedikunar embættis. Þú hefur lofað og fyrirheitið: að þú viljir þín trúuð börn vernda undir þínum náðarvængjum eins og hænan gjörir við sínar ungakindur; svo virstu að útbreiða þína miskunar og verndar vængi yfir oss, svo að sá helvítski gripfugl, djöfullinn, geti ekki fordjarfað oss í nokkurn máta, og líka svo sem fuglar himinsins, er þú skapaðir á þessum degi, taka strax til að lofa þig með sínu kvaki, að upprennandi deginum, og vilja svo sem biðja þig um fæðu, og láta ekki af um daginn að kvaka og hljóða, eins og vildu þeir sinn borðsálm lesa, og með sínum söng sig þakkláta auðsýna; svo virstu og, góði Drottinn! að uppláta vorar varir, til að heiðra þig og ákalla, dýrka og vegsama, svo að vjer sjeum ekki lakari eður síður enn fuglarnir og aðrar skynlausar skepnur, heldur miklu framar að vjer með heitri alvöru þig lofum, prjsum og göfgum, uppbyrjandi hjer í náðinni með heilögum englum þann dýrðlega lofsönginn að syngja, og þar í dýrðinni þeim sama óaflátanlega að framhalda, segjandi: heilagur, heilagur, heilagur er Drottinn Guð allsherjar! himininn og jörðin

er full af hans dýrð. þetta veit þú oss fyrir þíns heilaga nafns sakir! Amen.

## FÖSTUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Þakkir og lof sje þjer, góði, himneski faðir! fyrir það þú hefur skapað oss menninna svo sem skynsemdarfullar skepnur, í heilagleika og rjettlæti, og gefið oss herradæmi að drottna yfir öllu jarðríki. Þakkir og lof sje þjer, góði herra Jesú Kristi! þú lifanda Guðs sonur! fyrir það þú hefur oss, fortapaðar og fordæmdar manneskjur vegna falls vorra fyrstu foreldra, endurleyst, og oss aptur afrekað, og innleitt í Guðs ríki. Þakkir og lof sje þjer, Drottinn Guð heilagi andi! fyrir það þú upplýstir oss forblindaðar manneskjur til eilífs lífs, og þar með hreinsar oss af syndunum, fyrir orðið og sakramentin, og endurnýjar oss til eins heilags Guðs musteris; þjer sje lof og dýrð, þú hábléssaða, heilaga þrenning, og þrefalda eining! frá því nú og til eilífðar! Amen.

## LAUGARDAGS-KVÖLD-BÆN.

Almáttugi Guð, heilagi miskunsami faðir! þú sem skapað hefur himin og jörð á sex dögum og alla hluti sem þar eru inni, og hvíldist á þessum sem var sá sjöundi dagur, gef þú mjer, þínum þjenara, þína náð, að eg fyrir eina sanna trú, verði hluttakandi þeirrar hvíldar og rósemdar, sem þinn elskulegi sonur Jesús Kristur hefur mjer útvegað og afrekað; láttu mína samvízku hvílast af öllum

þúngum, andlegum og líkamlegum freistingum, og þá eg er búinn að erfiða til fulls í þessum eymdadal, þá taktu mig í burtu eptir þínum náðugum vilja, og innleið mig í þá eilífu hvíld, hvar eg megi með öllum útvöldum hafa og halda óendanlega sabbats gleði, eina eptir aðra í eilífðinni. þetta veittu mjer, Guð faðir! fyrir Jesúm Kristum þinn son, í krapti heilags anda! Amen.

---

F i m m t u

# Viku-kvöld-bænir,

eignaðar

sjera **Hallgrími** sál. **Pjeturssyni,**

presti að Saurbæ á Hvalfjarðarströnd frá 1651 til 1669.

## SUNNUDAGS-KVÖLD-BÆN.

það er ágætlegt að gjöra Guði þakkir, og að syngja þínu nafni lof, þú hinn hæsti! að kunngjöra þína náð að kvöldi, og á næturtímanum þína dásemd. Eg segí þjer þakkir, drottinn Guð, himneski faðir! fyrir Jesúm þinn elskulegan son, vorn herra, að þú hefir á þessum degi mig svo mildilega vermdað og varðveitt fyrir öllu íllu, svo eg hefi í rósemi mátt framkvæma skyldu míns kalls. Eg bið hjartanlega, að þú af gnægð þinnar miskunar einúngis fyrir verðugleik þíns sonar Jesú Krists míns lausnara, fyrirgefir mjer allar mínar syndsamlegu hugrenníngar, orð og gjörðir, með hverjum eg hefi á

þessum afliðna degi móðgað þinn guðdómlega heilagleika; hjer um bið eg því í Jesú nafni, að hann hefur mig svo heitt elskað, að hann hefur sig sjálfan í dauðann gefið minna vegna, og mínum syndum offrað á sjálfs síns líkama uppá trjenu; í hverjum vjer höfum endurlausnina fyrir hans blóð, sem er syndanna fyrirgefning, hverjum og svo bera allir spámenn vitni: að í hans nafni fái allir þeir syndanna fyrirgefningu, sem á hann trúa; þar fyrir bið eg nú einnig framvegis, vernda mig á þessari komandi nóttu svo sem þinn augastein og skýl mjer undir þinni guðdómlegu verndan, svo eg mæti engri ólukku, og enginn plága snerti mig. Eg fel mína sál mínn líkama, mína vini og vanda menn, og alla rjett kristna, hvar helzt þeir eru í öllum löndum, í þína guðdómlegu varatekt. Lát þína heilögu engla setja skjaldborg í kringum oss, og koma oss til styrktar, svo að óvinarins árásir megni oss ekkert mein að vinna og fái engan sigur yfir oss; Bænheyr oss, hemneski faðir! fyrir Jesúm Krist vorn Drottinn og herra. Amen.

## MÁNUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Lofaður sje Drottinn minn Guð, sá mjer jafnan atvinnu veitir; minn endurlausnari og sáluhjálpari; minn helgari og huggari, hver mjer á þessum degi hefur svo ríkuglega auðsýnt sína furðanlega og yfirfljótanlega gæzku og góðgirni. Drottin! þjer einum ber heiðurinn, þar eð þú hefur svo náðarsamlega bænheirt mig, og auðsýnt mjer og mínum svo

óteljandi velgjörninga, og verndað mig frá allri háskasemd á sálu og líkama. Eg bið þig vegna þeirrar dýrmætu verðskuldunar þíns elskulega sonar Jesú Krists míns endurlausnara, fyrirgef mjer allar mínar syndir, með hverjum eg hefi bæði vitanlega og óvitanlega á þessum degi sem endrarnær þig þráfaldlega styggt og móðgað. Varðveittu mig á þessari nóttu, og alla mína, undir þínu föðurlega verndarskjóli. Umkring mig með vakt þinna heilögu engla, svo mín sál, líkami, æra, góz og allt hvað eg hefi, sje vel verndað og varðveitt; snú þú frá mjer hverskyns ólukku, skelfingu og skaðlegum sóttum, elds - og vatnsvoða, einnig árásum vondra manna; geym þú mig fyrir vjelum vors óvinar djöfulsins; forða mjer og mínum frá sjerhverri ólukku, neyð og bráðum dauða, svo að mitt líf og sál frelsist frá eilífri glötun, upp á það að eg fyrir þinn náðugan vilja og velþókknun mætti með glaðværð aptur sjá og skoða ljós morgundagsins, og þig sannan Guð föður, son og heilagan anda, vegna þinnar gæzku og trúfesti, síðan óaflátanlega víðfrægja og vegsama, ásamt þeim dýrðlega skara heilagra engla og útvaldra guðs barna, um alla eilífð! Amen.

## ÞRIÐJUDAGS - KVÖLD - BÆN.

Ó, þú góði og himneski Guð og faðir! þjer segi eg lof og dýrð og þakkargjörð, og prísa þig af hjarta mínu, að þú mig auman syndugan mann hefur á þessum degi, ekki fyrir mína forþjenustu, heldur af þinni skærri náð og miskun svo sem mildur Guð

og faðir, mig verndað og varðveitt frá öllu íllu, og frá allri ólukku, eg bið þig vegna þinnar mildi og miskunsemi, gakk þú ekki í dóm við þinn þjenara, því fyrir þjer er enginn manna rjettlátur, þar fyrir sjáðu aumur á mjer, eptir þinni góðgirni, og afplána allar mínar syndir, eptir þinni mikilli miskunsemi, sem eg hefi þenna dag og alla tíma syndgað á móti þjer og þínum guðdómlega heilagleika; eg bið þig hjartanlega, þvo mig af mínum misgjörðum og hreinsa mig af öllum mínum syndum, og vertu mjer náðugur vegna þíns elskulega sonar Jesú Krists! Eg bið þig framvegis, þú trúfasti góði Guð faðir! að þú látir mig þjer á hendur falinn vera og varðveitir mig á þessari komandi nóttu; lát þína heilögu engla geyma mig í mínum svefni, svo eg óhindraður njóti minnan hvíldar, frí við alla sauruga og vonda drauma, og íllar verkanir minnar spilltu náttúru, að eg síðan heill og hraustur uppvakni af mínum svefni til að lofa þig og prísa, og þjer að þjóna í rjettlæti og heilagleika, fyrir guðdómlegan krapt þinnar dásemdar á mjer. En nær sú stund kemur að eg skal deyja, og vera ekki lengur í þessum eymdardal, þá verði þinn náðar vilji svo á jörðu sem á himni. Veittu mjer þína náð, að eg gefi þjer mig með lífi og sál og öllum mætti undir þinn guðdómlegan vilja, hver ætíð er hinn bezti. Halltu mjer staðfastlega í kristilegri trú, og sannarlegri viðurkenningu allt til æfiloka; láttu mig aldrei verða frá þjer skilinn, heldur tak þú mína sál til þín í þitt dýrðarríki fyrir þann sama, þinn son, vorn herra Jesúm Kristum. Amen.

## MIÐVIKUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Eg þakka þjer, minn Guð og faðir! fyrir þinn elskulegan son, vorn drottinn Jesúm Kristum, að þú hefur mig svo náðarsamlega á þessum degi verndað og varðveitt frá öllu illu bæði til lífs og sálar, ekki fyrir mína verðskuldun, heldur af þinni einskærri náð. Eg meðkenni fyrir þjer allar mínar syndir og misgjörðir, hverjar þú betur veitst enn eg, sem eg hefi gjört allt frá minni barnæsku, og til nálægrar stundar á móti þínum guðdómlega heilagleika, með hugrenningum, orðum og gjörðum, og þar sem mínar syndir eru óteljanlegar, miklar og stórar, þá bið eg þig, minn Guð! af allri hjartans auðmýkt, að þú viljir fyrirgefa mjer þær af þinni náð, og láta þær afmáðar vera fyrir þínu heilaga augliti. Uppvektu í mínu hjarta eina lifandi og hreina trú til þinnar náðar, að eg óttist þig og elski með brennandi kærleika af allri sálu minni og af öllum mætti, svo að eg hjer eptir bæti minn lifnað og framferði, svo eg mætti, hreinsaður af mínum syndum í þíns sonar Jesú blóði, þenna dag svo útenda, að eg á þessari nóttu undir þinni trúföstu varatekt rósamlega hvílast mætti, svo þó líkaminn sofi, þá vaki mitt hjarta og sál alla tíma til þín, að eg aldrei sleppi þjer úr mínu hjarta, og hafi þig jafnan mjer fyrir augum, og taki mjer vara fyrir öllu óguðlegu athæfi framvegis. Láttu þína heilögu engla vaka í kringum mig, sem að geymi mig á þessari nóttu, svo óvinur sálar minnar megni mjer enga freisting að vinna, heldur að þú, minn góði Guð! sjert hjá mjer og öllum mínum, svo

vjer sjeum allvel geymd og verndut á þessari nótt og alla tíma, að vjer mættum í rjettan tíma og með gleði og heilbrigði upp aptur vakna og þjer þakkir gjöra, lofa þig og dýrka fyrir Drottinn vorn Jesúm Kristum. Amen.

## FIMMTUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Ó, herra Jesú Kristi! fyrir þjer játa eg allar mínar syndir og misgjörðir, með hverjum eg hefi á þessum degi, af holdsins breiskleika og tilteigingu þessarar vondu veraldar, þig móðgað, með vondum hugrenningum, orðum og verkum; eg bið þig: gakk ekki í dóm við mig auma synduga manneskju, heldur vert mjer miskunsamur, vegna þíns beiska dauða, og fyrirgef mjer það, sem eg á móti þjer brotið hefi á þessum degi, og þó eg kunni að verða af vondri náttúru yfirfallinn, eður af mannlegum breiskleika að hrasa og falla í synd, þá gefðu mjer þína náð, að eg um síðir leiðrjettist fyrir innblástur þess heilaga anda. Láttu þína pínu og bitra dauða ekki verða til ónýtis á nokkrum, heldur að eg huggi mig við hana, og hrósi mjer af henni og hugleiði hana, svo eg fyrir mjer virði, að allar girndir í mjer niðurdempaðar og útslökktar verði, en þar á móti allar góðar dyggðir í mjer innrætist, svo að eg deyi frá syndunum, en lifi rjettlætinu. Send þú mjer þína heilögu engla sem vaktan á mjer hafi, ásamt öllu því mjer tilheyrir. Vertu, Drottinn! minn skjöldur og skjól, eg fel þjer mína sál í hendur. Láttu mig í þínum friði og undir þinni verndan þessa nótt sofna og hvílast, svo eg mætti með góðri heilsu

og glaðværum anda upp aptur vakna þjer til lofs og dýrðar. En nær sú stundin kemur, ó herra Jesú! að þinn guðdómlegur vilji er, að eg skal í burtu far af þessum heimi, þá lát mig í stöðugri trú og von til þinnar miskunar burt sofna, og síðan með fögnuði uppvakna til eilífs lífs í þinni dýrðarlegri tilkomu. Amen.

## FÖSTUDAGS-KVÖLD-BÆN.

Ó, þú almáttugi Guð og faðir! eg þakka þjer fyrir það, að þú hefur mig svo náðarsamlega verndað fyrir öllum skaða og háska hins vonda óvinar ásamt öllu skaðræði; þar fyrir segi eg þjer nú og alla tíma lof og þakkargjörð, biðjandi þig af hjarta að þú vildir nú þessari þinni gæzku náðarsamlega framhalda og aldrei bregðast láta. Eg bið þig náðarsamlega að fyrirgefa mjer allar mínar syndir, afbrot og misgjörðir, sem eg hefi gjört á móti þjer alla mína lífdaga, svo að eg, þveginn og hreinsaður í þíns sonar Jesú dýrmæta blóði, mætti þenna dag útenda. Ó, þú guðdómlega þrenning! þig ákalla eg, þig bið eg af öllu hjarta, að þú sjert með mjer á þessari komandi nóttu, svo að þegar líkaminn hvílist og sefur, þá mætti mitt hjarta vaka og þig alla tíma fyrir augum hafa, svo hinn vondi óvinur komi mjer ekki nærri, heldur að eg rósamlega hvíli og sofi undir þinni geymslu, og að eg mætti uppstanda á morgun glaðvær og með minni hegðan vera föðurnum, syninum og heilögum anda til þjónustu og þókknunar; og þá sú stundin að líð-

ur, að eg skal niður leggjast í mína hvílu í síðasta sinn, þá bið eg þig, minn Jesú! vertu minn styrkur og vert mjer nálægur með þínum alltmegnanda krapti, svo að eg í þínu trausti og fyrir krapt þinnar forþjenustu til eilífs lífs uppvakni! þessa bið eg þig af hjarta, bænheyr mig af þinni miskun og gæzku, minn Jesú! lofaður að eilífu! Amen.

## LAUGARDAGS - KVÖLD - BÆN.

Ó, þú miskunsami, náðugi Guð og faðir! þjer segi eg hjartanlegt lof og þakkargjörð, að þú hefur skapað dag og nótt, ljós og myrkur, og hefur ákvarðað daginn til erfiðis, en nóttina til hvíldar, svo að menn og skepnur megi hvílast og hressast. Eg lofa þig og prísa fyrir alla þína velgjörninga, einnig fyrir það, þú hefur látið mig þenna dag útenda og alla afliðna viku, fyrir þína guðdómlegu gæzku, vernd og varðveizlu, og látið hverki þessa dags nje viku þunga mig yfirvinna, þú hefur hjálpað mjer, líknsami faðir! að varpa armæðu sjerhvers dags af hjarta mínu. Eg þakka þjer fyrir allt það góða, sem eg hefi þegið af þinni föðurhendi á þessum degi; Drottinn! eg er þó úverðugur að þiggja alla þína miskun, sem þú veittir mjer í dag, og hefir veitt alla mína æfi. Eg þakka þjer og einnig fyrir það, að þú hefur forðað og frá mjer snúið öllu því illa, sem mjer hefði kunnað mein að vinna í dag og alla liðna viku. Þú hefur verndað mig undir skugga þíns almættis frá öllu íllu, frá hræðilegum dauða; svo bið eg þig nú af

sonarlegu ástargeði að fyrirgefa mjer allar mínar syndir sem eg hefi á þessum degi gjört á móti þínum heilagleika með hugrenningum, orðum og gjörðum. Margt íllt hefi eg gjört, enn margt gott forsómað, æ, vertu mjer náður, minn Guð! lát allar mínar syndir afmáðar undireins og eg útaf sofna, og veit, að eg megi upp aptur standa með guðrækni, góðfýsi og rjettlæti. Blessa þú minn svefn, svo sem þú blessaðir svefn forföðursins Jakobs, þá hann sá í draumi himnastigann og þá heilögu engla; blessa þú mig svo sem þú blessaðir hann; lát þú mig tala við þig í mínum draumum; lát mig ræða um þína miskun, nær eg legg mig til hvíldar, og þá eg uppvakna um þínar dásemdir, svo að þín minning sje ætíð í mínu hjarta. Lát mig ekki skelfast nje kvíða ógnunum næturinnar, heldur lát mig sofa og hvílast rósamlega; forða mjer við vondum draumum, fyrir eldsog vatns-voða, þú verndari Ísraels! sem ekki sefur og ekki syfjar; láttu þína heilögu engla vernda mig og mína frá allri ógæfu, og mig glaðan og heilbrigðan aptur uppvekja, svo eg sjái og viðkannist, að eg sje í fylgd og föruneyti þinna heilögu, og þá loksins mín síðasta stund að höndum kemur, þá lát mig sofna sáluhjálplegum svefni í míns endurlausnara Jesú Krists trausti. Guð faðir blessi mig og varðveiti mig; Guð sonur uppljómi sitt auglit yfir mjer, og veri mjer náðugur; Guð heilagur andi upplypti sínu augliti yfir mig, og gefi mjer frið, í Jesú nafni! Amen.

# Hátíða - og helgidaga-bænir.

## Bæn á fyrsta sunnudag í aðventu,

útlögð af
næturverði **Daða Níelssyni** fróða.

Mikli og hátignarfulli Guð! í byrjun þessa kyrkjuárs dirfumst vjer að tala við þig í þínu orði, þó að vjer sjeum dupt og mold, ó, að vjer gætum svo hafið vor hjörtu til þín, og að þau yrðu svo gagntekin af heilagri lotningu fyrir hátign þinni, að vjer værum þess verðugir, að mega tala við þig, að vjer gætum verið svo bljúgir og auðmjúkir vegna synda vorra, og þar af leiðandi blygðunar og vanvirðu, að vjer með sönnum iðrunar anda gætum talað við þig. En — æ! vor hjörtu vitna á móti oss, að vjer höfum látið þau meira hneigjast af vondum girndum, holdsins fýsnum og heimsins hverfulu gæðum, enn þínum sannleiks anda. Já, vjer höfum sjálfir hneigt þau og snúið þeim, hver á sinn hátt, afvega, fremur til fullnægju girndanna, og þess, sem heimurinn er fullur af, sem er vellysting holdsins og drambsamt líferni, heldur enn til þíns orðs, og þíns sannleika, sem þó er fullt af náðargæðum, og nytsamt til lærdóms. Lít þú til vor í náð, mildasti faðir! sjá þú vorn þekkingar brest, og gef oss næga þekkingu til að sjá vanvirðu vorra synda, og hvernig vjer eigum að betra oss. Fyrirgef oss allar syndir, sem fljóta af og fylgja vanþekkingu

vorri, stærri og smærri, vitanlegar og óvitanlegar, fyrir verðskuldun þíns kæra sonar, vors bróðurs, og láttu hans útrunna heilaga blóð svo friðþægja fyrir oss, að þú gjörir við oss eptir þinni náð, en ekki þínu stranga rjettlæti og vorum tilverknaði, því engin jarðnesk manneskja getur verið rjettlát fyrir þjer. Vjer færum, því miður! þá gömlu Adams syndaspillingu með oss inn í það nýbyrjaða kyrkjuár, en lát þú, mildi Jesú! þinn náðarkrapt, hneigja og hræra hjörtu vor, til þess, að taka sinnaskipti og betrast, svo að vjer endurnýjumst í anda vors hugskots, og verðum að nýjum og betri manneskjum, sem líkist Guði í sannleika, rjettlæti og heilagleika. Lát þessi ófrjófsömu trje, enn þá standa eitt ár, þangað til þú hefur grafið í kringum þau, og borið að mýki, ef þau gætu svo borið ávöxt, hreinsa hverja grein á þjer, þú sanna vínstrje, þá, sem ber ávöxt, svo að hún beri enn þá meiri ávöxt framvegis. Þú voldugi konungur í Síon, hneig þú öll hjörtu, í öllum kringumstæðum og öllum tilfellum, eptir þínum orðum, svo að þeir þverbrotnu verði iðrandi, þeir iðrandi trúaðir, þeir trúuðu staðfastir, þeir fáfróðu upplýsist, þeir efasömu sannfærist, þeir sjúku læknist, þeir veiku styrkist, þeir freistuðu fái hugsvölun, þeir hryggu verði huggaðir, og vjer allir endurnýjumst og betrumst, til að verða hæfilegir þegnar í þínu ríki, og þetta kyrkjuár verði þannig Drottins velþóknunar ár. Amen.

## Bæn á fyrsta sunnudag í aðventu,

samin af

sjera **Einari Thorlacius,**

presti til Saurbæjar í Eyjafirði.

Drottinn minn og Guð minn! þú sem hefur kennt oss í orði þínu að kalla þig þannig: vjer byrjum nú nýtt kyrkjuár í þínu nafni; ó, láttu það verða oss blessað náðarár frá Drottni! láttu það búa oss undir að fagna sem ber komu þinni til vor, svo vjer ekki þurfum að skelfast og kvíða komu þinni til dómsins; láttu oss fagna yfir því, að þú snýr að nýju ljósi þíns auglitis til vor í þínu lífsins orði, lát oss gleðjast við það, að þú, vor rjettlætis sól, vilt halda áfram að ljóma inn í sálir vorar og láta Guðsbirtuna skína kringum oss í skammdegis húmi þessa heims, svo það verði vel vegljóst á veginum, er vjer eigum að feta eptir þjer til þíns föðurs og vors föðurs á himnum. Vjer heyrum svo margar annarlegar og tælandi raustir í heiminum; æ! láttu þá þína blíðu hirðisraust láta svo fagurt í eyrum vorum, að vjer elskum hana og aðhyllumst eins og þeir, sem eptir langan útlegðar hrakning fá, að koma heim aptur í sitt föðurland og heyra þar sitt lengi eptirþreyða og indislega móðurmál, sem þú komst með ofan úr dýrð þinni, Drottinn og lærimeistari vor! það eptirskyldir þú oss í orði þínu fyrir ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta; æ! láttu það verða oss orð eilífs lífs, kröptugt fyrir trúna oss öllum til sáluhjálpar! láttu oss þekkja í því raust vors himneska ástvinar;

láttu oss hjartanlega gleðjast við það, að þessi blessaða raust hefur aptur samansafnað oss á þessu nýja kyrkjuári; að þú lætur það byrja nýja umferð, nýjan náðarhring og ítreka fyrir oss að nýju það, sem til vors friðar heyrir. Lát þú oss gleðjast yfir því, að þitt náðar- og sannleiks-orð er æ hið sama, þó allt annað breytist; að þú, Drottinn vor! ert enn með oss, eptir loforði þínu; já, að þú, herra Jesú Kristi! ert hinn sami í gær og í dag og eilíflega! Þetta sje vor gleði, er enginn fær af oss tekið á þessu nýbyrjaða kyrkjuári; þess vegna byrjum vjer það glaðir í þínu nafni; viljum allt á því gjöra og líða, sem oss er skylt og úthlutað í þínu nafni; viljum á því lifa og líka deyja, ef Guði vorum svo þóknast, í þínu nafni, í föðursins, sonarins og hins heilaga anda nafni! Amen.

---

## Bæn á jólum,

samin af

sjera **Einari Thorlacius,**

presti til Saurbæjar í Eyjafirði.

---

Lof og dýrð og óaflátanleg þakkargjörð sje þjer, eilífi kærleikans Guð og faðir! fyrir þá ljóss- og gleði-hátíð, er þú ljezt öllum heimsins ættkvíslum upprenna með fæðingu þíns eingetins og elskulega sonar Jesú Krists! hann, sem er ljós heimsins, geisli dýrðar þinnar og sönn ímynd guðdómsveru þinnar.

Eins og faðirinn beygir sig niður að sínu fallna barni, til að reisa það á fætur aptur, þannig hefur

þú, faðir miskunsemdanna! ekki einasta litið niður til vor af hásölum dýrðar þinnar, heldur hefur þú sjálfur vitjað vor í syninum og auglýst þig oss í honum sem föður kærleikans. Hjartkæri faðir! lofaður og vegsamaður sjert þú, fyrir þessa þína beztu gjöf, þessa hátíðlegu jólagjöf, sem kórónar, helgar og hátignar allar aðrar þínar góðar gjafir! Ó, ef þú hefðir átt nokkuð æðra og betra til, þá hefðir þú gefið oss það. Ó, hvað værum vjer, hver og einn, án þín, ó Jesú! þú heimsins líf og heimsins ljós, vort líf og vort ljós! vjer, sem erum í ætt við Guð og þó svo furðanlega háðir dauðlegleikanum og inniluktir undir syndinni. Ó Jesú! þú sem afklæddist þinni guðdóms tign og tókst á þig þjóns mynd. Þú himneski gestur, þú dýrmæti frelsari og friðþægjari allra, sem meðtaka þig í trúnni og elska þína tilkomu: velkominn vert þú oss, vor blóðtengdi bróðir! þú blessaða Jesú-barnið! velkominn ver þú í vor vesælu hús og hjörtu. Værir þú enn þá dálítið barn, þá vildum vjer bera þig í faðmi vorum, nú viljum vjer tilbúa þjer vistarveru í hjörtum vorum, þar vilt þú, góði Jesú! búa fyrir trúna, og þú skalt ekki einasta vera gestur, heldur konungur hjartna vorra. Þú einn skalt drottna þar yfir oss. Ó þú, sem sjálfur fæddist í fátækt svo hóvær og af hjarta lítillátur, þú munt ekki fyrirlíta vora andlegu fátækt, vora ófullkomnu tilbeiðslu, vort veika barnakvak. Þú munt ekki ganga fram hjá neinu eymdar inni, sem ákallar þitt heilaga nafn. Þú getur verið oss

öllum allt, því í þjer býr öll fylling guðdómsins. Þú hefur nóg til handa öllum, þú heilagi Guðs! nóga náð í heiminum, nóga sælu á himninum, því þjer er gefið allt vald bæði á himni og jörðu. Fæðst þú enn í dag inn í allra vor hjörtu; því árangurslaust ljómar þessi ljóss-hátíð yfir oss útvortis, nema Guðsbirtan þinnar dyggðar og dýrðar ljómi inn í hjörtu vor og ljómi aptur út frá þeim yfir allan lífsferil vorn. Ó, lát þú því, heilagi og helgandi andi Guðs! þessa blessuðu barnanna hátíð gjöra oss, fyrir bróðerni vors nýfædda Frelsara, að sannarlegum Guðs börnum. Ó þú, sem yfirgafst dýrð þína og gjörðist oss í öllu líkur, að undantekinni syndinni; þú, sem gjörðist líkur oss í kjörum fæðingarinnar, í veikleika barnæskunnar, í nauðþurftum og freistingum lífsins: lát þetta sannfæra oss um það, að þess vegna getur þú sampínst öllum eymdum vorum. Lát oss alla vera glaða í þjer í dag, því í dag ert þú fæddur oss; í dag er það augljóst orðið hvað Guð er: að hann er kærleikurinn, í dag er það einnig augljóst vorðið hvað ákvörðun mannsins er: að vjer skulum verða Jesú líkir. Ó, hver gleði er því sem vor gleði! hvern fagnaðar boðskap gat engill Drottins fært oss betri? Ó, kenn oss, hjálpa oss, allsherjar Guð og Drottinn! verðuglega að vegsama þig með hinum himnesku hirðsveitum fyrir þetta þitt mikla dásemdar undur, þetta þitt mesta miskunarverk, að þú gafst oss soninn. Lát öll jólaljósin ljóma honum til dýrðar. Lát hvert hjarta vera

hans velþókknanlegt musteri. Lát hvert Guðshús verða æ fyllra og fagurskipaðra af þeim, sem tilbiðja hinn eina og sanna Guð í anda og sannleika. Ó, þú faðir vors Drottins Jesú Krists, þú friðþægði faðir vor allra í honum og fyrir hann; æ! hjálpa þú oss að lifa, líða og sigra í trúnni á Guð, opinberaðan í mannlegu holdi. Láttu það vera vora óbifanlegu trú og lífsætu von á öllum vorum útlegðar vegi: að þú sem gafst oss soninn, munt vissulega gefa oss allt gott með honum. Æ! bænheyr þú oss um þetta, þú sem að ert Guð yfir öllu blessaður að eilífu! Amen.

---

## Bæn á nýársdag,

samin af

sjera **Jóni** sál. **Arngrímssyni**,

fyrrum presti að Borg á Mýrum.

---

Ó, þú óendanlega góði og miskunsami Guð! þú herra tímans og eilífðarinnar! þú faðir yfir allt það, sem börn kallast á himni og jörðu! hversu óðfluga líða vorir hjervistar-dagar á jörðunni; já, eins og vatnsstraumur líða þeir í burtu þangað til eilífðin tekur við, sem aldrei þrýtur. Vjer þínar syndugar skepnur, höfum nú undir þinni náðarríku varatekt útendað eitt ár, sem aldrei aptur kemur, vjer erum nú um eitt markvert fótmál fram fluttir að þeim miklu tímans og eilfðarinnar aldamótnm, sem upp frá því ákvarða munu óumbreytanleg kjör vor allra. Ó! hversu auðmjúkir, hljúgir og lotningarfullir meigum vjer nú ekki fram-

koma fyrir þig, þegar vjer athugum þá merkilegu dagferð lífs vors, sem vjer enduðum í gær; hversu óteljandi óverðskuldaðar velgjörðir hefur þú ekki auðsýnt oss árið sem leið. Vjer viðurkennum það, eilífi miskunari! að þú allt hingað til hefur reynst hverjum af oss sem nærgætinn, góður faðir, er héfur viljað laða oss til að elska þig og þókknast þjer; þínar dýrmætu velgjörðir, sem eru allt eins óverðskuldaðar, eins og þær eru óteljandi, hafa verið nýjar og ferskar yfir oss á hverjum dags morgni árið sem útrann í gær, rjett eins og vjer, með guðhræðslu og sífeldum framförum í því góða, hefðum allt þetta af þjer verðskuldað; já, ekki að eins hefur þú, þolinmóði, góði faðir! hlíft oss við maklegu synda-straffi, stríði, hallæri og næmum sjúkdómum, heldur þar að auk gefið oss hinn æskilegasta frið, líkamans heilbrigði og allt það, sem vjer höfum þurft við til líkamans viðurhalds, og ofan á allt þetta hefur þú sýnt oss þann ómetanlegasta velgjörning, sem yfirgengur allt annað; þitt heilaga lífsins orð hefur þú gefið oss til aðvörunar við löstum og til upphvatningar til dyggðanna, í því hefur þú framboðið oss öllum alla þá gæzku og náð, er þú hefur frá eilífð fyrirhugað oss í þínum elskulega syni, er þú sendir af himnum ofan til að útvega oss, alls góðs ómaklegum, eilífa himnaríkis gleði með sjálfam þjer; æ! hversu illa höfum vjer endurgoldið þessa náð þína! svo opt höfum vjer daufheyrst við þína heilaga orðs náðarraustu, svo opt verið óánægðir með það

hlutskipti, er þú úthlutaðir oss af gæzku þinni árið sem leið; svo margt höfum vjer vanrækt af því góða, og svo margt drýgt af því vonda, að vjer nú blygðunarfullir meðkenna meigum, að vjer ekki brúkað höfum árið umliðna eins og vera bar. En þó vjer sjeum alls góðs af þjer ómaklegir, þá eru þó vor einka úrræði, að flýja allir samhuga undir þíns verðleika skjól, vor nýfæddi Immanúel! sem í fæðingu þinni ert orðinn vor bróðir; láttu ekki þína náð við oss óverðuga enda taka, auk því nú við alla þína gæzku, trúfesti og velgjörðir, að fyrirgefa oss allar afliðna árs syndirnar; þú, góði Guð! hefur lofað að sýna syndaranum vægð og náð, þegar hann af hjarta snýr sjer til þín; þess vegna, í krapti þíns sonar, vors bróðurs Jesú, náðarríku fyrirbónar! lát oss enn þá eitt ár standa óupprætta í þínum aldingarði, svo vjer bera mættum mikinn ávöxt; gefðu oss enn þá eitt náðar, eitt blessunar, eitt umvendunarár í Jesú nafni! Vjer felum oss nú hughraustir með lífi og sálu og öllum efnum á þitt bezta forsjónar vald; ef þetta ár skyldi nú verða vort síðasta, þá verði þinn vilji; ef þú villt láta oss á því sorg og mótlæti, sótt og dauða í skaut falla, þá verði þinn vilji! Æ, þú bregzt þeim aldrei er á þig vona! hingað til hefur þú svo náðarsamlega borið umhyggju fyrir oss, þessvegna munt þú enn þá vera oss hinn sami trúfasti vinur og leiðtogi gegnum lífið inn í þína eilífu dýrð! æ, með þessari glöðu von byrjum vjer nú þetta nýja ár öruggir í Jesú nafni! Amen.

# Föstubæn,

útlögð af

sjera **Jóni Thorlacius**

presti til Miklagarðs og Hóla í Eyjafirði.

---

Ó þú, sem hefur gefið meir enn gull og silfur fyrir oss, þú sem útgafst þína sálu í Getsemane, og þitt líf á Golgatha: sjá, hvað vjer viljum nú aptur á mót bjóða og gefa þjer fyrir þvílíka elsku; meðtaktu vort hjarta, meðtaktu sjálfa oss, ó Jesú! þú, sem ekki áleitst þig ofdýrmætan handa oss, því skyldum vjer álíta oss ofdýrmæta handa þjer? Æ nei! vjer gefum og afhendum oss alla þjer, taktu því á móti oss á hvern helzt hátt sem þú villt; og þó þú krefðist þess, að þessi þakklætis-fórn skyldi ádreifast með vorum tárum, voru blóði, þá viljum vjer færa þjer hana, Drottinn! og þinn kraptur mun ekki bregðast oss. En þú, sem þekkir alla hluti, þú, sem veitst hvað með manninum býr, þú veitst einnig, Drottinn! hvernig einn tekur það aptur, sem hann hefur þó gefið þjer á heilögum tíma; þú veitst, hvernig annar gefur þjer ekki í sannleika sjálfan sig, heldur vildi að eins, að hann gæti gjört það; þú veitst, hvernig hinn þriðji — ó þú þekkir langtum fleiri — þú veitst, hvernig hann hefur ekki einu sinni viljann, eður það er þá, vitanlega eður óvitanlega, með mikilli takmörkun, skilyrði og undanþágu. Ó þú, hvers augu að Sjáandinn sá, sem skærasta elsloga; ó þú, hvers augna-tillit snart sem skeyti hjarta hins ótrúa lærisveins: vjer biðj-

um þig, einn og sjerhver, Drottinn vor og Guð vor! — því vjer þurfum þess allir við — að þú látir hið tvíeggjaða sverðið orðsins þíns, og hið sjónskarpa augnaljósið alvitúrleika þíns, klökkva, hræra og knýja svo á hjörtu vor og hugskot, að þau liggi jafn ber og nakin fyrir sjálfum oss, eins og fyrir þjer, svo vjer sjáum, hvort þinn ótti og elska lifir, bærist og iðjar í oss, eður ekki. Æ, láttu yfirvegan pínu og dauða þíns saklausa Sonar hafa þá heilsusamlegu og helgandi verkun á vorn innra mann, að vjer getum sagt, og sætlega fundið til þess með postulanum, að vjer lifum, þó ekki vjer, heldur að Kristur lifi í oss!

Ó þú, sem ert krossfestur í veikleika. en ríkir í krapti, bænheyr þú oss, vegna þinnar heilögu verðskuldunar! Amen.

---

## Föstubæn,

útlögð af

sjera **Jóni Torlacius**

presti til Miklagarðs og Hóla í Eyjafirði.

---

Ó, Drottinn Jesú! þú saklausa Guðs lamb, sem barst syndir heimsins, eptir ráði og vilja þíns og vors Föðurs, þú, sem varst krossfestur í veikleika, en ríkir í krapti! þú hefur friðþægt oss við þinn himneska Föður, ekki að eins með þinni hlýðni, heldur einnig með þinni sáru pínu og kvalafulla dauða. Vjer þökkum þjer fyrir þinn eilífa kærleika, sem leiddi vor vegna yfir þig þvílíka óút-

málanlega kvöl og óverðskuldaðan dauða, sem þú afrekaðir oss með eilíft rjettlæti, líf og sáluhjálp: ó, að vjer værum innilega þakklátir fyrir þenna þinn ómetanlega velgjörning. Gef oss til þess þinn heilaga Anda, sem láti oss, með orðsins krapti, þekkja og viðurkenna þessa þína elsku og beisku kvalir oss til frelsis. Hreinsa þú hjörtu vor frá öllu heimslegu og holdlegu, sem hindrar hjá oss verkanir þíns helgandi Anda. Láttu ekkert, á þessum sáluvekjandi tíma, gjöra oss óhæfilega til þess, sem er áríðandi til frelsis vorra svo dýrkeyptu sálna. Kenn þú oss, innst í fylsnum hjarta vors, að sjá í pínu þinni þíns himneska Föðurs rjettlátu reiði gegn syndinni; já, hvað skelfileg að syndin er, sem olli þjer svo mikillar mæðu og ómræðilegra kvala, svo að vjer fáum hatur á öllu, sem var skuld í kvölum þínum, en í oss vakni og viðhaldist sáluhjálplegt angur og iðran yfir syndum vorum. Ó, láttu það aldrei ske, að vjer krossfestum þig að nýju með syndum vorum, heldur vek og kveik þú í oss þá iðran, sem er eptir þínu geði, og sem verkar aptuthvarf til sáluhjálpar hvers engan iðrar. En láttu oss jafnframt í pínu þinni sjá inn í hjarta þíns og vors himneska Föðurs, hversu heitt hann elskar oss, þegar hann útgaf þig fyrir oss. Láttu oss, í sannleiks-ljósi þíns heilaga Anda, þekkja þann heilaga ávöxt þinnar friðþægingar, sem hin beiska rót þinnar bitru pínu hefur borið í guðdómlegum krapti, sem er rjettlætið, lífið og sáluhjálpin; og láttu þessa

blessan eflast og aukast í sálum vorum fyrir trúna. Láttu einnig þitt heilaga dæmi ljóma þannig út frá pínu þinni, að vjer ekki einungis lofum þig með munni vorum, heldur að vjer eptirfylgjum þjer í breytni vorri, með fúsri hlýðni, í brennandi og óskabarnalegri bæn, í innilegu trúnaðartrausti á Guði, í ávaxtarsömum kærleika, í auðmjúkri þolinmæði í hræsnislausri mannelsku og umburðarlyndi. Kenn þú oss, af því vjer erum þín dýrt endurkeypt eign, að deyja frá vorum vilja, en lifa í öllu eptir þínum vilja, og geta orðið, af innilegasta þakklæti, lifandi og Guði velþóknanleg fórn. Já, gef pínu þinni þann krapt, sem geti deyðt vort hold, með þess tælandi girndum og tilhneigingum, en sem þar á móti styrki, lífgi og helgi vorn innra mann. Og þegar vort eigið dauðastríð og dauðastund nálgast, þá virðst þú að helga það vjer líðum með því, sem þú leiðst; svipt þá dauða vorn broddi sínum, og lát oss sætlega sofna, vegna dauða þíns, og fá að ganga með þjer frá dauðanum til lífsins, inn í þá dýrð, sem þú útvegaðir oss, svo vjer fáum eilíflega lofað þig, og verið þjer til dýrðar í dýrðarríki þínu. Bænheyr oss, Drottinn og Frelsari vor! fyrir þína pínu og dauða; og láttu, himneski Faðir! hina sælu ávexti pínu Sonar þíns hrína á oss, og þinn heilaga Anda gjöra oss vegsamlega í honum, og hann í oss!

Amen, í Jesú nafni! Amen.

## Bæn á boðunardag Maríu.

Ó, þú ljómi Föðursins dýrðar, og ímynd hans guðdómlegu veru, Drottinn Jesú; þú, sem ert vor sanni Guð og eilífa líf! vjer, þínir bræður eptir manndóminum tilbiðjum þig í auðmjúkustu lotningu, þú, sem ert tilbeðinn af öllum heilögum englum; já, vjer tilbiðjum Guð í þjer. Lofaður og blessaður vertu, Skapari alls ens skapta, sem ber alla hluti með orði þíns kraptar, og viðheldur öllu með þínu almætti; já, vjer lifum, hrærumst og erum í þjer, í þínum allstaðar veranda og allt uppfyllanda guðdómi. Ó, gefðu oss, að skynja rjettilega þann heiður, sem oss er veittur í því, að þú tókst á þig vorn manndóm; ó, það hvetji oss þess framar að líkjast og þóknast þínu guðdómlega rjettlæti, heilagleika og kærleika, sem þú í þínu niðurlægingar - standi líktist meir vors manneðlis meðskapta ófullkomleika; svo vort manneðli mætti á síðan fyrir þig hefjast til allrar mögulegrar hluttekningar þeirrar sælu, sem þínum manndómi er miðlað af guðdóminum. Þá fyrst fáum vjer þekkt þig eins og þú ert, eptir sameiningu þíns guðdóms og manndóms, sem oss verður ávalt ráðgáta í þessu lífi, og dýrkað þig þeirri dýrkan, sem enginn holdlegur vansi fylgir í ímyndaninni, engin vanrækt í framkvæmdinni, og enginn brestur í ávöxtunum; heldur munum vjer þá, englum líkir, sjá þig og dýrka í himnesku ljósi eilíflega. Æ, unn oss þessa, Drottinn Jesú! sakir þinnar guðdómlegu elsku til vor, þinna holdgetinna bræðra! Amen.

## Bæn á Skírdag.

Lofaður og blessaður vertu, Drottinn Jesú Kristi! fyrir innsetningu þinnar heilögu kvöldmáltíðar, er þú stofnsettir á þessum degi, og gafst þinni kristilegri kyrkju sem annan tryggða-pant, þegar þú ætlaðir að skilja við hana, að sýnilegum návistum, í heimi þessum. Ó, hversu dýrmætt minnismerki og óviðjafnanleg ímynd sjálfs þíns má ekki þessi blessaða máltíð vera oss! því eins og öll fylling, guðdómsins bjó í þjer líkamlega, þótt hún virtist lítilfjörleg fyrir manna augum, eins trúum vjer því, að í þessari þinni máltíð búi himneskir hlutir undir útvortis lítilvægum sýnilegum meðölum; svo trú vor á þinn guðdóm mitt í manndóminum, og á þeim manndóm vegna íbúðar guðdómsins í honum líkamlega, má, við nautn hennar, bæði iðkast og styrkjast; iðkast við opt ítrekaða hátíðlega ímyndun þinnar algildu friðþægingar-fórnar fyrir syndir vorar; en styrkjast við nautn þess meðals, sem er jafn kröptugt til að fullvissa oss um þinn kærleika til vor, sem til þess að kveikja hjá oss hreinan kærleika til þín aptur á móti. Æ, gefðu oss þá, blessaði Frelsari! náð þíns heilaga Anda til þess, að geta borið viðlíka virðingu innvortis fyrir þjer, í þessari þinni minningarmáltíð, sem vjer vildum bera fyrir þjer, ef vjer fengjum að sjá þig með líkamlegum augum; því ef vjer tíðkum rjettilega þessa þína máltíð, má það verða oss að sömu sáluhjálpar-notum, sem að fá sýnilega að sitja og gráta við þínar blessuðu fætur, eins og hin bersynduga forðum daga (Lúk.

7, 37—38); sem að grípa með líkamlegri hendi í þinn klæðafald, eins og hin blóðfallssjúka (Lúk. 8, 43); sem að herbergja þig í húsi voru á líkamlegan hátt, eins og Zakkeus (Lúk. 19, 9); já, sem það, að þreifa með líkamlegri hendi á þínum píslarsárum, eins og lærisveinn þinn Tómas (Jóh. 20, 27); svo vjer getum þá, frá oss numdir eins og hann, kallað til þín í trúaðri tilbeiðslu: „Drottinn minn og Guð minn!“ Æ, veittu oss að finna til þess í þessari þinni heilögu kærleiks-máltíð, hve sætur og ljúfur þú ert, já, að geta í anda fundið þar til þeirrar sælu í hjarta voru, sem þeir eiga í vændum, er sitja munu til borðs með Abraham, Ísak og Jakob, í ríki himnanna (Matt. 8, 11). Gefðu oss að geta eins sannarlega etið og drukkið þitt hold og blóð innvortis með munni trúarinnar, eins og vjer neytum hins helgaða brauðsins og vínsins útvortis með munni líkamans, í þína minningu. Láttú þessa himnesku fæðu jafn kröptuglega styrkja vorn innra mann á vegferð vorri gegnum eyðimörku þessa heims, til ens himneska Zíons-fjallsins, eins og fæða sú styrkti spámanninn Elías fyr meir, sem engillinn færði honum á flóttaferð hans til fjallsins Hóreb (1. Kgb. 19, 8). Æ, kom þú þá, vor himneski rjettlætis-Konungur, Drottinn Jesú Kristi! Kom þá móti oss, og — eptir það þú hefur satt oss með brauði og víni náðarmáltíðar þinnar hjer í lífi — æ, legg þá þína blessan yfir oss, sem vjer viljum þá endurgjalda þjer með skyldugri þakklætis-fórn eilíflega. Æ, heyr oss og bænheyr um þetta, vor

guðdómlegi Frelsari! vegna þíns kærleika til vor og umhyggju fyrir sálum vorum! Amen.

---

## Bæn á Skírdag.

samin af

sjera **Einari Thorlacius,**

presti til Saurbæjar í Eyjafirði.

---

Ó hve opt og innilega bíður þú oss að koma til þín, Drottinn vor Frelsari og Sáluhjálpari! til að öðlast hjá þjer hvíld óg endurnæringu handa vorum hreldu og þunga þjáðu sálum. Þú útilokar engan frá þínum miskunar-faðmi. Þú hefur lofað að reka engan frá þjer, sem til þín kemur. Þú vilt virðast til að vera þar mitt á meðal, hvar tveir eða þrír eru saman komnir í þínu nafni. Já, þó það væri ekki utan einn, sem vildi elska þig og halda þín orð, þá vilt þú, með þínum himneska Föður, til hans koma og vistarveru hjá honum gjöra.

Þú samansafnaðir þínum fáu ástvinum umhverfis þig á þínu síðasta æfikvöldi þú gjörðir þá ógleymanlega endurminningar máltíð elsku þinnar og þinnar friðþægjandi pínu og dauða. Þú gafst öllum sjálfan þig, sem elska þig og trúa á þig. Þú gafst oss öllum kristnum mönnum þitt hold að eta og þitt blóð að drekka. Alla þína veru og verðskuldan gafst þú oss. Ó hve innilega hve yndislega vilt þú þar sameinast oss, svo að þú getir orðið eitt með oss og vjer eitt með þjer, eins og þú og faðirinn eruð eitt. Þessa baðst þú svo heitt þinn himn-

eska föður í þinni síðustu hjartnæmu bæn. Vjer finnum viðkvæmt til þess, Frelsari vor! að hjá þjer er gott að vera. Til þess finnum vjer bezt og blíðast þegar vjer krjúpum niður að altari friðþægingarinnar, að hinum andlega náðarstólnum, hvar trúin meðtekur þig í meðölum náðarinnar, meðtekur og tileinkar sjer alla þína verðskuldan, allan krapt þinnar friðþægjandi pínu og dauða, já, meðtekur þig sjálfan til fyrirgefningar syndanna! ó, gef oss að minnast þessa verðuglega, að minnast þín með elsku trú hlýðni og sáluhjálplegri von! lát oss þá minnast þess, að vjer erum þar ekki einasta hjá þjer, í þínu húsi, heldur gestir við Guðs borð, hvar allir náðar velgjörningar Guðs í Jesú Kritsó eru framreiddir oss. Ó! allt gott er þá til reiðu handa oss; æ! að vjer hefðum þá einnig allt til reiðu handa þjer; allt vort hjarta ofurgefið þjer í trú, hlýðni og kærleika! lát oss aldrei gleyma þjer, aldrei slíta oss úr þinni sameiningu, aldrei afneita þjer nje frá þjer falla, því þú einn hefur orð eilífs lífs; í þjer einum er lífið og sáluhjálpin. Vertu hjá oss Drottinn! vjer viljum vera hjá þjer, vjer viljum fá að hvíla við þitt bróðurlega brjóst, svo vjer öðlumst andlegan krapt til að bera krossinn eptir þjer til að vera hlýðnir, trúir og þolinmóðir eins og þú allt til dauðans. Vjer viljum halda heilaga minningu, pínu og dauða Drottins vors þángað til hann kemur að kalla oss uppí dýrðina til sín. Vjer viljum meðtaka brauðið og svala oss á kaleiknum, sem þú lætur rjetta að oss Drottinn vor! og trúum því óefanlega, að vjer meðtökum þar

sjálfan þig, oss til rjettlætis, vísdóms, helgunar og endurlausnar. Ó! lát oss æ verðugar og verðugar; æ betur og þjer velþóknanlegar vera þína borðgesti, þegar vjer meðtökum brauð lífsins og kalleik friðþægingarinnar, kaleik hins nýja náðarsáttmálans í þínu blóði, til fyrirgefningar syndanna! Og loksins þegar vor þreytta sál er ferðbúin að flögta úr sínu líkamlega hreysi, gef oss þá þessa lífsætu rjetti fyrir veganesti; gef oss þá sjálfan þig fyrir leiðtoga og Frelsara í gegnum hinn dimma dauðans dal, unz vjer fáum að drekka af nýjum vínviðar ávexti með sjálfam þjer í dýrðinni þíns Föðurs og vors Föðurs. Bænheyr oss, guðdómlegi Frelsari! fyrir sakir alls, sem þú leiðst og gjörðir fyrir oss, þína dýrt endurkeyptu frelsingja! Amen.

---

## Bæn á Föstudaginn langa,

samin af

sjera **Einari Thorlacius,**

presti til Saurbæjar í Eyjafirði.

---

Vjer höfum þá í dag leitað oss athvarfs og hælis undir krossi þínum, Frelsari vor! Vjer sjáum þar hina grátlegustu sjón, að þú, hinn saklausi og alleina rjettláti, mátt þar kraminn og krossfestur kveina og kvarta undan syndaranna miskunarlausu meðferð á þjer, já, mátt þar bera vorar og alls heimsins syndir, þegar þú, sem ekki vissir af synd, varst gjörður að syndafórn fyrir oss. Vjer sjáum þig þar, einasta lífið og lífs vonin vor, útgefa lífið

fyrir oss. Vjer sjáum þig þar, ljós heimsins, hulinn myrkrum dauðans. Vjer sjáum þar makt myrkranna beita sínu guðlausa veldi gegn þjer. Vjer sjáum þar gjörvalla náttúruna hylja sig myrkrum, svo enginn sólargeisli gat lýst lengur yfir Golgatha. Vjer sjáum þar hið mesta undur, sem skeð hefur í tímanum: að Sonur Guðs deyr á einum krossi. Ó þú fjall dauðans! hvers kross er það, sem þú ber? hvers blóð er það. sem drýpur niður á þig? Ó! það er blóðið Jesú Guðs Sonar, sem hreinsar oss af öllum vorum syndum. Ó hvað sjón þessi verður oss þá aumum syndurum huggunarsamleg! oss, sem hvergi finnum sálum vorum hvíld tilreidda, fyr enn vjer nemum staðar hjá þjer, sem dóst fyrir syndir vorar, og uppreist oss til rjettlætis; fyr enn vjer sjáum náð hins friðþægða rjettlætisins gullstafa niður til vor, frá Jesú krossi og innhella friði Guðs í vor sundurknosuðu hjörtu. Blessaður sjert þú, Frelsari vor! fyrir þá heilögu kærleikans fórn, sem þú, eilífi æðsti prestur! frambarst vor vegna fyrir Guð með sjálfum þjer! Ó, gef oss náð, tíð og krapt að fórna þjer aptur á mót öllum oss, að deyja frá því, sem deyddi þig, sem er syndin, en lifa í Guðs vors sameiningu og velþóknan; þá verður dauði vor eins og þinn, inngangur frá dauðanum til lífsins, frá myrkrunum til ljóssins, frá líðan og stríði til dýrðar og sælu.

Ó, þar eð þú hlautst að líða þetta og inganga svo í þína dýrð, saklausi og heilagi bróðir! Æ, því skyldum vjer þá ekki miklu framar syndar-

arnir hljóta gegnum margskyns hörmungar að inn-ganga í Guðs ríki? Lát þetta innblása oss óbif-anlegri þolinmæði. Lát oss ætíð líta upp til þín á krossinum, hvar þessi orð í mannraunum vorum átakanlegast áminna oss: lærið af mjer! og lát oss síðan líta frá Golhatha upp til þín í dýrðinni við Guðs Föðurs hægri hönd, svo vjer sjáum hvert leið þeirra liggur, sem hjer hafa með þjer, ó Jesú! barist góðri baráttu og sigrað undir þínum merkj-um. Ó, fögur er nú kóróna þín, dýrðkrýndi Kon-ungur kristni þinnar! og þú hefur einnig lofað oss fögrum sigurkransi, sem með þjer líðum og stríð-um; æ! gef oss þína guðdómlegu náðar aðstoð til þess, að vjer fáum sælan sigur úr býtum borið og hið eptirkeppta hnossið höndlað! Amen.

---

## Bæn á Páskum.

samin af

sjera **Einari Thorlacius,**

presti til Saurbæjar í Eyjafirði.

---

**L**ofaður sjert þú, eilífi lífsins og ljóssins Faðir! sem útleiddir af gröfinni hinn mikla hirðir sauð-anna Drottinn vorn Jesúm Krist! lofaður og veg-samaður sjert þú, mikli Guð! sem hefur endurfætt oss til lifandi vonar fyrir upprisu Jesú Krists frá dauðum! þú gefur oss eina ljóss-hátíð annari ljóma fegri; þú hefur með upprisu þíns sigurfræga Son-ar velt öllum þunganum af hjörtum vorum; svo inní þau ljómar nú eintómis gleði ljós frá hans

opnuðu gröf. Broddur dauðans er nú brotinn, myrkur grafarinnar er nú horfið, lífið og ódauðleikinn er nú leiðt í ljós, með þessari sigurhróss-hátíð vors guðdómlega lífsins hertoga er það fullsannað; að þú, Faðir hans og vor! ert mikill Guð í ráðum og máttugur í athöfnum. Ó þú gleðilega lífs og ljóss hátíð! hvernig getum vjer haldið þig verðuglega. nema gjörvallur hugur vor nemi staðar hjá þjer, Drottinn dýrðarinnar! Æ! helgaðu til þess hjarta vort, upplýstu til þess skilning vorn, gjör þú reiðubúinn til þess anda vorn, láttu oss leggja það á hjarta í dag, að öll vor lífs- og sáluhjálpar-von er innsigluð með þinni dýrðlegu upprisu. Án hennar væri trú vor ónýt; án hennar værum vjer enn þá í syndum vorum; án hennar ættum vjer engan sælan sunnudag, helgaðan dýrð og dýrkun Drottins vors, já, án hennar hefðum vjer enga óbrygðula von; því án upprisu Jesú Krists frá dauðum væri ekki orð hins eilífa lífsins komið til vor. Nú ljómar það æ síðan inní hjörtu vor og útum allan heiminn. Nú er það æ síðan sá lífs- og gleði-brunnur, sem sprettur upp til eilífs lífs. Nú er það fullsannað, sem oss öllum mest á ríður: að þú, ó Jesú! dóst fyrir syndir vorar og ert upprisinn oss til rjettlætis. Nú er það fullsannað, sem oss alla mest gleður: að Guð er vor friðþægði Faðir; að oss er opnaður nýr og sáluhjálplegur vegur að föðurhjartanu á himnum og að Guð var í Kristi og friðþægði heiminn við sjálfan sig fyrir Soninn. Nú er það einnig ljóst sem sólin: að þú, ó Jesú! ert uppris-

an og lífið. Þínir hátíðaklæddu ljóssenglar hafa ekki einasta boðað oss að þú lifir, heldur hefur þú sjálfur sagt, himneski sannleikans munnur: eg lifi, og þjer skuluð lifa, já, skulu lifa hjá þjer og öllum þínum endurleystu, óútsegjanlega sælir í dýrð þinni. Ó, veri því þessi þín blessaða upprisuhátíð innsiglað himnabrjef fyrir hinni óforgengilegu, óflekkuðu og óvisnanlegu arfleifð, sem geymist Guðs börnum á himnum. Veri hún sú óformyrkvanlega sól, sem uppljómi fyrir oss allt, sem er myrkt og ráðgátufullt í lífi þessu. Veri hún oss himneskt já og amen frá honum, sem drottnar í hæðstum hæðum, upp á allt, sem orð Guðs kunngjörir og lofar oss, upp á allt, sem þú, ó Jesú! hefur afrekað oss. Veri hún rjett sem signetshringur á hendi hins haldinnorða Guðs, sem fullvissi oss um það: að þú, sem hefur lífið í sjálfum þjer, og gefur lífið hverjum sem þú villt, viljir leiða alla með þjer, sem á þig trúa og þjer trúlyndir eptirfylgja, gegnum dauðann til lífsins; já, að þú viljir gjöra alla, sem þolinmóðlega með þjer líða, óumræðanlega dýrðlega með þjer. Ó, hjarta vort á ekki nóg rúm fyrir alla þá gleði, sem inní það útstreymir frá þinni opnuðu gröf, Drottinn vor og Guð vor! Sála vor er gagntekin af undrun og tilbiður þitt heilaga nafn með ununarfyllstu gleði og innilegustu þakkargjörð. Æ, lát oss aldrei gleyma því, að þú birtist ekki utan vinum þínum eptir upprisu þína; þess vegna hafa engir aðrir not af hennar lífsætu ávöxtum, utan þeir, sem trúa og treysta orðum þínum, elska

og aðhyllast þig, sem sinn sálar ástvin og Frelsara, tilbiðja þig sem sinn Guð og Drottinn og eru hollir og dyggir þegnar í ríki þínu. Vjer viljum því einkanlega biðja þig um það í dag, himneski Faðir! að þú með þínum heilaga anda viljir upplýsa svo sálir vorar, að vjer fáum rjettilega þekkt krapt Jesú Krists upprisu, svo að vjer með því mættum styrkvir og stöðugir verða í sannri og lifandi trú til eilífs lífs. Ó þú ljós, sem ljómar fram af myrkrinu; ó þú líf, sem fram gengur af gröfinni; ó þú Frelsari mannkynsins, sam sigraðir dauðann; ó þú ljós, líf, Frelsari! tak þjer bústað í hjörtum vorum, því þau eru þín eign! Amen.

---

## Bæn á hinn almenna bænadag,

samin af
sjera **Einari Thorlacius**
presti til Saurbæjar í Eyjafyrði.

---

Ó þú mikli og miskunsami Guð feðra vorra, „þú ert miskunsamur og líknsamur Guð, þolinmóður, gæzkuríkur og trúfastur.“ (2. Mós. b. 34, 6.). Þín miskunsemi varir í þúsund liðu við þá, sem þig óttast og þín boðorð varðveita, þess vegna erum vjer nú niðurkropnir að þínum miskunar fótum, á þessum almenna bæna- og betrunar-degi, til að biðja fyrir sjálfum oss og öðrum. Vjer höfum svo margt að gjöra yfirbót á, svo margt að biðja um, svo margt að þakka fyrir. Hjarta vort úthellir sjer í bæn fyrir þjer miskunsami Guð! fyr-

ir bræðrum vorum og systrum og ástvinum nær og fjær. Kærleikans Guð og Faðir! minnstu þeirra allra til hins bezta. Láttu þinn heilaga og helgandi Anda, anda eindrægnis og friðar, anda sannleika og rjettlættis, anda ráðs og styrkleika, hvíla yfir voru kæra Föðurlandi, yfir sjálfum oss og öllum vorum samendurleystu bræðrum. Ó, komi hann með sinn blíða himna blæ inní allra hjörtu og híbýli! þú sem hefur lofað að betrunar fús bæn skuli fá sigrað þig, — ó, virstu einnig að láta bænir vorar geta sigrað þig. Tak þú í þína almáttugu vernd og varatekt vort eigið fátæka og fáliðaða land og gjörvalt föðurlandið; — og skyldu nú þær syndir, sem land vort hefur drýgt, og, sem vjer einnig erum samsekir í, egna þig til enn meiri hefndar, ó, svo heyrðu nú, ó Guð! þá iðrunar bæn, sem uppstígur fyrir þig í dag frá svo mörgum hjörtum og helgidómum, og láttu þær blíðka þína hegnandi hönd. Refsaðu oss ekki í þinni rjettlátu reiði með óáran, stríði, landplágum nje hallæri, fyrir vorra synda skuld. Þú hefur kjör vors lífs i þinni almáttugu hendi; kenn oss hæði af þínum typtunum og þínum velgjörðum að geta þekkt þitt föðurhjarta. Náð og friður af Guði Föður, vegna Jesú Krists, í sameiningu Andans, sje yfir gjörvallri hinni kristilegu kyrkju! Verndaðu þann konung, sem þú af náð þinni hefur gefið oss. Blessa þú hann með oss og oss með honum; og varðveittu í náð allt hið konunglega hús. Blessa, ó Guð! bæði hina veraldlegu og andlegu yfirboðara, og gef

öllum, sem yfir aðra eru settir, að stjórna í þínum ótta með rjettlæti og góðfýsi.

Gef oss rjettláta dómara og hreinskilna kennendur, sem prýði kristið nafn með ráðvöndum lifnaði. Gef orðsins þjónum Anda þinn og láttu þá, sem orðið heyra, leiðast og stjórnast af þínum Anda, svo þítt ríki útbreiðist og blómgist æ betur og betur um allan heiminn. Taktu þá einnig undir þína föðurlegu vernd, sem eru lítilmótlegir og lágt settir, gefðu þeim þína náð og aðstoð, að vera trúir í því hinu litla, unz þú setur þá yfir meira og gjörir þá vegsamlega í dýrð þinni. Gef þú oss í þínum ótta, og með trúmennsku við Konunginn og vora yfirboðara, að njóta friðarins og eindrægninnar blíðu blessunar. Virðstu með trúnni á þjer að glæða og gróðursetja þeirra innbyrðis elsku, hverra hjörtu heilög bönd hafa áður samanknýtt. Láttu hina uppvaxandi kynslóð árla æfinnar læra, að þekkja þig, sem ert Frelsari mannkynsins. Láttu þau heilögu heit, sem hinir ungu kristnu vinna fyrir þínu altari, að vilja eptirfylgja þjer, verða trúlega efnd og uppfyld. Láttu orðið þitt, þú eilífi Konungur dýrðarinnar! klárt og lífkröptugt hljóma bæði í kyrkjum og heimahúsum. Láttu það búa ríkuglega meðal vor, þó vjer sjeum fátækir af flestu öðru. Láttu Kristí kross vera það sigurmerki sem samansafni oss öllum umhverfis sig, og sem styrki sjerhvern Jesú Krists stríðsmann. Ó þú Guð, allrar þolinmæði og huggunar! Láttu sálir þeirra öðlast hugarhægð og hvíld í þjer, sem

eru hryggvar og harmandi og hafa engan, sem þeim hjálpað getur, nema þig, miskunsami Faðir! Taktu að þjer alla, sem eru einmana, vinum og verndarmönnum sviptir, sjúkir og sorgbitnir í þessa heims táradal, og láttu þá finna sína beztu huggun og harmabót í fagnaðarboðskap Sonar þíns. Álíttu alla í náð, sem vona á þig og vertu máttugur í sjerhvers veikleika; svo þeir staðist fái í reynsluskóla lífsins og geti sigurinn úr býtum borið. Vjer vitum, ó Guð! að þú gjörir allt langtum betur enn vjer kunnum þig um að biðja; en æ! vjer getum einasta andvarpað á þessum degi; fyrirgef, fyrirgef vorar margföldu yfirtroðslur, afmáðu syndir vorar sakir miskunar þinnar og fyrir Jesú Krists heilögu verðskuldun. Og þá vjer höfum nú þannig fyrst og einkanlegast beðið um ríki þitt og það rjettlæti, sem þjer er velþókknanlegt, þá biðjum vjer þar nærst, eptir þínu blessaða leyfi og í nafni Sonar þíns: bættu einnig, gæzkuríki Faðir! náð á náð ofan í hinu tímanlega; gef regn og frjófsamar árstíðir; gef blessun þína af landi og sjó, og láttu allt þjena til dýrðar þinnar, til eflingar og framfara kristni þinnar, til tímanlegrar blessunar! Leið oss til þín, hvert sem þjer þókknast með sorg eða gleði. Veit oss þessa miklu blessan, þó vjer fara ættum alls annars á mis. En vjer vitum oss til gleði, hjartkæri Faðir! að þú á allar lundir vilt bænheyra og blessa oss. Bænheyr oss í Jesú nafni, þá vjer í auðmýkt andans

kvökum til þín, eins og hann kenndi oss. Faðir vor, o. s. frv.

---

## Bæn á uppstigningardag,

samin af

sjera **Einari Thorlacius**,

presti til Saurbæjar í Eyjafirði.

---

Vjer uppliptum vorum tilbiðjandi anda í hæðirnar til þín, sigurkrýndi Frelsari vor! og biðjum þig að blessa oss og biðja fyrir oss. Vjer gleðjum oss í anda við þína upphafningu, af því þín djúpa niðurlægíng skeði fyrir vora skuld. Þú ert nú aptur vegsamaður með þeirri dýrð, sem þú áttir hjá föðurnum frá eilífð, þú ert nú sestur á hægra veg tigninni á hæðum. Vjer vitum að oss stendur nú allt gott af þinni himnesku ríkisstjórn; því þú hefur enganvegin yfirgefið þína dýrt endurkeyptu kristni, heldur hefur þú lofað að vera með oss allt til heimsins enda. Þú komst hingað niður til vor úr dýrð þinni til að endurleisa oss frá synd og sorg og eilífri glötun, með þinni óverðskulduðu pínu og dauða, og hefur með þessu dýra lausnargjaldi sameinað aptur himin og jörð, Guð og menn; því skyldum vjer þá ekki gleðja oss við það í dag, að þín mikla mæða og óviðjafnanlega hlíðni allt til dauðans á krossinum er nú svo vegsamlega umbunuð? því skyldum vjer þá ekki hátíðlega gleðjast yfir því í dag, að þú, vor hjartkjæri bróðir! ert svo hátt upphafinn og gefið það nafn sem er yfir öllum nöfnum? því skyldum vjer ekki fagna og vera glaðir í

dag, á þessari þinni miklu sigurhróss og krýníngar hátíð, þareð vjer vitum þig vera svo guðdómsmáttugan og hafa allt vald bæði á himni og jörðu? þig, sem grundvallað er á allt vort traust, öll vor velferð, öll von sáluhjálpar vorrar? Nú getur þú gjört þá fullkomlega sáluhólpna, sem koma og kvaka til föðursins í þínu nafni, því þú lifir æfinlega til að biðja fyrir þeim. Nú höfum vjer sjeð hvort þú fórst og hvar þú ríkir og hvern vjer eigum að fyrir árnaðarmann og meðalgangara í hinni himnesku málstofu. Vjer vitum að vjer höfum hjer niðri engan varanlegan samastað, en vjer vitum og sjáum og fullvissumst um það í dag, að vort sanna óðal og rjetta föðurland er á himnum þar sem þú nú ræður og ríkir, ó Jesú! við hægri hönd föðursins, umkríngdur af þínum heilögu og algjörðu, sem óaflátanlega vegsama og tilbiðja þig. Æ að vjer gjörðum oss verðuga þeirrar blessunar, sem þú lagðir yfir jörðina áður enn þú uppstjest frá henni! Ó að allt vort líf gæti verið andleg himnaför, með trúrri eptirfylgð og eptir breitni eptir þjer sem ert vegurinn, sannleikurinn og lífið! Ó að allt vort yndi og öll vor umgengni gæti ætíð verið á himnum, þó vorar rösulu fætur reiki um stundarsakir hjer niðri í duptinu! Æ! vjer vitum, að þeir einir eiga góða heim von í himininn sem hafa hegðað sjer hjer í heimi vel og krisilega; já, kristilega, líkt kristi lærimeistara og fyrirrennara vorum á braut lífsins. Og þó vjer meigum hjer margt líða og mörgu hafna fyrir þíns nafns sakir, sem lángtum meira máttir

líða og á þig leggja fyrir vora skuld: þá lát þína himnaför daglega minna oss á það að allir þeir sem þolinmóðir og trúlyndir bera sinn kross eptir þjer, skulu fá að verða dýrðlegir með þjer. Lát það æ ljóslifandi sveima oss fyrir sálar sjónum, þegar vjer þreitu kennum í hinni þúngu en þó góðu baráttunni, að sigurkransin er fagur sem vjer fá skulum þegar öllu lífs og dauðastríði er lokið, og að þá er verðkaupið nóglegt á himnum. Æ! hjálpaðu oss til þess frelsari vor! með gnðdóms máttugri aðstoð anda þíns, að vjer einnig mættum eptir oss skilja minningu vora í blessan, þegar þú tekur oss burt hjeðan upp til þín, hvar oss æ er gott að vera. Ó kenn oss þessa vizku í dag, á þínum uppstygníngar degi, himinríkjandi frelsari: þá munum vjer ósegjanlega gleðjast, þegar þú um langt eður skamt lætur oss á sælli stund fá að leysast hjeðan og lifa með drottni, af því það er miklu betra. Ó, yndæl er þá unnin þraut og óumræðilega lífsætir ávextir hins sæla sigursins. Æ! gef oss hann sem flestum úr býtum að bera, mikli og miskunsami sigurvegari! fyrir þinn eigin dýrdlega sigur og alla þína heilögu verðskuldan. Þá verður mikil dýrðin þín og mikill hópur þinna dýrðlegu. Amen!

---

## Bæn á hvitasunnu,

samin af

sjera **Einari Thorlacius,**

presti til Saurbæjar í Eyjafirði.

---

**H**eilagi Faðir! helga þú oss í sannleikanum, þín

orð eru sannleikur. Himinríkjandi Frelsari! láttu þitt sannleiks- og náðar-ríki koma til vor, búa og blómstra í oss og umhverfis oss. Guð heilagi Andi! sem útgengur frá Föður og Syni til kristinna manna safnaða um allan heiminn, til að víðfrægja og vegsama Jesú nafn: gjör þú hið eilífa orð lífsins lifandi og kröptugt til sáluhjálpar, bæði á vörum kennendanna og í hjörtum tilheyrendanna. Úthell þjer í allra vor hjörtu, svo að í söfnuði Jesú Krists sje eitt hjarta og ein sál. Láttu oss alla vera með einum huga, stöðuga í bæn og ákalli; þá mun Faðir vor á himnum gefa öllum þeim heilagann Anda, sem hann þar um biðja, til þess sem nytsamlegt er, eptir útmælingu hans blessuðu náðar og speki. Lát þú hann upplýsa fyrir oss alla ráðgátu þessa lífs, sætta oss við allt, sem oss að höndum ber, eptir vilja og úthlutun Guðs, hugga og hjálpa oss í öllum vorum vandræðum og mannraunum, leiðrjetta og sannfæra oss, þá vjer förum villir vegar, minna oss á allt sem Jesús kunngjörði, bauð og lofaði oss, og gjöra oss ætíð árvakra, kappfulla og óþreytanlega í vinnu og verki Drottins vors. Lát hann auka í oss trúna, styrkja hjá oss vonina, glæða og efla í og með oss kærleikann. Lát hann gjöra vel vegljóst umhverfis oss, svo vjer ekki missum sjónar af takmarkinu, heldur fáum höndlað hnossið, sem brosir upp á oss við enda veðhlaupsins, og loksins þegar heimur þessi hverfur og úthýsir oss, lát oss þá fundið geta krapt komandi aldar, og lát þá anda þinn, sína oss dýrð og fegurð þess rík-

is, í hverju Drottinn Jesús hefur öllum þeim yndislegann samastað tilbúið, sem ljetu sjer hjer af Guðs góða Anda stjórna. Já, þegar vjer sjálfir ekki vitum hvers oss biðja ber; æ! svo gakk þá á milli og bið fyrir oss með óumræðanlegum andvörpunum. Ó, kom því til vor í dag þú kraptur Guðs, þú eilífa ljós, þú andi Guðs og dýrðarinnar! kom, og hrær og helga svo hjörtu vor, að hver og ein hræring hjarta vors bærist Guði til dýrðar. Láttu þinn blessaða blæ sveima að nýju yfir því, sem kann að vera dauðt og dofið í oss, og gef því andlega endurfæðt líf og stöðuga stefnu að takmarki vorrar háleitu og himnesku ákvörðunar. Skapa þú í oss nýtt og hreint hjarta, gef oss nýjan, staðfastann anda, og krýn Jesú endurlausnarverk með vorri helgun. Eins og blómsturbikarinn opnar sig móti endurnæringu morgundaggarinnar og il sólarinnar, æ! svo opna þú einnig hjörtu vor móti náðardögg Jesú evangelíi og lífi og ljósi hinnar sönnu rjettlætissólar. Ó Guð! þú sem vegsamaðir Son þinn elskulegann með ástgjöfum heilags Anda, þegar þú stofnsettir kyrkju Jesú Krists á jörðunni; æ minnstu þessa þíns blessaða fyrirheitis: að þú viljir úthella Anda þínum yfir allt hold, og láttu engan meðal vor fara varhluta af hans guðdómlegu náðarverkunum. Láttu náð þína og sannleika kunngjörast og útbreiðast, allt í frá uppgöngu sólarinnar og inn til hennar niðurgöngu, svo að sem flestir bræðra vorra, sem enn nú eru myrkur, mætta verða ljós í Drottni, þangað til vjer

allir erum komnir til einingar í trúnni og þekkingunni á Syni Guðs, og höfum náð fullorðins aldri og fullkomnum þroska Jesú Krists safnaða. Hjartkæri Faðir! lát þinn heilaga Anda kenna oss að tala þinni túngu, sem vegsami þig, og tak aldrei þinn heilaga Anda burt frá oss! Ó þú Andi sannleikans og heilagleikans, Andi huggunarinnar og friðarins! gef oss speki og helgun af hæðum! gef oss sælu og sáluhjálp í hæðum! Bænheyr oss, þríeini Guð! í nafni Föðurs og Sonar og heilags Anda! Amen!

## Bæn eptir húslestur,

samin af

sjera **Einari Thorlacius**,

presti til Saurbæjar í Eyjafirði.

Lofaður og vegsamaður sjert þú himneski Faðir! fyrir gjöf þíns heilaga orðs, með hverju þú uppfræðir, áminnir og endurnærir vorar ódauðlegu og dýrt endurkeyptu sálir. Vjer finnum nú lífsætt til þess hvað sælir þeir eru, sem fá að heyra Guðs orð og varðveita það síðan í góðu og siðsömu hjarta, og færa af því ávöxt í stöðuglyndi; því þó allt annað breytist og bregðist í þessum stundarheimi, þá breytist aldrei nje bregzt þitt sannleiks orð og náðarríku fyrirheit. Það hefur þú gefið oss fyrir ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta, svo vjer fáum fetað án flekks og vansa ferilinn, sem til lífsins liggur til vors sameiginlega, eptirþreyða föðurlands á himnum. Í því átt þú, himneski Fað-

ir! tal við oss, börnin þín og kunngjörir oss vilja þinn og vora eilífu ákvörðun; já, í því ert þú, guðdómlegi Frelsari! ásamt ástgjöfum Anda þíns, með og hjá oss og vilt vera það allt til heimsins enda. Æ! lát það verða öllum oss fyrir trúna guðlegann krapt til vorrar sáluhjálpar. Þá munum vjer geta með andlegri sigursæld unnið vort ætlunar- og skyldu-verk, verk trúarinnar og kærleikans, fræddir af þínu orði, vegleiddir af þínum Anda, styrktir af þinni náð. Æ! fyrirgef oss, Drottinn! hvað sorglega opt vjer höfum þó bæði vanrækt og vanbrúkað þetta dýrmæta náðarmeðal; því vjer viðurkennum það með angri og yðrun, að þær náðarstundir eru eins óteljandi eins og vorir andardrættir, á hverjum þú hefur viljað samansafna oss undir þína náðarvængi, eins og hænan sínum úngakindum, til að fræða, leiðrjetta og hugsvala oss, og gefa sálum vorum andlega upplyptingu frá dymmu þessarar jarðar, til vorra himnesku átthaga í tjaldbúðum ljóssins. Lát þú nú þitt lífs og náðarorð verða að lífi og anda í allra þeirra hjörtum, er það heyra og um hönd hafa. Lát þenna þjer helgaða dag breiða sína blessan yfir alla hina dagana. Lát oss leggja það á hjarta, að oss ber öllum fyrst að leita Guðs ríkis og hans rjettlætis, því þá að eins, hefur þú lofað oss, Guð Faðir! öllu öðru góðu í viðbót. Æ! lát þitt blessaða sannleiks orð útbreiðast í frá uppgöngu sólarinnar og allt til hennar niðurgöngu, svo að allar ættkvíslir mannanna fái ásamt oss að

þekkja þig, einn sanni Guð, og þann, sem þú gafst öllum heiminum til rjettlætis, vísdóms, helgunar og endurlausnar. Æ! endurvitka, vek og verm vor dofnu og köldu hjörtu, og lát ekki af að knýja á þau með náðarverkunum Anda þíns í orðinu, svo vjer fáum þekkt, að það er þín yndæla og umhyggjufulla hirðisraust, er svo blítt og sáluvekjandi býður oss að koma til þín, svo þú getir verið með oss í öllu andstreymi lífsins og náir að hugsvala og hjalpa oss í aðförum hins síðasta óvinar dauðans, unz öllu lífsins og dauðans stríði er lokið og vjer höfum öðlast hið eilífa lífið, sem er þín náðargjöf, Faðir miskunsemdanna! í Drottni vorum Jesú Kristi. Bænheyr oss, góði himneski Faðir! fyrir hans skuld, sem er líf og ljós mannanna. Æ! bænheyr þú oss í Jesú nafni! Amen.

---

## Bæn á fyrsta sunnudag í vetri,

eignuð
sjera **Jóni** sál. **þorlákssyni,**
fyrrum presti að Bægisá.

---

Ó, þú heilagi og rjettláti Guð! þú alvaldi himins og jarðar Konungur! vjer aumir og allrar þinnar náðar óverðugir syndarar framföllum í duptinu fyrir þjer, og meðkennum vorar óteljandi syndir, sem eru fleiri enn hárin á höfðum vorum; vjer vitum, að vjer höfum með þeim leiðt yfir oss eylífa hegningu, sem oss er óbærileg. Ó, þú rjettnefndi góði Guð! hvert skulum vjer friðlausir syndarar flýja

utan til þín; til þinnar óendanlegu miskunar flýjum vjer þá í krapti Jesú friðþægingar, og biðjum þig að hafa þolinmæði við oss, og svipta oss ekki burt miðt í vorum syndum. Fyrirgefðu oss í Jesú nafni, allar vorar syndir, þær syndir, sem vjer höfum framið bæði á þessu umliðna sumri, sem og alla vora æfidaga. Drottinn! hjálpaðu oss framvegis með þíns andanáð, bæði á komanda vetri, og svo lengi vjer lifum, að helga þjer allt vort líf og allar vorar athafnir. Lofaður og vegsamaður sjertu fyrir afliðið sumar, og alla umliðna tíma, fyrir alla þína óteljandi velgjörninga, er þú hefur veitt oss. Blessaður sjertu fyrir þína þolinmæði yfir oss, fyrir það þú hefur unnt oss lífs og heilum að enda þetta sumar; blessaðu oss alla með tímanlegri og eylífri blessun, blessaðu öll vor efni, og allt hvað vjer þurfum til vors daglegs viðurværis, eptir þínum náðar-vilja. Gef oss ætíð að minnast vors burtferðartíma við sjerhver tímaskipti, eins og ætíð endrarnær; enginn af oss veit, hvað fjærri er æfinnar endi; máske þessi nýbyrjaði vetur gjöri enda á æfi vorri; og það vitum vjer, að einhverntíma byrjum vjer vorn síðasta æfi-vetur, en það er sjerhverjum hulið hvenær það verður. Gef oss því, himneski Faðir; að búa oss svo undir þenna vetur, eins og vjer viljum búa, oss undir hinn síðasta æfi-vetur vorn, og lifa svo hvern dag á honum — sem og allri eptirkomandi æfi vorri — eins og vjer vildum hafa lifað við aðkomu dauðans, þá mættum vjer vera vissir um að innleiðast í hina sælufullu bú-

staði útvaldra á himnum, þegar vjer skiljum við þetta stundalíf. Æ, hjálpaðu oss til þsss, Drottinn! fyrir Frelsarans sakir, með náð heilags Anda! Amen.

---

# Viku Sálmar,

orktir af

## Hallgrími djákna Jónssyni.

---

### SUNNUDAGS MORGUN SÁLMUR.

Lagið: Kristnir menn umfram allar tíðir.

Ástar þakklœti af anda' og munni, allir þjer Drottinn! færum nú, að út af þínum elsku brunni, unun ljezt til vor streima þú; um nœrst afliðna nætur tíð, náð þín yfir oss vakti blíð.

2. Uppsprettu lindin allra gæða, ó Guð vor Faðir himnum á! lát oss í dag ei meinin mæða, í miskun ætíð vert' oss hjá; áheyrslu góða vonum vær, veita munir oss drottinn kær!

3. Hreinsa vor hjörtu, Herra mæti! herbergi svo að verði þitt; orð þín sjeu vort eptirlæti, öll munu þá vor brotin kvitt. Ó að dygðanna veljum veg, sem vísa boð þín guðdómleg.

4. Lát oss ei girnast annað yðja, enn það sem mætti líka þjer, vort heilagt áform virðstu að styðja, víslega svo framgöngum þjer; hugsan vor öll og hjartans geð helgist þjer, orð og verkin með.

5. Ó! að vanbrúka ekki þyrðum, af þjer, vor

Faðir! ljenta náð; af öllum hug þig einan virðum, ertú vort sanna hjálparráð; þó á oss stríði eymd og kíf, öllum oss veitir sterka hlíf.

6. Í umsjon þina, elsku bróðir! endurlausnari sæll Jesú! líf og sál felum leyst af móði, líkn þinni æ-tíð til vor snú! hana vjer treystum allir á, því einum þjer er náðin hjá.

7. Einkum á vorri andláts stundu, að þjer oss taktú, Jesú! kær til vor þá hellzt í miskun mundu, að meigum þjer ætíð búa nær, í sælu þeirri er ald-rei dvín, útvaldra þar sem flokkur skín.

## SUNNUDAGSKVÖLD - SÁLMUR.

Lagið: Um dauðann gjef þú Drottinn mjer.

Miskunarríki góði Guð! gjæðsku vjer prísum þína, ljúfur hefir þinn leist söfnuð, líkn virðist mönn-um sýna; þegar sannhelgan soninn þinn, sendir af hæðum eingetinn, er saklausan sig ljet pína.

2. Fyrir augliti þínu því, þríeini Guð! tilbiðjum, þakklátir, hjartans auðmýkt í, oss Adams breisku niðjum, þólgæði sýnir, vægð og vörn, villt oss þín kalla óska börn, ef þín rjettindin iðjum.

3, Oss fyrir litið aldrei fær, ef þín trúgóðir leit-um; barnakvak vort þín biðlund skær, bænar-il gæði heitum. Í þína felum umsjón vjer, öll vor lífskjör og gæfu hjer, lífsbraut svo þúnga þreitum.

4. Eign líf vort, hús og ástvini, að þjer virðstu að taka, einkum þjer falin sálin sje, sofa hvört skal eður vaka; þú hefur lofað, líknin há! að líta þín börn í miskun á, ef til þín trúuð kvaka.

5. Verndu oss handaverkin þín, vor Jesú meður blóði, endurleysta frá andar pín, en upphef á dýrðar slóðir; þá mun af oss um eilíf ár, útvöldum meður lofgjörð klár, þjer súngin, Guð vor góði!

6. Allstaðar nálæg vera' alvís, vort líf sjertú þá deyjum, þína nálægð í nótt hvör kýs, náðar leitandi þreyjum. Varðveit þú oss í hættum heim, hjá þjer en æðri sælu geym, hvar sífelt lof þjer segjum.

## MÁNUDAGSMORGUN-SÁLMUR.

Lagið: Kom skapari heilagi Andi.

Ástríki Drottinn! öllum nær, umbreyting nein ei finnst hjá þjer; frá þjer ljósanna Faðir kær! flýtur allt gott, sem njótum vjer.

2. Ótal hættur og eymdir hjer, oss mæta vilja nær og fjær; vort líf á þræði veikum er, veit enginn fyr' enn dauðinn slær.

3. En þín miskunsemd aldrei þreytt, að oss, vor Faðir! hefir gætt; og ástargeð þitt óumbreytt, úr vorum nauðum jafnan bætt.

4. Veitt hefur þú oss heilla hag, hjálpræði, krapt og styrkvan dug, að fengjum byrjað enn einn dag: ástin þín hefir glatt vorn hug.

5. Þrjóti ei lofgjörð þín nje prís! þögul náttúran fræðir oss, að þín stjórn dásöm er og vís, vort einka sáluhjálpar hnoss.

6. Hughraustir á þig vonum vær, vel því sannfærðir erum nú, af þínu orði, að engum fær, útskúfað sem þín leita' í trú.

7, Þó oss í heimi þrjóti allt, það sem veröldin

kallar gott, er það vort traustið ófallvallt, að ástar þú oss sýnir vott.

8. Nær vjer að eins þig höfum hjer, Herra líknsamur, mildur, trúr, um ekkert skeitum annað vjer, ertú vort skjól og hlífðar-múr.

9. Fyrirgef brot vor, Faðir kær! sem framið höfum móti þjer, svo hlotnist oss sú heill frábær, sem helgum öllum tilreidd er.

10. Þín blessan veri yfir oss; alla blessa þú menn og hús; blessunar gef oss blíða hnoss, sem blessaður veitti oss Jesús!

## MÁNUDAGSKVÖLD-SÁLMUR.

Lagið: Öldungar Júða annars dags.

Þolinmóður er Drottinn dýr, dásamur, góðgjarn, mildur,' hír, hans ætíð verndar hjálpar hönd, um lá og lönd, sín börn, og mýkir meinin vönd.

2. Enn í dag hefir auðsýnt hann, ærna miskun við sjerhvern mann, aukið vorn frest um eina tíð; hans elskan blíð, yðrandi veitist öllum lýð.

3. Oss hefir náð og blessan býtt, blíður í vöku og svefni títt; hlífð og varðveizlu, heilsu kjör, hressing og fjör, hans mildin oss útskipti ör.

4. Fyrirgefið því afbrot örg, oss hefir nærsta stór, og mörg, uppörfun marga oss hefir tjeð, að allt vort geð, lagist hans anda og orði með.

5. Allt hvað oss lofað hefir hann, hlotnast sjerhverjum jafnan vann, sje æ hans nafni vegsemd vís, virðing og prís, eins og hann sjálfur af oss kýs.

6. Eilífi Guð! hvað erum vjer, að við oss þann-

ig hegðar þjer; oss hefir gjört til góða þú, gjörir enn nú; aðstoð þín bregðist aldrei sú.

7. Ó! hvað vor góðverk eru hjer, ógild og hálfverk fyrir þjer. Hvað ófullkomin er vor dyggð, umbót og tryggð, vor hlýðni fánýt, full með styggð.

8. Æ! fyrirgef oss, Faðir kær! fjöldann synda sem drýgjum vær, og yfirgef oss ekki í neyð, útrikk af deyð; svo friðarins ratað fáum leið.

9. Blíði Faðir! oss bænheyr þú, bregðast aldrei þín heitin trú, um áheyrn góða, af því hann, sem frið oss fann, þinn son, afmáði synda bann.

10. Í þínu nafni, ó Jesú! aptur til hvílu göngum nú, treystandi þinni hjálp og hlíf, að heptir kíf, og annist vora önd og líf.

11. Ó Jesú kær! þá öðlumst vjer, yndæla vist með sjálfum þjer, viðskyldir heimsins freistni og fár, Frelsari klár! þjer sje um aldir heiður hár.

## ÞRIÐJUDAGSMORGUN-SÁLMUR.

Lagið: Lifandi Guð þú lít þar á.

Upprunninn dagur bendir brátt, börn Guðs ef viljum heita, af öllu hjárta, hug' og mátt, hönum er skylt að veita, lofgjörð og prís, sem nú í nótt, náðaði oss, svo sváfum rótt; því kann ei neinn að neita.

2. Frá vorri barndóms fyrstu stund, forsorgað oss þú hefur, og veitt oss, Guð! í vöku og blund, vor hvað sem þörf útkrefur; ótal eru þau gæðin góð, Guð Faðir kær! af þínum sjóð, er þú oss öllum gefur.

3. Æ! lát þjer treysta allt vort geð, ó Faðir hjarta kæri! eins þínum syni óg anda með, af

innstu rót sem bæri; sameining við þig sjálfan þá, sálunni ró og frið mun tjá, þó mörg hjer sorgin særi.

5. Halt vorri sálu við þig vel, verndarinn allra lýða, hneig þú vorn vilja og þanka-þel, þínum rjettindum hlýða. Gef að vjer hötum glæpa verk, geymi oss æ þín höndin sterk, og styrki vel að stríða.

6. Vorra sálna sje unan æðst, einum þjer lofgjörð veita, ástundan líka einna stærst, orða þíns sannleiks leita; Jesú, þíns sonar, kvöl á kross, kvittan og bót sje öllum oss, hann rjeð oss miskun heita.

7. Jesú! á vorri andláts stund, oss huggi best þín pína, er leiðst, svo mættum á þinn fund, innganga í sælu þína. Sje oss þá öllum blóð þitt bezt, borgun fyrir vor afbrot vest, andar mein öll þá dvína.

## ÞRIÐJUDAGSKVÖLD - SÁLMUR.

Lagið: Konung Davíð sem kendi.

Alvaldi ástar Faðir! allra, sem kallast börn, um ár og alda raðir, er ætíð sýnir vörn, og villt oss vera hjá; húma tekur í heimi, hærst náðin þín oss geymi, og forði vondu frá.

2. Þá er oss óhætt öllum, við illra makt og slægð, þegar vjer þig á köllum, þú veitir ró og vægð; nær þinni hjálpar hönd, upplýkur, allir seðjast, endurnærast og gleðjast, um himin, lá og lönd.

3. Faðir! í þínar hendur, felum vjer líf og sál; í þinni umsjón stendur, eign vor, sjón, heyrn og mál, vit og vellíðan góð; lát þú oss lífgjöf sanna, líkn þína og gæzku kanna, og seð af þínum sjóð!

4. Drottinn! gef vel þeim vegni, er viðurkenna þitt nafn; mót heimsins hrekkja megni, hjálpa, þá raunasafn, aðþjakar oðum hjer; lát oss þjer ljúfa hlýða; leystir frá sorg og kvíða, hólpnir þá verðum vjer.

5. Syndanna fjötrum sáru, svipt af oss, Drottinn vor! kristindóms dyggða kláru, kenn oss að rekja spor; svo mættum þókknast þjer, og eptir heimsins hryggðir, himnanna sælu byggðir, frelsaðir fáum vjer.

6. Jesú vor bróðir blíði! sem bættir fyrir oss, í þínu ógna stríði, er leiðst á hörðum kross, lát þá forþjenun þín, oss koma æ til bezta, og afreka sælu mesta, í dýrð sem aldrei dvín.

## MIÐVIKUDAGSMORGUN-SÁLMUR.

Lagið: Upphef eg augun mín.

Nafn þitt, vor góði Guð! göfgað um aldir sje, þú lán og lífsfögnuð, lætur oss þrátt í tje; vor telur höfuð hár, hlífð þín er hvörgi rír; þinn líknar kraptur klár, kröptugur með oss býr.

2. Þú hefir nú í nótt, náðugur oss ei gleymt, en hefir alla rótt, í þinni vöktun geymt; þeim á þig vona víst, vernd þín er hvörgi fjær; þú lætur þrjóta sízt, það sem viðþurfum vær.

3. Syndin oss særir ljót, sínum freistingum með, öll hennar íllskuhót, angri vort fylla geð; gjör þú vort hjarta hreint, helgaðir verðum þá; svo bæði ljóst og leynt, lofgjörð þjer munum tjá.

4. Blessa vort áform allt, að megi lukkast vel;

við þinn oss veginn halt; vort gef að hjartan þel, rjettindin ræki þín, og ráðin allra bezt, að oss þá æfin dvín, ununin veitist mest.

5. Veit oss styrk voldugan, að vörumst brotin ljót; efl þú vorn innra mann, að sporna löstum mót, vort daglegt veit oss brauð, varðveit oss slisum frá. eyð lífs og andar nauð, engu vjer kvíðum þá.

6. Hvað sem þín miskun mild, miðlast lætur til vor, þinni, Guð! vísu vild, vor felum æfi spor; hvört líf eða dapur deyð, í dag að höndum ber, sálina ei sakar neyð, sje hún, Drottinn! hjá þjer.

## MIÐVIKUDAGSKVÖLD-SÁLMUR.

Lagið: Í dag eitt blessað barnið er.

Mildi, voldugi, vísi Guð! veitt sje þjer lof án enda, fyrir lán, vernd og lífs fögnuð, ljezt engin slis oss henda; óútsegjanleg er þín náð, að oss þín forsjón hefir gáð, og varnað voða föllum, um vora liðnu æfitíð, ætíð hefir þín miskun blíð, gefist frómum gjörvöllum.

2. Guð! ætíð góður öllum ert, yðrandi sem þín leita; ávallt oss sýnir orð þitt bert, þitt ástarþelið heita; í andstreymi þú ert vor hlíf, í dauðanum vort sanna líf, til þín í trú nær köllum; og þótt að syndgum þráfalt vjer, þín miskun æ framboðin er, yðrandi sálum öllum.

3. Að þjer tak vora önd og líf, er þú oss gefið hefur; vertú ætíð vor vernd og hlíf, vor meðan hjervist tefur; freistingar þegar falla oss á, Faðir! oss styrkja virztú þá, að frá þjer aldrei föllum,

heldur að stríðum herknir vjer, mót heimi og girnda vondum her, og óvinum sálar öllum.

4. Vor Herra Jesú! vert' oss hjá, vort traust er á þjer einum, einkum nær heimi förum frá. fulltyngi þitt vjer reynum, herbergi þitt vort hjarta sje, huggun samvizku lát í tje, er særist synda kvíða; lát oss alla unz líf hjer dvín, læra að stunda boðin þín, þjer einum þjóna og hlýða.

## FIMMTUDAGSMORGUN-SÁLMUR.

Lagið: Gleð þig Guðs sonar brúð.

Ljós dagsins ljómar enn, lofsýngjum kristnir menn, Guði hjálpara góðum, sem gefur öllum þjóðum, miskunar gnógt og mildi; minnast þess hver einn skyldi.

2. Hvörn morgun Herrann þítt, hjálpráð frambýður títt, oss breiskum Adams sonum; allir því sýngjum honum, þakklæti af huga hreinum, hann verndar oss frá meinum.

3. Synd þó að vinnum vjer, vondslega móti þjer, fyrirgef, Faðir góður! fyrir þinn son, vorn bróður, sem lífi ei þirmdi sínu, svo fengjum lausn frá pínu.

4. Ó Guð! þín gæzkan blíð, gæti vor alla tíð; falli virðstú oss forða, fyrir krapt þinna orða; að stöðugir standa næðum, styrktir af þínum gæðum.

5. Gef þitt orð, Guð! í dag, greiði vorn sálarhag, svo að þjer hlýðnis heiður, af hjarta veitist greiður. þjer ber þakklæti að gjalda, og þjónkun um aldir alda.

6. þig lofi allt hvað er, í upphæðum og hjer;

fyrir stjórn friðar vísa, fúsir þig skulum prísa, Drottinn! uns dýrðar prýði, dásamri þú oss skrýðir.

## FIMMTUDAGSKVÖLD-SÁLMUR.

Lagið: Uppá fjallið Jesús vendi.

Faðir blíði á himna hæðum, heiður, lof og dýrð sje þjer! alla mettar ótal gæðum, engla, menn og skepna her; gef að þar um þenkja næðum, þinn svo rómum prís sem ber.

2. Vort kvöldoffur vyrðstú þyggja, velgjörningum þáðum mót, og í miskun að oss hyggja, æ gef hötum verkin ljót, og forðumst þig vorn föður styggja, frelsi er gafst og raunahót.

3. En vjer megum yfirklaga, er vor syndin mörg og ljót, vjer sem höfum vora daga, voldugum þjer framið mót; vort líf gjörum vjer ei laga, sem verðskulda þín náðar bót.

4. Hjartað þunginn synda særir, sár-fegnir þinn fundinn á, viljum vjer því, Kristi kæri! koma' og dýrstu lækning fá, er oss þjáða endurnæri, og þig blíðan mættum sjá.

5. Refsa' oss ekki í reiði þinni, rjettlátasti Faðir kær! angri marin önd vor finni, áheyrn, þínum tróni nær, elskuríkust að oss hlynni, eilíf miskun þín frábær.

6. Líf vort geym og leystan anda, líknsamur uns æfin dvín, þá meðtak hann þjer til handa, þríeini Guð! og miskun sýn, að hlutskipti utan vanda, öðlist þar sem dýrðin skín.

7. Friðarins í faðmi þínum, fullöruggir hvílumst

þá, frelsaðir af fári og pínum, fáum blíðan þig að sjá. Nær í dýrðar skrúða skínum, skulum eilíft lof þjer tjá.

## FÖSTUDAGSMORGUN-SÁLMUR.

Lagið: Allt eins og blómstrið eina.

Lof sje þjer, ljúfi Faðir! vor líkn og hjálparvon, vjer finnum frelsi glaðir, fyrir Jesúm þinn son. hann oss úr háska leysti hugsvölun gaf og frið, fallna á fætur reisti, svo fengjum andar grið.

2. Fyrir þjer, Herra hýri! hugrakkir byrtumst vjer; hvað er sem ei útskýri, að náð þin mjög stór er? í nótt frá öllum meinum, oss frelsa náðir þú; ást þína' i öllu reynum, ei getur brugðist sú.

3. Þarfyrir þökkum glaðir, þjer Guð! sem makligt er, af hjarta, og viljum hraðir, Herra! fulltreysta þjer, að þú í dag og ætíð, oss geymir vel þín börn, sikrir oss súrt mótlætið, en sjert vor hjálp og vörn.

4. Þíns ótta gef að gætum, grandvarir útlegð í; skemtun af synd ei sætum, svikullri ávallt, því, endurlausnarinn lýða, leysti oss henni frá; oss ber því örugt stríða, að mættum sigri ná.

5. Heimurinn hættu stofnar, holdið oss pretta vill, freistingar dyggða dofnar, og dárleg syndin ill; aldrei oss yfirgefðu, ástríki hyrðir trúr! hjálpaðu! hvörgi tefðu! hættunni rikk oss úr.

6. Veit oss að vaka og biðja, vær svo ei freistumst hjer, í stríði vyrðst oss styðja, svo staðist fáum vjer; svo vjer að sigri unnum, sælunnar öðl-

umst hnoss, og frjálsir fagna kynnum, þeim fyrir oss dó á kross.

## FÖSTUDAGSKVÖLD - SÁLMUR.

Lagið: Jesús Kristur að Jórdan kom.

Dagur enn nú á enda er, ást fyrir Guðs og mildi, en nætur tíminn nálgast fer; neyð myrkra þó ei skyldi, hræðast, sá Guði hefur á traust, hans náð er vís án enda; sína miskunar sæta raust, síleit oss lætur kenda; og bölmæddum til sín benda.

2. Þygg vort kvöldoffur, Herra hár; og hygg að vorum bænum, þig biðjum, dýrðar kongur klár! og klökkir til þín mænum, vertu vort hæli nú í nótt, neyð lát oss enga saka; gef að oss verði vært og rótt, allt vondsligt hrek til baka, og virzt oss að þjer taka!

3. Ó Guð! svo náðir elska oss, að einka son þinn mæta, ljezt kvöl og dauða líða á kross, lausn svo að fengjum sæta, vjer, frá eilífri andar þrá, en hrepptum lífgjöf blíða, þar fyrir gjörum þakkir tjá, þjer Faðir allra lýða, sem af oss sviptir kvíða.

4. Særir oss fjöldinn synda þrátt, sakfallna því oss játum, undir þinn guðdóms mikla mátt, miskuna oss ranglátum. Hyrt ei, sem forþjent höfum vær, hegning eilífri meður; Frelsari manna, Kristi kær! kraptur þíns dauða skeður, sje oss til lausnar sjeður!

5. Þó eymdir heims og aðkast mest, eigum hjer við að stríða, eilífi Guð! þitt orðið bezt, upphvetji' oss þjer að hlýða, það er vort ljós í lífi og deyð;

lát oss fast þar við halda, svo eptir heimsins eymd og neyð, auðnist oss þjer að gjalda, lofgjörð, um aldir alda.

## LAUGARDAGSMORGUN - SÁLMUR.

Lagið: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

Lof sje þjer, vor ljúfi Faðir! líknin manna og verndin traust, frelsi þínu fögnum glaðir, feingum náðir slisalaust, í nótt, svo að ekkert mein, angraði nje skaðsemd nein, heilsu, líf og heillir hlutum, hjálpar þinnar allir nutum.

2. Hjörtu vor með fögnuð fyllir, Faðir náðar! enn í dag, með elsku þinni' oss að þjer hyllir, allan blessar þú vorn hag; öll þín breytni er einskær náð, er þitt vísa Guðdóms ráð, oss útbýtir, en þótt hyrtir, elsku við oss; þar með byrtir.

3. Gef ánægðir ætíð værum, ó Drottinn! með skamtinn þinn, og oss til nota ávallt færum, ef agar oss þín höndin stinn, þín úthlutun ætíð er oss hið bezta í lífi hjer, ef elskað þig af alúð fáum, allt til góðs vjer þjena sjáum.

4. Allir þig af alúð biðjum, í dag vertu, Guð! oss hjá, veit að ekkert vondsligt yðjum, varna tjóni og slisum frá; öllum gef að þekkja það, þig að eigum föður að; á bjargi föstu byggð sá reisti, bænrækinn sem á þig treysti.

5. Öllum þínum endurleystu, æðstu, Jesú! miskun tjá; fallin hvörn á fætur reistu, fundinn þinn sem girnast á! biðjum hjartans auðmýkt í, afmá

vora synd sem ský; sje útrunnið blóð þitt blíða, borgun vor og allra lýða!

## LAUGARDAGSKVÖLD-SÁLMUR.

Lagið: Herra! þjer skal heiður og lotning.

Þjer ber, Drottinn! þjonkun fúsa að gjalda, þökk og prís fyrir ást og náð margfalda, er heims um reiti, hjer oss veitir, hvörri ei breytir, henni ef leitum halda.

2. En hefir þú oss þyrmt við fári nauða, og þínum mettað velgjörningum snauða; frá sál' og lífi, súta kífi, svipt, þín blífi, hjálp vor hlíf í dauða.

3. Orðið þitt oss endurnærði þjáða, elskan birtist þín við oss fáráða; son þinn blíða, sendir þýða, sárt að stríða; ljezt hann lýði náða.

4. Þú oss kenndir þekkja veginn sanna, og þinni af hendi marga velgjörð kanna; er þú kýs, að oss skuli lýsa, og veginn vísa, að vörð þig prísum manna.

5. Ei þú girnist glötun myndar þinnar, gæzkan vyrðist þín oss heldur kynna, að náðin greið, sje nóg til reiðu, er nauðum eyði, og frið oss leiði að finna.

6. Ó að gleymum aldrei slíkum gæðum, er að oss streyma líkn frá Guðs á hæðum; þökkum heldur, þeim oss geldur, hjúkrun hreldum, en hvörgi veldur mæðum.

7. Nótt komandi náð þín oss ei gleymi, nauða vandi allur burt svo streymi; að sofna næðum, sviptir mæðum, saddir gæðum; hjálp af hæð oss geymi! Amen.

# Sálmar

út af

# vikubænum

sjera **Bjarna** sál. **Arngrímssonar,**

í ljóð settir af

dannibrogsmanni **Sigfúsa Jónssyni,**

1853.

---

## SUNNUDAGSMORGUN-SÁLMUR.

Lagið: Kristnir menn umfram allar tíðir.

Lof og prís Drottni syngur sínum, sál mín fögnuði gagntekin, í heilsugjafara Guði mínum, gleðst nú þakklátur andi minn, minntist hann sinnar miskunar, meðan oss dimmt í kringum var.

2. Volduga sýnt oss verndan hefur, væran oss látið sofa blund; en þá heilbrigði oss góða gefur, að gætum vel brúkað lánað pund; offra þakkargjörð oss því ber, og heit vor gjalda, Drottinn! þjer.

3. Það sje vor iðja, og einka kæra, unaðsemd blunds við lokin strax, Guði þakklætis fórnir færa, ferskum á morgni þessa dags, sem oss verndaði af ástar il, í nótt og jafnan hingað til.

4. Ei meigum gleyma, að einkanlega, oss þessi dagur gefinn var, að á honum skyldum yfirvega, ótal verkin Guðs dásemdar, og honum vora helga sál, hjartnæmust fyrir bænar-mál.

5. Án þín, Drottinn! vjer ekkert fáum, aðhafst hið góða nokkurt sinn, send þú oss því af himni

háum, helgastan guðdóms anda þinn; upplýsing veiti' oss sæla sá, og sannleikans veginn leiði' oss á.

6. Í þínu lögmáls orði skíra, unun svo hafa kynnum vjer, vorn upplýs skilning, veit oss dýra, viljans helgun, svo fáum hjer, fyrir þitt orð, sem flytst í dag, í frómleik hjartans vorn betrað hag.

7. Æ! veit það góðan ávöxt færi, eilífi Guð! til dýrðar þjer, hjörtu vor lífgi, hreinsi' og næri, himneska sælu að fáum vjer, fyrir þinn son, er fjekk hjer vist, frelsarann, Drottinn Jesúm Krist.

## SUNNUDAGSKVÖLD-SÁLMUR.

Lagið: Sælir eru þeir allir nú.

Dásemdarríki Drottinn! þjer, dýrðin og heiður einum ber, lofgjörð og þökkin þýða, öll fyrir gæði og efling hags, einkum velgjörðir þessa dags, er veitti' oss ást þín blíða; algæzkan hefur ekki þín, einungis nú með verkun sín, vorn lífsins verndað anda, af miskun einskærri glatt vort geð, gnóglega viðhresst lífið með, ástgæðum allra handa.

2. Heldur og líka þar til þú, í þínu sannleiks orði nú, fram-bauðst oss friðar skæra, lífið, sem veitir ljós og dáð, ljenar sálunni krapt af náð, fyrir frelsarann kæra; þú hefur meðöl þekkja' oss kennt, þau til betrunar eru oss hent, og sýnt oss mátann mæta, líferni vort að lögum vjer, lifandi Guð! sem vild þín er, svo skyldunnar gjörum gæta.

3. Við gáfur þínar því getum vær, glatt oss, og líka notað þær, rósamir rjettilega, umborið fáum æfistríð, og á hinni vondu staðizt tíð, von-

hraustir alla vega, sannleiks-orð þitt oss segir frá, sem vjer daglega þreifum á, að syndarans sízt vilt dauða, heldur að snúist hann til þín, hjer lifi vel, en fjör þá dvín, alsæll við ending nauða.

4. Ó! að hugfestum eins og ber, orðið í dag sem heyrðum vjer, svo út af sofna meigum, með því áformi' að eptir blund, að morgni dags og hverja stund, fremjum hvað iðja eigum, þá mun oss svefninn verða vær, verkun Guðs orða bera skær, gróður í gleði og kífi, og vor síðasti dauðadúr, dýrðar inngangur veröld úr, að eilífu ljósi og lífi.

## MÁNUDAGSMORGUN-SÁLMUR.

Lagið: Faðir vor sem á himnum ert.

Liðin er nótt, en ljósið skín, lofa þú Drottinn, sála mín! allir lífs kraptar unntir mjer, í auðmýkt vegsemd færi þjer, mikli skapari' og mildi Guð! miklist þín veran hátignuð.

2. Oss hefur verndað umsjón þín, ólukku frá og hverskyns pín; í nótt þín mildin enn oss bjó, endurnærandi hvíld og ró, hressti vort fjör og hýrði geð, hagkvæmum værðar blundi með.

3. Getum því hugarglaðir vjer, gegnt vorri köllun eins og ber, og dagsins hverri mæðu mætt, mun oss erfiðið þykja sætt; þá meigum trúir þeirri stjett, þjena, sem Guð oss fær í sett.

4. Fjölda velgjörða', er fjekkst oss tjáð, Faðir mildasti! af þinni náð, óverðugum með öllu, þjer, ofsjaldan þakkað höfum vjer, þó sjaldnar brúkað þær sem bar, og þín tilætlun blessuð var.

5. Fyrirgef þú oss, Faðir kær! frekar vangæzlu syndir þær, fyrir þíns sonar blessað blóð, biðjum: oss veiti náð þín góð, framvegis lið, að fáum vjer, fórnað þakklæti hreinu þjer.

6. Lát oss í huga hafa þrátt, hver oss gaf líf og traustan mátt, og til hvers brúka ágætar, eigum um vjer þessar gáfurnar, og hvernig þeim verja hentast má, svo hylli þinni meigum ná.

7. Æ! lát oss þessa þanka hjá, þríeini Drottinn! vakað fá, í öllum vorum athöfnum, á þessum degi blessuðum, þá munu heppnast verkin vor, og velferla til hvert leiðast spor.

8. Þá fylgir náðin þín oss bezt, þitt og fulltyngi styrkir mest, þú hefur heitið því, ó Guð! þín loforð verða' æ fullkomnuð; þau eru já og amen öll. Ætíð þjer vandist lofgjörð snjöll.

## MÁNUDAGSKVÖLD-SÁLMUR.

Lagið: Hef eg mig nú í hvílu mín.

**H**já oss vertu, ó Herra kær! hnígur að tíðin rökkva; hartnær er dagur horfinn skær, hylur oss myrkrið dökkva; allmörg háskasemd yfrið brátt, umkringir máske, þessa nátt, lífið vort krapta klökkva.

2. Skammsýni vor ei skynja má, skaðræði' er kann oss henda, máttar veikir vjer megnum frá, minnst slíkum hættum venda; því er vor ekki þörfin smá, þín hjálpar nálægð veri oss hjá, Drottinn Guð! allt til enda.

3. Æ, statt oss, Faðir! aumum hjá, einka hjálpræðið manna, vonin þjer byggist öll vor á, ei lát

oss minnkun kanna, þú sjer, ef nokkur háski hjer, í húminu' oss máske búinn er, og megnar þau mein að banna.

4. Þinn er mátturinn, Drottinn dýr! og dýrðin ævarandi, öllu sem not og yndi' oss býr, aðstoð þín forði grandi, guðdóms nálægðar gæzlan þín, geymi' oss í nótt með krapti sín, og umsjón æ vakandi.

5. Illt fær oss grandað ekkert þá, ógæfan hlýtur skæða, til værðar og heilla oss vendast þá, vjer í því trausti gæða, óhultir leggjum oss á beð, auðmjúkt þakklæti fáum tjeð, þjer, Drottinn hærstu hæða!

6. Já, mildi Guð! vjer þökkum þjer, þessa dags, velgjörð alla, umsjón þín felum önd og fjer, og eign vora gjörvalla. Vertu hjá oss í vöku' og blund. vor Guð! í lífi' og hels á stund, svo frelsið megi' oss til falla.

## ÞRIDJUDAGSMORGUN-SÁLMUR.

**Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.**

Lofsyng, önd mín! auðmjúklega, æðstum Guði Drottni þín, er þjer sýndi á alla vega, umsjón beztu af gæzku sín; föðurleg hans náð í nótt, nærði vorn og styrkti þrótt; vor hans blessuð verndan gætti, vont svo ekkert snerta mætti.

2. Myrkrið hann að hlíf oss valdi, hvílurúm að griðastað; svefninn kom að hollu haldi, hressing þeirri búum að; með nýjum degi, er nú upprann nýja röksemd gefur hann, upp á vernd og aðstoð sína, er oss vanmáttkum gjörði sýna.

3. Endurhresstir, uppvaknaðir, offra lofgjörð vilj-

um þjer, gæzkuríki' og góði Faðir! gott fyrir allt, sem nutum vjer, þínum gæddir ástar il, eins í nótt og hingað til, óverðugir alls þó finnumst, í auðmýkt hjartans þessa minnumst.

4. Æ! hvað þess vjer erum; Drottinn! að svo mikla hluti' oss ljer, og þannig náðar þinnar vottinn, þín trúfesti oss jafnan tjer? gjörvöll þessi gæzku hnoss, gefið hefir náð þín oss, svo heldur mættir hug vorn leiða, að hlýða þjer og elsku greiða.

5. Æ! vjer meigum ei, vor Faðir! um þá skyldu neita þjer; í þínum krapti göngum glaðir, gegn því oss að höndum ber, og þótt meigum margbreyttum, mæta dagsins freistingum; stattu oss til hægri handar, hrösun engin þá oss grandar.

6. Veit, að ekkert aðhyllst fáum, oss er bannað hefur þú, og ekkert fremur iðka náum, enn að hlýðnast þjer í trú, og elsku blíða' að bjóða þjer, svo blessun öðlumst sanna vjer, í þessa heims og himna vistum, Herrann fyrir Jesúm Kristum.

## ÞRIDJUDAGSKVÖLD-SÁLMUR.

Lagið: Rís upp, mín sál! og bregð nú blundi.

Í þjer vjer lifum, erum, hrærumst, algóði Faðir himnum á! af þinnar gæzku nægð vjer nærumst, niður til vor sem fljóta má. Enn þín trúfestin ól vorn hag, af náð, svo lifðum þennan dag.

2. Viljum, ó Faðir! við það kannast, vörmu þakklæti hjartans með, að gæzkan þín hefur enn oss annast, og yfirfljótandi gæði tjeð, samt þó misbrota sekir vjer, syndguðum, Guð! á móti þjer.

3. Velgjörða þinna þótt að njótum, og þar af síffelt gleðjumst vjer, gleymdum títt þessum gæzku hótum, frá gjafaranum bezta, þjer, samt þjer ei leiðast ljezt enn þá, líknsemi þína' í dag oss tjá.

4. Verndað frá öllum voða' oss hefur, vora gjörvalla þörf uppfyllt, þar með upphvatning góða oss gefið, að gjöra, Faðir! hvað þú villt, að lifa skyldum einum þjer, í dyggð. guðhræðs'u og helgun vjer.

5. Æ Drottinn! þú ef, eins og bæri, afbrot vor straffa vildir skjótt, hvílurúmið vor helsæng væri, húmið refsinga og eymda nótt; en það hughreystir oss, að er, endalaus gæzka' og náð hjá þjer.

6. Þsssvegna vogum vjer að kvaka, vonandi á þitt hjálparráð, að með deginum enda taka, ei látir þína föður-náð, Frelsarans Jesú fyrir deyð, fyrirgef afbrot mörg og leið.

7. Frá þeirra straffi' og eymdum öllum, oss á komandi frelsa nótt, bregzt ei, að vorum bænar köllum, bljúgum þín miskun gegni fljótt, fyrirgefningin æ því er, algóði Faðir! næg hjá þjer.

## MIÐVIKUDAGSMORGUN-SÁLMUR.

Lagið: Guðs Son kallar: komið til mín.

Herra Guð! nafn þitt háblessað, heiðrað, lofað og vegsamað, sje fyrir umsjón alla, er náð þín veitti' oss enn í nótt, endurnærði vort líf og þrótt, og ljet oss allt vel falla.

2. Mjúkust oss hlífði miskun þín, frá maklegu synda straffi' og pín, ógæfu, og voða' afvendi,

veitti' hún oss hvíld og verndar ró, viðhald kröptum og heilsu bjó, sem bezt vorum högum henti.

3. Sjerhvað sem gott og ágætt er, af þinni mildu hendi vjer, þyggjum, gjafarinn góði! fyllir vor brjóst með fagnaðs hnoss, forsmekk ununar tíðum oss, ljenar þú lífs um slóðir.

4. Viðhöndlan öll og verkin þín, vor Guð! af klárri náð framskín, typtun og trega sendir, svo vjer því fegnari verðum þá, varma huggunar svölun fá, frá þinni hjálpar hendi.

5. Mótlæti sendir sorg og kross, svo til auðmýktar leiðir oss, og gleðinnar metum gæði, nóttin og myrkrið minnir á, hve mæta velgjörð oss kann tjá, dagur og birtan bæði

6. Já, allt er gott sem gjörðir þú, vor Guð! það bljúgir játum nú; hjálp oss með huga slíkum, sjerhverju taka', er helzt vorn hag, hendir, byrjaðan þenna dag, að vild þinni vísdómsríku.

7. Hvert sem það verður vært og blítt, vorum ellegar högum strítt, verkun það góða vinni, hollt og sannblessað allt það er, ef það lærum að nota vjer, eptir tilætlun þinni.

8. Geym vor og blessa' oss gáfur þín, gleðji þær oss með notum sín, samkvæmt velþókknun þinni; lífs vora' og sálar nauðþurft nú, í nafni Jesú uppfyll þú; bænheyrslu bón sú finni.

## MIÐVIKUDAGSKVÖLD-SÁLMUR.

Lagið: Nú hefst nóttin og hylur dag.

Eilífi Guð! þjer ekki má, umbreyting nokkur finn-

ast hjá, en lífdagar vorir líða skjótt, líkt skugga burt svo hverfa fljótt.

2. Sjerhvað í kríngum oss sem er, umbreytast jafnan sjáum vjer, en þú ert sami' um eilífð há, áratal þitt ei skerðast má.

3. Hjá þjer umbreyting engin skjer, enn er miskunin söm hjá þjer, og þín trúfestin ástar blíð, eins og hún var fyrir heimsins tíð.

4. Vegna þess lifum vjer, ó Guð! vor er dagferðin útenduð, fyrir þitt náðar fylgi traust, í friðsemd, ólukku- og slisalaust.

5. Þjer sje ódauðleg þökkin tjáð, þá fyrir veitta miklu náð, að oss þú gafst að þekkja þig, og þín skoða verkin guðdómlig.

6. Þjer fyrst umbreyting ekki' er hjá, og eilífa gæzku vilt oss tjá, aldrei bregðst hjálp þín elskuleg, oss, þegar setjum von á þig.

7. Dagur er liðinn, ljósið flýr, að lotum sjerhvað þannig snýr; en það vor huggan er og traust, æ sem vort gjörir lyndið hraust.

8. Drottinn! að þig vjer eigum að, í þessum valta samastað; þú ert vort ljós og hjartans hýrt, hlutskipti' um eilífð náðar dýrt.

9. Oss hefur verndað æ þín hlíf, og vort hingað til sparað líf, framhaltu gæzku þínum þrótt, um þessa geym oss og varðveit nótt.

10. Æ! hversu, Faðir! erum vjer, óstöðugir að hlýða þjer; ómaklegum veit samt ásjá, syndugum vyrst oss miskun tjá.

11. Fyrirgef dagsins afbrot öll, umber vor mörgu

breiskleiks föll, fyrir kross-pínu frelsarans, og friðþægjandi dauða hans.

## FIMMTUDAGSMORGUN - SÁLMUR.

Lagið: Kom skapari heilagi andi.

Uppgöngu sólar allt í frá, og hennar niðurgöngu til, vegsemd þjer, drottinn! hefjist há hjartans af vörmum þakkar il.

2. Til vinnu daginn valdir bezt, en værðar og hvíldar skaptir nótt, vel svo að fengi hún oss hresst, og hverrar skepnu lífgað þrótt.

3. Æ! hví nú skyldum ekki vjer, á morgni þessa nýa dags, ástar þakklæti offra þjer, umsjón fyrir vors lífsins hags.

4. Hvíldar nótt marga' og blíðan blund, blessuð náð þín oss hefur veitt, lítið þess gálaus gætti lund, galt þakkar offur sjaldan neitt.

5. Fyrirgef, bezti Faðir! oss, fráleitt athugaleysið það, fyrir þinn Son, er fjekk á kross, frelsi heiminum útvegað.

6. Meðtak af þinni mildi nú, mjúkustu þakkar fórn, sem vjer, yðrandi' af hjartans ást og trú, í nafni Jesú færum þjer.

7. Í dag og jafnan viljum vær, í verkinu þakkir sýna' af rót, framkvæmdarsamir, Faðir kær! fyrir þín meðdeild náðar hót.

8. Vjer bæði orða' og verka dáð, viljum ásamast láta þrátt: að þína' ei forgefins þýðu náð, þegið höfum, nje vernd í nátt.

9. Um sá þín forsjón ástúðleg, æ vorn gjörvallan

lífsins hag, æ! vjer viljum því elska þig, og veita hlýðni sjerhvern dag.

10. Styrk oss með krapti þínum þá, þennan á-setning góða' í dag, framkvæma, svo vjer frelsi ná, fyrir vorn mættum sálar hag.

11. Veit, svo lífernið vöndum, að, verða mætti til dýrðar þjer, með trúskap, árvekni' og iðni það, æ stundum kall, sem ljent oss er.

12. Guðhræðslan ávöxt gefi' oss hjá, gjörð vorrar bænar stöðug sje; þakklæti heitt oss fljóti frá, og fögur lofgjörð þjer í tje.

13. Þá munum dýrðar hreppa hnoss, himnaríkis í sælli vist. Blíðasti Faðir! bænheyr oss, blessaðan fyrir Jesúm Krist!

## FIMMTUDAGSKVÖLD - SÁLMUR.

Lagið: Nú bið eg, Guð! þú náðir mig.

Ó Guð! vjer kvökum enn til þín, aumum syndurum miskun sýn, einum deginum erum vær, eilífðinni nú fluttir nær; oss verður hún og öllum lýð, uppskeru - og reikningsskapartíð, vor það samvizka vitna má, vjer hvernig bjuggumst undir þá.

2. Æ! tækifærið allmargt það, í dag vjer höfum forsómað, til góðs er brúkað gátum vær, en gjörðum það ei, Herra kær! endurkeypt verður aldrei hjer, ónotuð tíð, sem mistum vjer; heilla stund margri, er var oss veitt, vjer án nytsemdar höfum eytt.

3. Mörg dýrmæt gæði þáð af þjer, þakkarlaust er meðtókum vjer, athugalausir um vorn hag, ónýtt höfum vjer þennan dag. Æ! vor gáleysis af-

brot þrá! allt þetta gegn oss vitna má, syndanna hversu hefur hald, hrifið oss undir þeirra vald.

4. Leiðir slíkt að því ljósan sann, hvað lítið oss ágengt verða kann, daglegri framför dyggða ná, Drottinn! og elsku þjer að tjá, með þakklæti' og hlýðni þín við boð, en þar til hefur þú veitt oss stoð, þjer að vjer greiddum skildu skil, og skeið lífs vort blessað hingað til.

5. Æ! Faðir! miskun samt oss sýn, svo ei rjettlætis hegning þín, yfir oss falli, eins og ber, enginn mannanna fyrir þjer, fullvel rjettlátur finnast kann, fullkominn þótt að sýnist hann; sýndu oss vægð og vorkun nú, vorn þekkir breiskleik sjálfur þú.

6. Minnstu grunnlausrar gæzku þín, Guð Drottinn! fyrir Jesú pín, allt vort ranglæti' og illverknað, afplána þú, og forlát það; veit oss þinn guðdóms verndar þrótt, og varatekt um þessa nótt, og öllu illu' oss frelsa frá, Faðir ástkær! þig vonum á.

## FÖSTUDAGSMORGUN-SÁLMUR.

Lagið: Nú skal enn í Guðs trausti

Lof skal þjer fagurt færa, fyrir vorn Drottinn Jesúm Krist, fyrir hvers frelsið skæra, friður og náð oss hlotnaðist; af þinni gæzku glaðir, og gæzlu vors lífsins hags, offrum þjer uppvaknaðir, auðmjúkri lofgjörð strax; þökkum vjer gæzku þinni, þitt prísum nafnið hátt, hagkvæma fyrir hlynning, og hjástoð oss veitta' í nátt.

2. Í þínu nafni náðar, nýja morgun-stund byrjum vjer, og trausti dýrstu dáða, dagsins þjáningum mætum hjer. Í freistinga hættum heimi, höfum vjer breiskir dvöl, vort hjarta' oss tál drægt teymir, og tíðum vort eykur böl. Yfirgef, Drottinn! eigi, oss veiku börnin þín, ótti þinn hug vorn hneigi, að hver gæti skildu sín.

3. Gef í vanmætti vorum, verði þinn kraptur, fullkominn, svo vjer ei venda þórum, af vegi dyggða nokkurt sinn. Æ! vor Frelsarinn æðsti! ó! herra Jesú kær! talsmaður hjálpar hærsti! heyr hvers nú æskjum vær; bið þinn Föðurinn blíða, bezt fyrir oss í dag, að veiti' hann umsjón þýða, andar og lífsins hag.

4. Æ! bið: að allar stundir, sem eigum vjer dvelja í veröld hjer, fáum burt frá oss hrundið fýsna' og heims dæma vondum her, og hneixlunum við oss vörum, vaki' oss hjá bænin góð, fram svo víslega förum, fagurra dyggða slóð. Lát í dag verkin vinnast, vor, eins og kristnum ber, og hjörtun, Faðir! finnast, fyrir rjettskikkuð þjer.

## FÖSTUDAGSKVÖLD - SÁLMUR.

Lagið: Sólin upprunnin er.

Drottinn! vjer þökkum þjer, þú, Guð alvaldi! þín gæzkan ekki þver, þín miskun aldrei, endar um ár, eilífðarinnar dýru. Hjer fyrir höfum þáð, og hreppt í dag af náð, hagsældir hýru.

2. Ríkugleg blessan bjó, oss beztu gæði, hverskyns neyð frá oss fló, og fárið bæði. Voldug þín

vernd, vor Guð! frá slisum bægði, tilbiðjum auðmýkt í, augliti fyrir því, þínu' er oss þægði.

3. Þjer hjartans þýðri' af rót, þakklætið innum, öll fyrir elsku hót, er hjá þjer finnum. Í dag þú oss, umburðarlyndið blíða, veittir og vægð í náð; vegsemd þjer æ sje tjáð, lífgjafinn lýða!

4. Þetta kvöldoffur þjer, þýðasti Faðir! frambjóða viljum vjer, vonum þess glaðir: að virðist enn, í náð því móttekt veita, það, Drottinn! einlægt er, ófullkomnun þó ber, minnst má því neita.

5. Auðmjúkar bænir á, æ viltu heyra, kvak vort þitt merkja má, miskunar eyra, Faðir ástkær! felum vjer umsjón þinni, líf, sálu' og efnin öll, í nótt, svo meinaföll, oss engin finni.

6. Handaverk hagleg þín, Herra Guð! erum, Frelsarans fyrir pín, friðinn uppskerum. Æ! lát oss ei, úr þinni glatast hendi; þín blessuð guðdóms gnótt, geymi' oss vel þessa nótt, og aðstoð sendi.

7. Þegar oss þannig hjer, þitt fylgi' auðsýnir, í svefni og vöku vjer, æ verðum þínir, og hvert sem oss, ætlar fjörs langar stundir, eður skjótt aðber hel, oss verður borgið vel, umsjón þín undir.

8. Æ! veit oss, ó Jesú! í friði þínum, svefnværða njóta nú, neyð forða og pínum. Unn þú oss upp, aptur heilbrigðum standa, að meigum alla stund, eilífðar fram á mund, vegsemd þjer vanda.

## LAUGARDAGSMORGUN - SÁLMUR.

Lagið: Einn herra eg bezt ætti.

Allt hvað andardrátt hefur, eilíft lof syngi þjer,

Guð! sem að allt það gefur, gott, sem meðþurfum vjer; þökk og prís honum hefja, hæfir þjer, sála mín! í nótt sem oss rjeð vefja, örmum hjálpræðis sín.

2. Ó Guð! þjer leiðist eigi, öllum að veita gott, hver dagurinn soddan segir, sama ber nóttin vott, æ! skyldum vjer þá eigi, upplypta hjarta' og raust, til þín, sem vora vegi, verndaðir endalaust.

3. Frá lífsins fyrstu stundu, fram allt á þenna dag, æ þig trúfastan fundum, Föður, sem vorum hag, viðhjelt og vel að hlinnti, væri því nauðsýn á, að morguninn oss áminnti, mjúkustu þakkir tjá.

4. Vörmum af ástar anda, ættum vjer nafni þín, lofgjörð veglega' að vanda, veitt fyrir gæði sín, í nótt og næstum líka, nú liðna viku tíð, þótt synda ráðið ríka, rækt höfum fyrr og síð.

5. Vjer höfum vora skyldu, vanrækt, ó Herra! þrátt, ljá oss þína liðsemd mildu, linan vorn efla mátt, að vjer endurkeypt fáum, umliðinn tíma dags, og vikunnar vanrækt náum, venda til betra lags.

6. Gef að ei gleyma kunnum, gœzku ráð prísa þitt, og þjer því heitar unnum, sem afbrot gafst fleiri kvitt, morguninn oss áminni, morgun upprisu dags, og að nær líf vort linnir, lifnum til betra hags.

7. Veit oss, að vjer svo meigum, vel brúka þenna dag, og hvern þann sem eptir eigum, af vorum lífsins hag, eins og hann ætti vera, æfinnar takmarkið, seinasta', er sál muni bera, sætt gegnum lífsins hlið.

8. Gef þín svo boð aðgættum, Guð! meðan lifum hjer, að vjer andaðir mættum, uppvakna' í dýrð hjá þjer; veit sjerhver glöggt að gái, gjörvallri

skyldu sín, svo óskelfður fundist fái, fyrir dóm-stóli þín.

## LAUGARDAGSKVÖLD-SÁLMUR.

Lagið: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

Þín líknsemd, Drottinn! þrot ei fann, þín þolinmæði' ei bregðast kann, gæzkan þín grunnlaus er, í dag það reyndum enn þá vjer, og viku þá sem burt nú fer.

2. Oss hefur bæði og allt vort þú, enn dásamlega blessað nú, oss brestur ekki neitt, á það góða' er gátum neytt, og gæzkan þín hafði loforð um veitt.

3. Heiðrist nafn þinnar hátignar, heilagi Guð! til eilífðar, þín miskun eilíf er, náðar frest enn fengum vjer, Faðir! eina viku hjá þjer.

4. Á henni ljet þín ástin trú, ótal velgjörðir fljóta nú, til vor í vöku' og blund, beztu gafst oss björg í mund, og blessun hverja dægranna stund.

5. Hlífð og varðveizlu hlutum vjer heilbrigði' og auðna veitt oss er, fyrirgafst fjöl-æfð brot, margföld gaf oss gæða not, gæzkan þín, sem aldrei fær þrot.

6. Til egin farsældar eblingar, uppörfun gefin títt oss var, hag sálar hirða bezt, guðhræðslunnar gæta mest, geyma dyggð og afleggja brest.

7. Æ! hvað þó, Drottinn! erum vjer, og athafnir þær sem fremjum hjer, þess vert, að þannig breytt, við oss fjekkst og líf vort leitt, líknarfyllsta hjálpræðið veitt.

8. Hefur ofan á þetta þú, þá í vor hjörtu gefið

trú, að meigum vona vær, framvegis að, Faðir kær! fulltingi þitt æ verði oss nær.

9. Ó! hversu veik þó er vor dyggð, og umbót á klökkum stofni byggð? elskan vor ísköld þrátt! vort þakklæti víst er smátt, vor kvikul hlýðni á allan hátt.

10. Guðræknin ávöxt lítinn ljer, æ! lög þín margopt brutum vjer, ó Guð! á alla grein; náð þín við oss haldist hrein, svo hreppum ekki glötunar mein.

11. Mildasti Faðir miskunar! misgjörðir vorar þráfaldar, fyrirgef nú af náð; vikunnar afbrot verði' afmað, væg oss og sýndu líknar dáð.

12. Sakir grunnlausrar gæzku þín, Guð! oss brotlegum miskun sýn, vorri bæn veit ásjá; minnstu heit þín ástar á, í Jesú nafni líkn oss tjá.

13. Í nafni hans með hugrótt geð, hvíldar til leggjum oss á beð, tvíllaust því trúum vjer, í nótt, ef dauðans blund að ber, borgið sálunni fyrir hann er.

14. Fyrir hans dauða' og frelsis mund, fær dauði vor í værðar blund, blessaðan snúist brátt; eymda frí á allan hátt, eilífri sæld þá fögnum vjer dátt.

---

# Viku-kvöld-sálmar.

## FYRSTI SÁLMUR.

Lagið: Jesú Kristi þig kalla' eg á.

Lof sje þjer, Guð! fyrir liðinn dag, og lukkusæla

stjórn alla, þú hefur leitt minn lífsins hag, og látið mjer allt vel falla; þó hefi' eg blessuð boðorð þín, brotið í margan máta, hvað eg nú játa; — minnstu aldrei á illverk mín, unn mjer af syndum láta.

2. Nú er að komið náttarþel, nú vil eg hvíldir taka, ó Guð! sem geymir Ísrael, yfir mjer virðstu vaka; lát þú nú verndar vænginn þinn, vandlega að mjer gæta, með svefnró sæta, veittu mjer, heilla hirðir minn! hjúkrunar nákvæmd mæta.

3. Vertu nú minni hvílu hjá, með heilögum engla skara, óvini dríf þú alla frá, en mig heilan bevara; líkamann láttu sofa sætt, en sálina í þjer vaka, og tilsjón taka; draumóra, ógn og illa vætt, aldrei láttu mig saka.

4. Eg befala þjer, Drottinn dýr! dag og nótt sálu mína; breið þú yfir mig herra hýr, heilaga blessun þína; líf og ástvini, eign og bæ, utan og innan gátta, og þá hjer hátta, Guð minn! eg þjer í geymslu fæ, gjör þú hjá oss að nátta.

5. Eg legg nú saman augun mín, í Guðs nafni og trausti; signi mig heilög höndin þín, hirðir minn góði og hrausti! signdu fólkið, og signdu hús, signing þessi oss hlífi, og illt útdrífi, signingin þín, sæti Jesús! signuð yfir oss blífi. Amen.

## ANNAR SÁLMUR.

**Lagið: Halt oss, Guð! við þitt hreina orð.**

Ó Guð! sem geymir Ísrael, og öllum hlutum stjórn-

ar vel, af hjartans rót eg þakka þjer, það í dag hefur gætt að mjer.

2. Almáttug hönd og ásjá þín, enn hefur náð og sjeð til mín. Lof sje þjer, Guð! fyrir lán og hag, lífið, heilsu og vernd í dag.

3. En hvað eg hefi, aum mannkind, áreitað þig með margri synd, Guð minn blessaður! gef það kvitt, fyrir gæzku þína' og nafnið þitt.

4. Náða blóð Jesú, sviði og sár, sálarangist, kvöl, hryggð og tár, breiðist út yfir brotin mín, og byrgi þau öll fyrir augum þín.

5. Þessi dagur nú úti er, en náttartíð að höndum fer; Guð minn góður! eg gef mig þjer, gættu nú enn í nótt að mjer.

6. Eg vil ganga til náðar nú, nú bið eg, Guð! mig geymir þú; vertu hjer minni hvílu hjá, hjá mjer vak þú og að mjer gá.

7. Umkringi mig á alla hlið, ásjá þín og þitt engla lið, sem forði aðsókn andskotans, árásum flærð og svikum hans.

8. Veittu mjer, Drottinn! værð og ró, vek mig í rjettan tíma þó; líkaminn sofi sætt sem ber, sálin og andinn vaki' í þjer.

9. Skýl þú mjer þinni skepnu kind, skapaðri eptir sjálfs þíns mynd, höndin þín nákvæm hjúkri mjer, og hlífi við því sem skaðlegt er.

10. Svæfillinn minn og sængin mín, sje önnur mjúka höndin þín, en aðra breið þú ofan á mig, er mjer þá værðin rósamlig.

11. Blessa þú, Drottinn! bæ og lýð, blessa oss

nú og alla tíð; blessun þína oss breið þú á, blessuð verður oss hvíldin þá. Amen!

## ÞRIÐJI SÁLMUR.

Lagið: Einn Guð skapari allra sá.

Nú hefst nóttin og hylur dag, hver mann skilst við sitt verkalag; Guð láti oss vel ganga það, og gæti vor með sinni náð.

2. Af nótt og myrkri ógn og fár, almennilega jafnan stár, son Guðs! vak þú og sjá vorn hag, sú vernd nægir oss nótt og dag.

3. Leys oss alla af löst og synd, til leiðrjettingar veit oss stund; gef oss vizku að göngum vjer, grandvarlega, svo líki þjer.

4. Forða þú hvílu flekkun við, fylgja lát þú oss hreinum sið, banna að spilli vorri værð, vondir draumar og djöfuls flærð.

5. Hvers sem nú framar biðja ber, bræðrum kristnum og sjálfum mjer, líknsami Guð! þú lít þar á, og lát oss þína miskun fá.

6. Föður, Syni og Anda sje, æðst lof, dýrð, heiður eilífi, sem í upphafi er og nú, æfinlega sje virðing sú. Amen.

## FJÓRÐI SÁLMUR.

Lagið: Væri nú Guð oss ekki hjá.

Hef eg mig nú í hvílu mín, himna Faðir! að vanda, yfir mig lýsi ásján þín, ei lát mjer satan granda; þó augun lykist aptur hjer, andann lát vaka samt í þjer, ógn rek burt allra handa.

2. Eg þakka mjúkri miskun, þín minn Guð! af huga hreinum, að þennan dag frá dapri pín, dauða og andar meinum, mig verndað hefur veikan þjón, svo veitti' ei minnsta satan tjón, með flærðar sárum fleinum.

3. Eins sem dauður á allan hátt, eg ligg í hvílu minni; hefur nú ekki höndin mátt, nje hugurinn veikur sinni, eg veit ei hvort mjer auðnast á, aptur að morgni ljósið sjá, treysti' eg þó tilsjón þinni.

4. Hjartans bið eg að hræring þú, heilögum stjórnir anda; draumórum burtu döprum snú, og draugum allra handa; engill þinn drífi æ mjer frá, andskotann, sem þar stundar á, gráðugur þínum að granda.

5. Biðjandi framar blessun þín, blíði Faðir! með tárum, sömuleiðis þú sjá til mín, við satans forða árum; hjer ligg eg eins og látinn mann, lífsbjörg enga sjer veita kann, hlaðinn með synda sárum.

6. Sæta lofgjörð skal syngja þjer, sála mín, herra góði; þá loksins aptur ljósið sjer, og ljettir þungum móði. Minnandist þína miskun á, myrkranna skelfing leystur frá, þín huggun mitt hjartað rjóði.

7. Láttú yfir mjer ljóma nú, ljós þíns heilaga anda, svo að eg mætti í sannri trú, syngja lofgjörð og vanda, nótt þessa leys mig nauðum frá, nú bið eg Guð þú sjert mjer hjá, Herrann himna og landa.

8. Umhyggja, sorg og angrið með, allt nú í burtu fljóti; halla eg mjer svo hægt á beð, hvíldar í náðum njóti. Þó sígi hægur svefn mig á, samt vaki öndin Drottni hjá; hans aldrei heiðurinn þrjóti! Amen.

## FIMMTI SÁLMUR.

Með sínu lagi.

Dagur og ljós þú Drottinn ert, dimmt og hulið allt er þjer bert; þú Guðs Föðurs ljómandi ljós, ljósan sannleika kennir oss.

2. Þig biðjum, herra heilagi! hlíf oss á nóttu þessari; láttu oss hafa hvíld í þjer, hæga nótt einnig þyggjum vjer.

3. Svefnórar falli oss ei á, andskotans vjelum leys oss frá, að svik hans ei samþykki hold, svo af þjer komi ei á oss gjöld.

4. Þó augun taki svefn til sín, samt lát vor hjörtu vaka til þín; almáttug hönd þín þyrmi nú, þjónum, sem elska þig með trú.

5. Sjá oss, Jesú! vor heill og hlíf, hept þeim, sem svíkja önd og líf; kom nú til hjálpar kristinni þjóð, sem kvittaði þitt blessað blóð.

6. Mildasti Jesú! minnstu vor, mörg er neyð holdsins þung og stór; þú ert alleina vor andar vörn, ætíð varðveit þú oss, þín börn.

7. Guði Föður sje sungin dýrð, Syni hans Jesú þakkargjörð! og helgum Anda, sem huggar einn, á heiðri þeim sje ei endir neinn! Amen.

## SJÖTTI SÁLMUR.

Með sínu lagi.

Einn Guð skapari allra sá, alls himins ráð og jarðar á, daginn skrýðandi með dýrsta ljós, dimm nótt að skyldi svæfa oss.

2. Aflýjast mætti lífið þreytt, lengur ei sjer til

vinnu neitt; hugraun linni og gleðji geð, grátur og harmur hverfi með.

3. Umliðnum degi allir vjer, af hjarta syngjandi þökkum þjer, byrjandi nótt þig biðjum nú, bjarga oss, sem þjer hjetum trú.

4. Þig heiðri hjartans þelið allt, þig lofi rödd og málið snjallt; þig ást vor jafnan elski einn, þig ákalli vor andinn hreinn.

5. Djúpt þó niðri hin dökka nátt, dagsljósið frá oss byrgi brátt, sortni aldrei hin sæla trú, satt ljós líð kristnum ljómi nú.

6. Sál verði ei af svefni móð; sofi frá löstum kristin þjóð, að trúan, hreinlífan haldi sið, hófsemdar æ mun þurfa við.

7. Sofenda brjósti bygg þú í, að blekking holds ei grandi því, nje óvinarins illa vild, aðsókn framkomi' og hindri hvíld.

8 Krist og Föður vjer köllum á, Krists og Föðurs þar Andann hjá, eining heilög og þrenning þú, þínum líð kristnum líkna nú. Amen.

## SJÖUNDI SÁLMUR.

Með sínu lagi.

Jesú Frelsari fólks á jörð, Föðursins hæsta eilíft orð, ljós þess ljóssins sem enginn sjer, svefnlaus hirðir þeim treysta þjer.

2. Þú, sem skapari allra ert, aðgreining tíma hefur gjört, mannsholdið dagleg mæða lýr, með nætur hvíld því næring býr.

3. Hold vort líður nú hryggð og kvöl, hjervist

mannleg er lítil dvöl; sofni líkaminn sætt með frið, sálin í Kristó vakni við.

4. Með auðmýkt biðjum allir nú, að oss frá óvin frelsir þú, svo komist ei að kristinni þjóð, sem kvittaði þitt blessað blóð.

5. Herrann Jesú vjer heiðrum einn, hjálpari vor er ei annar neinn, hann gaf oss líf og leysti önd, lof sje honum á hverri stund! Amen.

---

Sjö

# Kvöld-sálmar,

ortir af

## Grími Laxdal.

### FYRSTI KVÖLDSÁLMUR.

Lagið: Gleð þig Guðs sonar brúð.

Ljóminn dags liðinn er, lof syngjum allir vjer, Guði, sem vernd oss veitti, við oss sem mildur breytti, Faðir, við barn sitt blíða, burt vendi neyð og kvíða.

2. Gaf oss líf, heilsu hjer, og hvað sem þurftum vjer, ánægju, föt og fæði, frið, hlíf og allskyns gæði, á önd og líkama' alla, oss ljet blessun tilfalla.

3. Enginn upptalið fær, ótal velgjörðir þær, er Guð á allar lundir, oss veitti lífs um stundir; þó er sú mildin mesta, miskun og hjálpin bezta.

4. Að sendi Soninn oss, sinn fyrir unda foss, kenningu, kvalir nauða, og krossins bitran dauða, veitti oss vingan sanna, við Drottinn himna ranna.

5. Athuga eigum það: allir í kvalastað, um eilífð

áttum líða, eymd og hrellingu stríða, hefði ei Herrann góði, hörmunga leyst úr flóði.

6. En hverju eigum vjer, ó Jesú mildi! þjer, aumir aptur að gjalda, elsku, hlíf, náð margfalda, er oss á alla vega, enn veitir þú daglega.

7. Þakklæti það sem vjer, (þráfaldlega svo sker), eigum þjer aptur bjóða, ó Jesú! mildin góða, af hjarta, hug og anda, hyrðum þó lítt að vanda.

8. Breiskleik og brotin mín, blessaða miskun þín, eg bið nú, Guð! án efa, öll mjer að fyrirgefa, og leiða lífs á vegi, löstum svo frá eg deyi.

9. Í nótt og æfi tíð, alla, þín forsjón blíð, yfir oss ætíð vaki, engin svo neyð oss saki, veit þú oss vært að sofa, vöknuðum þig að lofa.

10. Háleitust heiðrun, dýrð, Herra Guð! sje þjer skýrð, samt þínum Syni ástkæra, sungið lof, þökk og æra, heilögum allt eins Anda, æðsta prís skulum vanda. Amen.

## ANNAR KVÖLDSÁLMUR.

Lagið: Allt eins og blómstrið eina.

Lof sje þjer ljúfi Faðir! liðna dags fyrir tíð, ótal vjer gæða glaðir, er gaf oss náð þín blíð, á henni náðum njóta, nú biðjum einnig vjer, lát við oss líkn ei þrjóta, líf og önd felum þjer.

2. Umgirð oss engla liði, alla svo frí við pín, sofum með fró og friði, fram til þess dagur skín, vaknaðir viljum gjalda, vegsemd og heiður þjer, æ! virstú eins framhalda, aumum að líkna mjer.

3. Hjer fyrst í heim þá fæddumst, Herra! af þinni

náð, allskyns vjer góðu gæddumst, göfgist þitt hjálpar-ráð, eins hefur Föðurs fríða, forsorgað hönd þín mig, og ljent mjer umsjón blíða, allt hingað lífs um stig.

4. Veit oss að vaka' og biðja, vertú oss, Drottinn! nær, virst oss í stríði stiðja, stöðugir svo að vær, þínum í krapti þreyjum, þraut ef að höndum ber: sælum með sigri deyjum, svo erfum dýrð hjá þjer. Amen.

## ÞRIÐJI KVÖLDSÁLMUR.

Lagið: Landsdómarinn þá leiddi.

Jesús Lausnarinn lýða, lof og heiður sje þjer, að heilög hönd þín blíða, hverskyns sem blessun ljer, oss í dag hefur hjer, lífsins á stigum leidda, lífsbjörg þá vel tilreidda, þú ljezt, sem þurftum vjer.

2. Blessi oss nætur blundinn, blessuð, Guð! náðin þín, eins sjerhver æfistundin, og athöfn blessist mín, líkams hjer líf unz dvín, blessa' oss í deyð og dómi, dýrðar með sigur blómi, sálirnar síðan krýn.

3. Allt hvað lífs anda hrærir, og heiti nokkurt ber, og heilög hönd þín nærir, um heiminn hvar sem er, um lopt hvað líka fer, sjerhvað með sínum hljómi, sæmd, æru, lofgjörð rómi, og dýrð, minn Drottinn! þjer.

4. Vald, heiður, vegsemd, æra, veitt sje, Guð Faðir! þjer, samt þínum Syni ástkæra, sem að oss frelsi ljer, æðst lof það aldrei þver, heilögum einnig Anda, eilífa dýrkun vanda, af alhug viljum vjer. Amen.

## FJÓRÐI KVÖLDSÁLMUR.

Lagið: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Hjartans með raust eg hrópa' á þig, Herra minn, Jesús blíður! yfirgefðu nú ekki mig, enda því dags að líður.

2. Vert þú, ó Jesús minn! hjá mjer, með náð og blessuninni, svo eg framgangi' í heimi hjer, handleiðslu geymdur þinni.

3. Umliðinn dag og æfitíð, alla í veröldinni, Herra! mig leitt þín höndin blíð, hefur með nákvæmd sinni.

4. Skylda mín því nú aptur er, ó Jesú! þjer að gjalda, allt fyrir gott sem unntir mjer, elsku og þökk margfalda.

5. Enn þó jeg gjöri ofmjög hjer, opt þig til styggðar reita, lætur þú ekki leiðast þjer, líkn og náð mjer að veita

6. Fyrirgef brot og bresti mín, blessaði Jesús kæri! svo mjer þinn dauði, sár og pín, sálar-heill beztu færi.

7. Svo að eg megi sofa rótt, sviptur frá öllu grandi, þín engla fylking enn í nótt, yfir mjer sje vakandi.

8. Og ef þú lætur yfir mjer, aptur dagsljósið skína, lát mig þá gjalda lofgjörð þjer, líkn og náð fyrir þína.

9. Enn ef í nótt þú ætlar mjer, auman við heiminn, skilja fel eg sál mína' í faðm á þjer, fús dey að þínum vilja.

10. Lát oss svo hvern dag lifa hjer, lífs meðan

tíð af þreyjum, að sje oss, ó Jesús sæll! hjá þjer, sælan vís, burt þá deyjum.

11. Veit þú svo um eilíf ár, engla með helgum skara, þig prísa guðdóms þrenning klár; það fyrir vorn Lausnara.

12. Bið eg þess, Guð! þín blessuð náð, bænarraust gegni minni, sje þjer um eilífð sungið, tjáð, sætt lof af kristni þinni. Amen.

## FIMMTI KVÖLDSÁLMUR.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Enn er dagstíðin útenduð, elskuríkasti herra Guð! alskygni Guð! fyrir augu þín, auðmjúk framkrýpur sálin mín, bjóðandi þakkir blíðar þjer, bezt sem gættir í dag að mjer.

2. Frá minnar æsku fyrstu stund, föður hönd þín, á alla lund, geymt hefur mig og greiðt í hag, gjörðir mínar um sjerhvern dag, vernd þín allstaðar var mjer hjá, voða, neyð, slisum bægði frá.

3. Æ! hvað kaldsinna erum vær, að þvílík náð og líkn einskær, óverðugum á alla lund, er oss veitist þó hverja stund, ei skuli verka oss það hjá, að vegi synda hverfum frá.

4. Ótal bendingar lífs um leið, ljenar Guð oss með sæld og neyð, svo huga snúum heimi frá, en hans að vilja stundum á, dyggð og mannkosta sannan sið, sælan að eignumst himna frið.

5. Það er grátlegt, að þankalaust, þessa forsmáum náðar raust, höfum sjaldan í huga það, hels

þegar stundin kemur að, umvendunar er óviss tíð, áður forhertum glæpa lýð.

6. Ó Guð! vor hjörtun uppvek þú, að vjer með sannri hlýðni og trú, yðrun gjörum og yfirbót, allskyns hatandi verkin ljót, lastvara þannig lifa hjer, lát oss, hvað sem að höndum ber.

7. Öruggri þeirri eg í trú, ánægður geng til hvílu nú, um þessa nótt og alla tíð, að mig þín geymi verndan blíð, og svo loksins þá æfin þver, inn leiðir mig í dýrð hjá þjer. Amen.

## SJÖTTI KVÖLDSÁLMUR.

Lagið: Herra Guð í himnaríki.

Liðinn er dagur, ljós hans dvín, líður svo æfin manna, angráður kvaka eg enn til þín, ó Drottinn herskaranna.

2. Óverðugur þó eg sje mest, elsku og náðar þinnar, samt þig af hjarta bið eg bezt, brunnur miskunnarinnar.

3. Allar syndir um æfi mín, er mót þjer framið hefi, miskunar nægð og mildi þín, mjer bið eg fyrirgefi.

4. Gef svo á meðan hjari eg hjer, hvern dag í veröldinni, af öllu hjarta þjóni þjer, þín hafi boð í minni.

5. Hvar sem eg dvel í hverjum stað, hjá mjer sá þankinn vaki, hver stundin ber mig óðum að, andar síðasta taki.

6. Girndir heims svo ei ginnist á, gef mjer þá hugsun fasta: augnablik þetta máske má, míns verða lífs síðasta.

7. Hjá mjer líka sú hljómi raust, heims þegar tímar linna: allir strax hreppa endalaust, endurgjald verka sinna.

8. Velgengnis þegar vær gefst tíð, varlega lát mig breyta, þakklæti með eins þiggi eg, blíð, þín hönd hvað mjer kann veita.

9. Þungbær ef höndum þraut að ber, þolinmótt gef mjer sinni, bænrækinn að eg bíði hjer, blíðri hjálp eptir þinni.

10. Hjártans Faðir og herra klár, higg að grátbeiðni minni, amen amen um eilíf ár, aldrei þinn heiður linni. Amen.

## SJÖUNDI KVÖLDSÁLMUR.

Lagið: Væntu æ dauðans, vinur kær!

Dagur og vika enn nú er, eins og náð Drottins fyrir sjer, að liktum komin, lífs svo tíð, leiðist vor allra burt um síð.

2. Vernd fyrir dags og vikunnar, viðhaldið lífs og heilsunnar, dyrð sje þjer eilíf, Drottinn minn! dag hvern margfaldist heiður þinn.

3. Herra Guð! fast það hjartalag, hjá mjer innrættu svo hvern dag, heims meðan varir hjervistin, hugsi' eg sífelt á dauða minn.

4. Efalaust allir vitum vjer, vís að oss dauðastundin er, engin með vissu þó veit það, þessum nær tíma kemur að.

5. Útstaðið dauðans eptir stríð, allsherjar dómsins kemur tíð, sem að laun gjeldur sjerhverjum, sínum hjer eptir athöfnum.

6. Eilífan dýrðar alfögnuð, útvöldum með sem lofar Guð, hljóta þeir þá, sem heims í vist, hreinni lifðu með trú á Krist.

7. Ógnarleg Drottins reiði raust, ránglátum mun þá vægðarlaust, úrskurða sálar eilíft tjón, útreknum frá hans dýrðar sjón.

8. Í Guðs nafni því oss gætum að, Guðs biðjum náð að veita það, yðrun fyrir vor afbrot ljót, að vjer gjörum af hjartans rót.

9. Leitum því ætíð Lausnarans, lifandi í trú á pínu hans, hann því engan sjer hrekur frá, hann sem yðrandi treystir á.

10. Aldrei Guð vantar vilja og ráð, vjer ef að um hans biðjum náð, allra meinsemdir ætíð sjer, öllum að hjálpa fús hann er.

11. Þess eg af hjarta blíðast bið, blessað Guðs Sonar fulltingið, daprastan fyrir dauða sinn, dauða míns sefi harmkvælin.

12. Öll þegar mannleg aðstoð þver, æðst þín hugsvali náðin mjer, sál mína fríja' af synd og neyð, síðan í ríki þitt innleið.

13. Gef mjer þar lifa og lofa þig, ljúfi Jesú! sem fyrir mig, sigurinn unnið hefur hjer, heiðrun eilífa gjalda þjer.

14. Heilög guðdómsins þrenning þjer, þú hvers ríkið og maktin er, heiður sje, lof og hærsta dýrð af hjarta og tungum allra skýrð. Amen.

Tveir versa flokkar,
ortir af
sjera **Sigfúsa** prófasti **Jónssyni** á **Höfða.**

Fyrri flokkurinn.

# Vikuvers kvöld og morgna,

öll með laginu: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

---

1. **S**ól rjettlætis! himin hjarta, hátt upp ljóma vermandi, Jesú! lífsins ljósið bjarta, lífga andann kveinandi; dagur þessi dýrkist þjer, dagur þessi blessist mjer, hrind burt, sál mín! holdsins blundum, halt sabbat í Jesú undum.

1. Sunnudagsins ljós er liðið, lýs þú, Herra Jesú! mjer, á ljóss eilífa' og lífsins miðið, í ljósinu svo gangi eg hjer, leið þú mig um ljóssins veg, svo ljós í Drottni verði eg, og skrýðast ljóssins skrúða mætti, þá skriðljós æfi brúka hætti.

2. Í þínu, Jesú! náðar nafni, nú byrja eg mánudag, sálar ferju stýr þú stafni, og starfi mínu öllu í hag, hvað eg tala, hugsa, vinn, hjálpi þar til andinn þinn, að það sálu ekki meiði, en til lífsins veginn greiði.

2. Í Jesú nafni helgu hátta, hvörmum læsi þar upp á, linni holdsins leið barátta, lýsi andinn sigri þá; í faðmi Jesú hvílist hann, hressing fái ytri mann, himna Föðurs höndin mæta, í húmi virðist að oss gæta.

3. Þriðjudagsins morgun mundin, mig til hvetur, Jesú minn! skjólvæng þinn að skríða undir, skil eg mjer þar frístaðinn, veit að þar eg verki

það, sem vilja þínum hnegist að, Guðs útvaldra gott athæfi, gef eg stundi mína æfi.

3. Þríeinn Guð í þessu húmi, þriðjudagsins tak við mjer, hjá mjer vak í hvílurúmi, svo hræði engir óvinir, mitt hægindi sje hjartað þitt, þjer halla, Jesú! og við mitt, hvíld í brjósti hafðu mínu, svo hvílist eg í skjóli þínu.

4. Morgunroði miðrar viku, í mindugum krapti Jesú blóðs, synda af mjer svipti bliku, seðji' af gnægð Guðs náðar sjóðs, mið-persónan, minn Jesú! mjer að öllu stjórna þú, svo undir fánu þinni þreyi, og þíns fulltingis njóta megi.

4. Til sængur með mjer, Guð minn! gakktu, og geymdu mig í húminu, heilagra mjer hlotnast láttu, hlutskipti í ljósinu, miðrar viku aptni á, og alla tíma vert mjer hjá, hönd þín, Jesú! hvílu tjaldi, helgir englar vörðinn haldi.

5. Fljúg, mín sála! upp sem örninn, í míns Jesú hugleiðing, hann í nótt því var þín vörnin, vakti yfir allt um kring; stríð nú í hans styrkleika, styð þig við hans sannleika, fimm sár Jesú festu' í minni, á fimtudag í iðju þinni.

5. Guð í skauti geym mig þínu, gef indælan værðar blund, eg þjer hjarta offra mínu, innsigla það þinni mund, með dreyra Jesú drag burt synd, dýrri prýð mig þinni mynd, englar þínir að mjer gái, eg svo værum blundi nái.

6. Fagna, sál mín! föstudegi, friðþæging þíns Jesú minnst, hann fyrir þig sjer hlífði eigi, í hjarta þínu geym það innst, vak þú, bið þú, væt þú brár,

virstu að leggja sár við sár, hans við pín svo líkn þjer ljáist, líkaminn um stund þó þjáist.

6. Jeg er skriðinn að Jesú fotum, Jesú! leyf mjer hvíla hjer, úr fjötrum synda fær mig ljótum, faðma mig svo upp að þjer, mitt kvöld - offur meðtak þú, marið hjarta og veika trú, ástríkt þitt mjer aptur gefðu, alla nótt svo hjá mjer tefðu.

7. Lauga mig á laugardegi, í laug þíns hjarta Jesú minn! við laugina gef eg lifi' og deyi, laugaður fari' í himininn; í víngarð' þínum veit eg trúr, veri', en berin fœri' ei súr, haf mig undir hendi þinni, hún svo stýri vinnu minni.

7. Í Jesú nafni jeg svo hætti, Jesum prísi lífið mitt, Jesús að mjer jafnan gætti, Jesús! miklist nafnið þitt, forlát, Jesú! viku verk, vernd mín, Jesú sjertu sterk, burt þó, Jesú! vikan vendi, vef mig, Jesú! þinni hendi.

## Síðari flokkurinn.

# Viku - kvöldvers,

Með laginu: Ó Drottinn allsvaldandi.

1. Húmar nú helgum degi, heimsins allra fegursta ljós, þjer Drottinn! því eg segi, þakkir heiður, lofgjörð og hrós, lífsins braut, ljezt mjer sýna, linast hlaut, sálar pína, eg fræðingar naut, fyrir kenning þína.

2. Húmar og hallar degi, himins og dýrðar ljóminn klár! mín knje eg bljúgur beygi, biðjandi þig og felli tár; fyrirgef, Faðir tryggða! það framið hef, þjer til styggða, þá eg sef í þínu skauti' án hryggða.

3. Húmar og hallar degi, í hafið niður sólin gár, Guð Drottinn! gleym oss eigi, græðarans Jesú blóðug sár, synda gjöld mín afmái, meinin köld, engin þjái engla fjöld um oss hringinn slái.

4. Húmar og hallar degi, hver maður ljettir erfiði, sá sem að sefur eigi, sjálfur Ísraels vaktari, haldi vörð, og hafi' á gætur, hvíld sje kjörð, og blundur sætur, sinni hjörð, hann sendi góðar nætur.

5. Húmar og hallar degi himininn byrgir myrkrið svart, á vorum æfi vegi, enn höfum fetað nokkurn part, í sælustað, drjúgum dregur, dauðinn að. gár ótregur, Guð veiti það, hann verði gleðilegur.

6. Húmar og hallar degi, heimsins allra skærasta sól! ó Jesú elskulegi! um ljóma þú vort sængur ból, svo myrkra her, hjeðan víki, heiptar þver, elds í dýki, geym oss hjer, Guð í himnaríki!

7. Lokið er laugardegi, lokið vikunni enn á ný, svo linna tár og tregi, sem tímar þessari veröld í, lífsins skeið, lýkst um síðir, lífsins neyð, sviptast lýðir, líf í deyð, ljena' oss, Jesú blíði!

---

# Sálmur

útaf fjórtándu hugvekju **Sveinbjarnar Hallgrímssonar,** um syndajátning, andvörpun og bæn.

Lagið: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

**M**aður svo góður enginn er, orðstýrs þó bezta njóti, að ekki hann með sjálfum sjer, segja með Páli hljóti.

2. Eg er að sönnu ekki mjer, ílls nokkurs með-

vitandi, líknan mig ei þó segja ber, mig sjer bezt Guð allt vitandi.

3. Hann leiðir það hulda ljósið í, og leynda þanka manna, verkanna hverjum veita því, víst mun hann umbun sanna.

4. Ó maður kristinn eflaust þjer — að því vel skildir gæta — fyrir dómstóli Drottins ber, á degi síðsta mæta.

5. Ráðsmennsku þinnar reikning þá, rjettvís dómarinn krefur, og lætur þig allar syndir sjá, sem drýgt í leyndum hefur.

6. Fremst munt þú hljóta' að finna þar, að fyrir samvizku þinnar, dómi, þjer fyrri blygðast bar, með beiskju skelfingarinnar.

7. Reikning ef við oss ríkan þá, rjettlátur Drottinn ætti, hverr einn, og jafnvel sjálfur sá, sannkristni játa mætti.

8. Ef að þú, Drottinn allsherjar! oss vilt tilreikna' og meta, misgjörðir vorar margfaldar, hver mun þá staðist geta?

9. Mæli því sjerhver auðmýkt í, orð þau af trega sprottin: eg get ei borið þetta, því, þú ert mjer reiður, Drottinn!

10. Refsaðu mjer þá, Drottinn dýr! en döprum vægja beiði, eg svo tortýnist orku rír, ei fyrir þinni reiði. (Jerm. 10, 24).

11. Bjargaðu sálu mæddri mín, mildi Guð náðarinnar! send þú mjer líknar svölun þín, sakir miskunar þinnar.

12. Kinnroða' og blygðun bera eg má, brot fyr-

ir synda minna, virstu mjer, Faðir! vægð að tjá, vegna miskunar þinnar.

13. Illgjörðir drýgðar sýna sig, sjónum hugarins mínum, í himininn kalla' og klaga mig, klárt fyrir dómi þínum.

14. Orsök því fulla finn eg bert, fyrst eg ei synd afneita, að þreyttur, Guð minn! orðinn sjert, mjer illum líknsemd veita.

15. Óttast eg mætti' að munir þú, með sverði hegninganna, í rjettlátu þinni reiði nú, refsing mig láta kanna.

16. Sáttmála hefna þannig þíns, þrá-brotins efalaust bæri; þrjózku' og dramblætis mikla míns, makleg það beyging væri.

17. Drottinn misþókknun þína sízt, þola má neinn að kanna, þín ef að reiði þung útbrýzt, þá stendst ei nokkur manna.

18. Æ, Drottinn! jeg það játa greitt, jeg hefi frá þjer vikið; eg hef syndgað og illa breytt, eg hef þig tíðum svikið.

19. Mjer þegar vaknar magnleg hjá, minningin glæpa stríða, hjartað mitt fyllist hrærða þá, hörmung, skelfing og kvíða.

20. Hlýt eg því kveina' í harðri neyð, hrygg er mín sál til dauða, algóði Faðir! æ mig leið, frá angist slíkra nauða.

21. Djúpustu sálar auðmýkt í, eg nú mjer varpa niður, fyrir augliti þínu', og því, þrungið mitt hjarta biður.

22. Líkna mjer, Guð! og lít til mín, ljettu þyngd sálar nauða, Frelsarans Jesú fyrir pín, og friðþægjandi dauða.

23. Líknsami Faðir! æ þú ert, í þinni stjórnun vægur, almættið þitt fær allt það gert, sem er þinn vilji þægur.

24. Þessvegna' af hjarta bljúgu' eg bið, þig blíðust hjálpin manna; sýndu mjer aumum líknar lið, láttu þinn andann sanna.

25. Vekja mjer iðrun hreina hjá, til hjálpar sálu minni; afbrotin stór og einnig smá, uppgef af miskun þinni.

26. Faðir líknsami! eg fram kem með, fyrir þitt auglit blíða, iðrandi hjarta' og angrað geð, ásjá mjer, veittu þýða.

27. Gakk ekki' í dóm við þjóninn þinn, þirmdu mjer synda gjörnum, eins og þá Faðir ættrækinn, aumstöddum líknar börnum.

28. Æ! væg mjer, Faðir! fyrir minn, Frelsarann Jesúm kæra, sannheilagasta Soninn þinn, er syndugum líkn rjeð færa.

29. Hugar fásinnu' og hjarta míns, harðúð, virst frá mjer leiða; veit mjer að boðum vilja þíns, verknað til dyggða greiða.

30. Guðdómsins Andinn góði þinn, gæzkunnar Faðir! leiði, um feril dyggðanna fótstig minn, fjölbreyttu' á lífsins skeiði.

31. Að óttast, heiðra' og elska þig, umfram sjerhvað í heimi, stoð hans lífkröptug styrki mig, og stöðugt í trúnni geymi.

32. Eg þá af hjarta bezt sem ber, bljúgur á allar lundir, færa vil Drottinn þakkir þjer, og þjóna lífs um stundir

33. Bænheyr mig, Faðir bezti! í náð, bænheyrðu sálin vonar, lausnargjalds fyrir dýra dáð, Drottins Jesú þíns Sonar.

---

## Eitt vers.

Lagið: Hjartað, þankar, hugur, sinni.

Ber þú nú, Jesús! bænina mína, blessaðann fyrir Föðurinn þinn, legð þú mjer svo liðsemd þína, að líti hann á kveinstaf minn, fyrir þitt heita hjarta blóð, heyr þú mig nú elskan góð, þjer sje lofgjörð lögð og framin, lifandi Guð! um aldir, amen.

---

Prentvillur þær, sem vera kunna í bók þessari, bið jeg góðfúsa lesara að víkja til rjetts vegar, þar jeg hefi ekki getað orðið var við neinar, sem raskað geta meiningu.

Bókin kostar óinnbundin 64 sk. ríkis myntar.

**Kostnaðarmaðurinn.**